# Leidarvísir

til

# ad lesa hid Nýa Testament

med gudrækni og greind,

einkum handa ólærdum lesurum.

---

Ritadur á dønsku

af


Mag. N. Møller,

Dr. Theol., Riddara af Dannebrogsørdunni, Sóknar-presti til Kiøbelov's- og Vindeby's-Safnada.


---

Snúinn á íslendsku.



---

Fyrri parturinn.



---


Kaupmannahøfn, 1822.

Prykt hiá Þorsteini E. Rangel.

Bibliufélaginu
á Íslandi
tileinkast útlegging þessi,
sem lítill styrkur
til ad frama þess háleita augnamid,
útbreidslu þvílíks Kristindóms,
sem grundvalladur er á
Bibliunnar lærdómum

lotníngarfyllst
af
Utleggiurunum.

# Formáli.

Þeirri ritgiörd, er nú selst enni kiæru íslendsku bródurþiód í hendur, snúin á módurmál hennar, hafa menn í Danmörku tekid á móti med allri þeirri velþóknun, sem hennar dýra ágiæti hlaut ad vekia. Sá edallundadi rithöfundur, er fyrst lifdi þá sorgligu tíd, þá margir misgrunudu og forsmádu Guds heilaga ord, og seinna þá fagnadartíma, ad siá bibliuna innsetta aptur í hennar fyrri tignarröd og ánt, ásetti sér med gódum rádum og haganlegri vegleidslu, ad veita sínum blærdu samkristnu fulltingi til ad útdraga af bibliunni, so mikinn andligann ágóda, sem mögulegt er. Ad vísu má samlíkia enni heilögu ritningu vid auduga málm-

námu, í hverri margir dýrir málm-molar, liggia so audsénir, ad einnin sá, sém ad eins skodar þad, sem næst liggur augum, ei gétur annad enn fundid þá og fagnad; en einsog sá verkhyggni bergverksmadur finnur, þess leingra hann grefur í námunni, því meira; á líkann hátt uppgötvar sá lesari, er med tilbæriligum undirbúníngi, tekur bibliuna í hönd sér og med andakt og skynsemd leitar sér vegs til kiarna hennar, ávalt ny sannindi, þá undireins skiærara liós tendrast í skynsemi hans og sæluríkar tilfinníngar verma hans hiarta. Sérhver kristin manneskia mun sér nægia láta þessa vors lærda og gudrækna rithöfunds vegleidslu, hvört heldur hann færir sér í nyt þessa lángordari bók, edur ena styttri ávísun til ávaxtarsams bibliu-lesturs, sem einnin er snúin á íslendska túngu og mun innan skams tíma á prent útgánga medal rita hins íslendska Smá-bóka-félags. Einsog rithöfundurinn hefir

ætlad øllum bibliunnar lesurum, einnin þeim einføldustu, þann litla ritling: soleidis hefir hann, þá hann ritadi þessa bók, sérílaga haft tillit til þess margmenna flokks lesara, er standa á upplýsíngarinnar margbreyttu trøppu, midt ámilli enna eiginligu vísindamanna og þeirra fáfródustu medal alþýdunnar. Med því ad þessi flokkur einnin á Íslandi er einka fiølmennur, og þar eg af eingin reynslu er fullvíss um, ad einnin hinn vellærdi gudvitríngur mun lesa þessa ágiætu bók sér til fródleiks og sannrar uppbyggíngar: so var mér þad harla kiærkomid af vidrædu ad verda þess var, ad þeir af mínum elskuligu tilheyrurum þeir Hrr. Candidatus theologiæ G. Oddsen og Studiosi theologiæ P. Gudmundsen og P. E. Hiálmarsen, høfdu ásett sér ad snúa þessari greiniligri vegleidslu til ad lesa hid N. T., á sitt módursmál og ad hun, ad því búnu, prentud yrdi og seld med gódu verdi,

ef þeir ad eins giætu feingid 200 rbda. peningastyrk til prentunar uppákostnads. Ad þau prúdu úngmenni, skyldu auk þeirra frístunda, er þeir so viliugt og hrósverdugt varid hafa til þessa starfs, þyrftu ad óttast fyrir nokkrum ødrum baga, bar mér, sem vini þeirra og rádgiafa ei ad samþykkia. Eg rádlagdi þeim því, ad sækia um þann naudsynliga styrk hiá enni konúngligu umsiónarnefnd, fyrir skólasiódnum ad publicos usus (til almennings nota) og þessi háttvirdta nefnd, er lldsynt hefir so mørgum nytsømum og kristiligum fyrirtækium á fóstuijordu vorri, fékk framqvæmt, ad Hans Hátign, vor mildi Landsfadir, veitti þeim 200 rbd. til eflingar þessa gudliga fyrirtækis. Ad feinginni vissu um þennan styrk, tókst Hra Bókþryckiara Þorsteinn Rangel á hendur ad prenta bókina med því skilyrdi, ad hún øll deild í tvo parta (af hvørium hinn fyrri nú felst af hendi, en sídari partsins meiga menn vænta

lofi Gud, ad vori komanda) seld verdi fyrir 2 rbdli.

Af þeim fyrirmála, med hvørium Hra rithøfundurinn byriar hid danska frumrit, meddeilum vér fylgiandi, med því þad einnin vidkémur enum íslendska lesara:

«Med innihalds ávísir høfudatrida sérhvørrar einstakrar bókar, hafdi eg einkum þann tilgáng, ad tilkynna þánkagáng ens helga rithøfunds, samt líka ad útþyda einn og annann myrkann og vandskilin stad. Enn hvar þetta ei án margyrda gat í verk komist, geymdi eg mér ad tala þarum fyrrenn í skíringargreinunum. Eg hefi ecki so skilmerkiliga tilkynnt innihald enna fiøgra Gudspiallamanna, sem hinna annara bóka, sumpart vegna þess þeir, sem histórískir eru mestpart audskiliganligri, sumpart vegna þess eg giørdi rád fyrir ad lesarar minir hefdu náqvæmari kunnugleika um Jesú líf og líferni, sem er høfudinntak gudspiallanna. Postulanna Giørn-

íngabók er ogso ad vísu histórisk bók; enn þared hennar innihald er midur alkunnigt, syndist þad gagnligt ad gésa lesaranum stutt ágrip af henni.

Yfirhøfud, er þad ecki so miøg augnamid þessa rits, ad upplysa sérhvørn myrkan stad, er mæta kynni lesara ens Nya Testamentis, sem ad leidbeina hønum, til kristiligrar heimsærslu þess giørvalla, og vara hann vid þeirri misbrúkun, sem einnin þad helgasta og besta ecki ætíd fer á mis vid. Eg hefi þessvegna ei dvalid vid þvílika þúngskilda stadi, hvørra útskíring ad vísu gétur verid enum skriftlærda umvardandi, enn midur árídandi þeim, sem les einasta bibliuna sér til uppbyggíngar; einasta þá stadi, hvørra møkkvar og og tvíræddni — óadskilianlig frá sérhvørri fornatídarriti, já yfirhøfud, frá mannligu ordfæri — giæti freistad lesarans til efasemdar edur misskilnings, þá hefi eg eptir besta mætti leitast vid ad útþyda. Sérhvørt

sem girnist samanhángandi útskýríngu yfir hid heila N. T. má leita hennar í þvílíkum ritum, hvar þessi helga bók ecki einasta finnst útløgd, heldur útþýdd med fiølda skíríngargreina, einsog í Guldbergs ypparligu útleggíngu ens N. T. Min ósk var einasta sú, á þeirri tíd, þá skynbragd á bibliuligum Kristindómi, sýnist vakid á ný, og Forstióninn hefir unnt enni dønsku kyrkiu endurbættrar útleggíngar ens N. T., líka ad framleggia minn, jafnvel litla skérf til fromunar ens mikilvæga efnis, hvartil so margir verdugir menn sameina sína árvekni, so þessarar helgu bókar háleita verd, ordid giæti heyrum kunnigt, so hún yrdi vorra daga Kristinum eins kjær, sem hún var enum gudhræddu medal vorra fedra, og ordid oss, hvad hún var þeim, og hvad hún í siálfri sér er, þad einasta áreidanliga liós á vorum vegum, og einasti óbifanligi stólpi trúar vorar og vonar".

Eg gét ei endt formála þennan, án þess, undireins að votta öllum þessarar bókar kristiligu lesurum minn fagnað af þeim heiðrandi vitnisburði, er so margir sannsöglir menn, og á meðal þeirra sérilagi minn vin, hinn eðallundaði Dr. Henderson, hafa géfið um Íslands þióðar námfýsi, guðrækni og kiærleika til heilagrar ritningar. So mikið sem himininn er hærri, enn jörðinn, so miög yfirgnæfir þessi lofstýr sérhvörn annann, er menn afla sér alleina með jarðnæskri framqvæmdarsemi, eðr luckunnar skammvinnu gáfum. Soleingi sem Íslandsbúar trúliga rækia frómlyndi forfeðra sinna og giörvallan andligan dugnað, munu þeir ánægðir lifa með þær úthlutuðu Guðs gáfur, einnin þá, er þær falla þeim sparsamt í skaut, þeir munu ánægðir með lítið og minnugir Páls orða: „að guðrækni með nægiusemi er mikill vinningur", ei misunna Suðurlandabúum friófsamari jarðvegs og blíðara loptslags.

Náttúrunnar yfirgnæfanligu gá'um verda all-optast samfara óhóf, lauslyndi og munadarlif, frá hvørium hardsókt størf léttiligar verdveita nordbúana, samt sú eptirþánkasama alvørugtsai, er sæmir og á heima hiá Nordurlanda sonum. Því midur hafa Sudurlanda lauslætis sidir flekkad marga á vorum löndum, sérílagi á seinni tídum, þá vantrúin útbreiddist so miøg í Evrópa, þá margir giørdu gis ad bibliunni og ennþá fleiri hirdtu ei um hana, nádi lausúng geigvænligum þroska. Af þeim árligu listum yfir fæddi, ekta- og óekta-borin børn, hefir eg, ei án hryggdar, ordid þess var, ad tala enna sídstnefndu einnin á Íslandi, er í seinni tíd yfrid stó-. Þetta er eitt hryggiligt teikn, er vinir þiódarinnar óska ad afmád verdi. Og med því kirkisi, einsog allar dygdir þróast siálfkrafa, þá sannur Kristinndómur giørsamliga hefir gagnvermt giørvallan lýdinn, so gésit bædi vid lostasemi og øllum ødrum

løstum ecfért so ørugt medal, sem ad þeckia til hlytar og laga sitt liferni eptir Jesú dyrmætu lærdómum, sem eru kraptur Guds til sáluhiálpar fyrir hvørn þann, sem trúir. En til ad mæla framm med og útþyda þessa sæluríku frædi, vona eg ad bók þessi muni i Guds hønd ei sídur verda heilladriúgt medal útá Islandi, enn hún var þad í Danmørku; þartil gefi Gud sína nád og blessan!

Kaupmannahøfn, þ. 4 Aprílis 1822.

Dr. J. Møller.
Prof. Theol.

# Innihald

## fyrra partsins.

---

Servitríngs hleypidómur er þad, ad bibliann einungis sé skrifud handa bókvíssum lesurum. Ad eg ecki tali um, hve hryggiligt þad væri, ef ad bók sú, í hvørri grundvøllur trúar vorrar og vonar er innifalinn, væri þeim flestu gagnlaus, og giæti fáum ad notum komid; og hve fábreytilig mótsøgn væri þad, ef ad en sama bók, sem, hvad mestann hlut hennar snertir, ed Nya Testament, væri skrifad af ólærdum fyrir ólærda, nú einasta giæti bókvíssum ad notum komid. Ad vísu géta menn eingannveginn neitad því, ad mikla upplýsíngu i þessari eldgømlu bók, géfur kunnátta túngu þeirrar, á hvørri hún í fyrstu ritinn er, tída þeirra, á hvørium hun birtist, sem og hit af hvørium hun, og handa hvørium hun er skrifud; þessvegna verda fólksins lærifedur ad vera bókvísir menn. Þó er bókvísi þessi ecki hin fyrsta og fremsta krafa til ad skilia heilaga ritningu og færa sér hana i nyt. Nei, sá vakti og æfdi skilníngur á þeim hágudddómliga sannleika, sem bibliann

innihelldur, hann er adal-atridid. Hann liær oss lykilinn ad þeim helgu fiársiódum, sem bibliann geymir; leidir oss innst í helgidóminn, og lætur oss dvelia þar ánægda. Sá andi, sem taladi fyrir munn bibliunnar heilögu rithofunda, einkum vorrar kristiligu bibliu, ens Nýa Testamentis, þessi andi er sá sami, sem lifir og hrærist í allra gudrækinna manna hiörtum. Sáfur og kraptar eru margshattadir, stand og kiör manna í lífinu erú margbreytt, en andinn er sá sami; þess-vegna skilia gudelskandi menn hvorir adra; þótt þeir lifi á fiærlægum tídum og stodum; eitt og hid sama er þad, sem þá mest umvardar; eitt er þad sem þeir inniligast þrá. Einn anda lifir og hrærist í þeim; eitt sameginlegt band umgyrdir þá. Af þeim samanstendur sú ósýniliga kristiliga kyrkia, sem útbreydd er yfir allt jardríki; þessa nefnir Jesús sína; og þeir heyra hans raustu, þad er: þeir skilia hans rædur, Joh. 10, 27, sá andliga sinnadi dæmist af þeim, sem eru andliga sinnadir, segir Paull 1 Cor. 2, 14 15; Jesus sagdi, Matth. 11, 19, vísdómurinn réttlætist af sínum sonum þ: sá vísi skynjar verd ens vísa; — enn finnist nú þessi manneskiunnar ædri skilníngur, eins vel hiá leikmönnum sem lærdum; geti hinn eins vel og þessi skérp sína gudelskandi og sidferdisligu tilfinníng, so er audséd þaraf, ad sá adaleiginlegleiki, sem útkrefst, til ad lesa bibliuna sér til sáluheilla gétur hlotnast, sovel þeim leika sem lærda.

Sé þarámóti samvitskann, þessi innvortis dómari þánka og athafna vorra, enn nú ecki vöknud hiá manneskiunni, á medann gétur hún ecki metid, sem vera ber, bibliuna og hennar veruliga innihald, hvört helldur hann er leikur eda lærdur. Menn meiga þarfyrir ecki undrast yfir, enn sídur hneixlast á því, ad so misjafnir dómar felldir vóru um þessa helgu bók og þad jafnvel af lærdum mönnum. Þad gétur ecki ödruvíssi verid; því vort umdæmi um ágiæti bibliunnar, hlýtur naudsynlega ad vera komid undir andans mismunandi skynsemd og hiartans betrun, sem vér nád höfum, og ritníngin nefnir upplýsíngu. Enn þann lærda og ólærda gétur vantad mikid hérá. Því er þad ei ad undra, þótt bibliann á ýmsum tídum hafi mátt mæta heimugligum og opinberum mótsögnum. Því bibliunnar andi, er sannleikans andi, og nær var þad, at sannleikinn ecki mætti mótsögn. Tídanna þeinkíngarmáti, sá hverfuli aldarháttur, var ymist hneygdur til hiátrúar, ymist til vantrúar; enn hvörutveggia eru jafnt gagnstædt bibliunni. Hiátrúarinnar kénnifedur, Phariséarnir, vantrúarinnar forsvarsmenn, Sadducæarnir, vóru hvorir utveggiu Jesú jafnmótsnúnir; og Luther komst á sínum dögum ad raun um eins óhaggvæmann þeinkingarhátt í tilliti til heilagrar ritníngar. Þá, hiátrúinn drotnadi, eins og vér, sem lifum undir velldi vantrúarinnar. Því á medann menn héldu, ad þeir giætu opnad sér himnaríkis dyr med giafmilldi

vid kyrkiur og klaustur, gátu menn ecki unnt þeirri bók, sem í ljós leidir allt hræsnis yfirskin, og talar so skorinnordt til hiartans; líka fundu audlegrar stéttarmenn þad sér ábatasamt ad skyla ljósi því, sem so berliga syndi hid gagnstæda millum, ásælnis þeirra og enna fyrstu kénnara siálfsafneitunar. Og þegar vantrúinn seinna meir kom í hiátrúarinnar stad, fór því fama framm, ad bibliann vard ad athlátri. Því á medann dygdinn er so nidurlækkud, ad hún einúngis er álitinn ad vera klókindi, so hlytur Kristur og hans Postular ad synast dárar; med því, þeir afneitudu ollu, sem sandsaligri manneskiu er hid kiærasta, til at útbreida gudsríki á jordu. Og biblian verdur ad synast fáfródlig og adhlæisverd bók, vegna þess hún telur dygdina ad vera innifalda í siálfsafneitun, og bydur manneskiunni ad leita sinnar ædstu farsældar í voninni. Einungis var þad unnt sannleikans hreinskildu elskendum, sem kappkostudu ad vera jafnfrír fra hiátrú sem vantrú, eins og Jesus ad ordi kémst, Luc. 8, 10, þeim var unnt ad skilia leindardóma gudsríkis.

Reynslann hefir því einnin synt, ad þvílíkar hreinskilnar manneskiur, so vel lærdar sem ólærdar, hafa á sérhverri tíd elskad bibliuna og uppskorid ávoxt fyrir sál og sinni. Adal-inntakid skildu þeir; því vinir skilja hvorir annan: þeir gátu fundid þad, sem til þeirra talad var — því hiarta þeirra og þess þorf leidbeindi þeim, þeir

mundu margar kiarngóðar bibliugreinir; þeim sam-svarandi fundu þeir innvörtis hiá sér, og gátu þessvegna metið þær, sem vera bar — bibliuna brúkuðu þeir sem enakjærkomnustu andagtsbók, því andagtugir í siálfum ser, gátu þeir enn nú meira vermst við þann himneska loga, sem brennur skiærara og hreinna í þessari bók, enn nockurri annari. Varð mótgángur hlutfall þeirra, syrgðu þeir yfir vina legstað, þiáðust þeir lengi á sóttarsænginni; þá var bibliann þeirra besti, sem optast þeirra einasti huggari, og það ennú i því seinasta stríði; hvar allur manna vísdómur optast bregst; þá hefir trúinn á Guðs orði géfið það sinnisrósemdar eptirdæmi, sem opt uppbygt hefir alla nærverandi.

Þvílíka óumbreytanliga elskendur hefir bibliann haft á sérhvöriu tímabili, og enn nú á hún þá. Það vóru þvílíkir vinir, sem stóðu staðugir, á meðann stormurinn, á hinum vantrúarinnar dögum, geysaði gégn þessari heilögu bók; ecki létu þeir sig, eins og so margir aðrir, burthrífa af þeim hæðninnar straumi, sem reistist móti guðsorði; þeir aðhyltust bibliuna eins og reyndann vin. Þessvegna geta þvílíkir Christnir nú í einrúmi glaðst yfir, að bibliann, sem so leingi var misþekt, og gleymd, nú aptur er leydd í liós; á meðann þorri manna máske, eins fávitrir sem áður, eptir apandi þeim hér að undan fráskírða þeinkíngarhætti og siðveniu, verða við það sama; þeir géta glaðst yfir, að þessi sama heilaga bók, sem menn fyrir skömmu

képiust hvør um annan við að auðvirða og útrýðia af almúgans høndum, nú aptur með áður óheyrðri alvørugéfni útbreiðist meðal manna allra stétta og stands, á meðal kristinna og ókristinna, um giørvalt jarðríki; þeir géta nú dáðst að þeim eyliffa vísdómi, sem þannin veit að stiórna tilfellis anna gángi í heiminum, að sá mannligi vísdómur, sem girntist að upphefia sig yfir Guðs orð, hlaut athlæi að verða, og að tilfinníng þorfnunar þess eylífa lífsins orðs, sem bibliann geymir, er uppvøknuð í øllum eðlari hiørtum. Þessi eginn laungun eptir þeirri andansfæðu, sem í heilagri ritníngu er framboðinn, er sá besti undirbuníngur undir blessunarríkan lestur hennar; þessi laungun á að leiða menn til vísdómsins uppsprettu, og at kénna þeim að ausa af henni, so mikit sem þeirra andar- og sálar þørf krefur; eins og sá, sem eckert þráir annað, enn lífsins sandsaligu nautn, eingan-veginn flýr til bibliunnar til að seðja þessa laungun; eins óskilianlegt er það að nockur géfist sá, hiá hvørium þessi æðri laungun er vøknuð, géti hann annars lesið með eptirþánka í nockurri bók, og hafi hann ecki inndrukkit nockurn hleypidóm á móti bibliunni, óskilianlegt er það, at hann æski sér ecki að kýnna sér hana, eður í það minsta þann hluta hennar, sem sérílagi er skrifaður handa kristnum, betur enn han gat á æsku- og úngdoms-árunum — hafi þær einstøku frásagnir, sem hann hefir heyrt og lesið um Jesum, vakið lotníngu fyrir

honum; skyldi hann þá ecki girnast ad vita ytar-legar og meir um heimsins stærsta velgiörara? hafi hann í barnalærdomi sínum, í hvörium Jesu þeck-íngar fyrsti grundvöllur var lagdur hiá honum, feingid forsmeck af þessari dyrmætu sálarfædu, skyldi hann þá ecki nú girnast ad mettast yfirgriótanlegar af henni? hafi hann einúngis af stuttu inntaki þessarar heilögu frædi ordid þess áskynia, hvad christinndómurinn var og er fyrir manneskiuna, gétur hann þá annad, enn girnst ytrari uppfræd-íngu, um uppruna þessara guddómligu trúar-bragda, um þeirra framgáng, og sírd þad, er þau hafa mælt; um þá makalausu menn, sem med þeirra siálfsafneitan, hafa útbreidt þau á jördunni? en hvar svalast þessum þorsta eptir sannleikan um betur, enn af uppsprettunni siálfri, sem, ad so miklu leiti leikmenn þarfnast, standur þeim öllum opinn, er skilia sitt módurmál. Vildum vér ytarligar kynna oss Jesú hánkafar og breytni; hans æfi og kiör, hvör gétur þá betur sagt oss þad, enn þeir menn, sem heyrdu hans ord, sáu hans verk, og fylgdu honum í Galilæa, vóru hiá honum í Getsemane, stódu vid hans kross á Golgatha, og í 40 daga umgeingust hann upp-stadinn frá daudum? hvar gétum vér vænt ad finna Jesum betur afmáladann, enn í þeirri skírslu er þeir handgeingnustu vinir hafa gefid oss. Ef vér lesum þá 4 sonefndu Gudspiallamenn edur Jesu lífsögu, þá heyrum vér tvo siónarvotta, Matthæus

og Jóhannes, og tvo slónarvottanna lærisveina: Marcus og Lúcas, hvørra samqvæmni sín á milli í adalefninu, og mismunur í smá-atvikum synir, ad vér hofum fyrir oss 4ur vitni, sem oll eru so vel, kunnug efninu, sem þau eru einstakar persónur; og hvørra einfaldi, hreinskilni fráſagnarmáti fullvissar oss um sannleika þeirra fráſagna; ef vér girnumst ena náqvæmustu upplysíngu um Jesu lærdóm, getum vér á annann hátt feingid hana betur, enn ad heyra, hann siálfann og þá menn, hvörium hann útbytti síns anda ypparligustu gáfum, hans postula? Hér finnum vér Jesu Evangelium hreint og óminngad, eins og þad kom frá hofundi þess, ad vísu ekki nidurradad at lærdra manna vísu, ekki sleypt, í kunstugligu móti; helldur framsett med lífi og krapti í andríkum orda-tilækium, sem koma fra hiartanu og gánga til hiartans. Vildum vér siá þad makalausa dásemdarverk, sem er oss fyrir augum, ad Jesú kyrkia er reist, grundvollud og útbreydd á jordunni af 12 umkomulitlum monnum, einasta fyric sannleikans krapt, þrátt fyrir allar tálmanir af myrkranna ríki; hver getur þá gefid oss áreidanligri skyrslu um þad, enn madur sá, sem á flestum reisum fylgdist med Páli, stiptara þeirra flestu safnada, sá madur, sem var siónarvottur þess flesta, sem hann fráskrifir, eg meina Lúcas, sem ritad hefir Postulanna Giorníngabók? Verdi oss nú litid af þeim 4 gudspiallabókum, til ennar

síðstnefndu bókar, þá hlýtur hennar lestur að hræra sérhvert óforðíarfað hiarta, því af henni sýnjum vér að Christinndómurinn er Drottins verk. Hér siáum þvílíka vér ummindan á öllu, sem ecki skilist getur án guddómsins ýfirnáttúrligu medverkunar. Vér siáum það sannleikans ríki, sem Jesús hafði grundvallað, rétta við aptur, hans óvinum til óheilla, er við hans dauda sýndist að vera giør eydilagt; vér siáum Jesu vini, sem fyrir skommu földu sig af ótta fyrir Gydíngum, útbúna með krapti af hædum, birtast fólkinu, med þvílíkri hugdjørfúng, sem alleina Drottins andi gefið gat; vér undrumst ýfir Péturs oruggu rædu til fólks fiøldans, og enn meir ýfir hans einurd fyrir ráðinu í Jerúsalem; þared hann fyrir skommu var so hugblaudur — að vísu hryggiumst vér af Stephans óblíðu kiorúm, er var sannleikans hreinskilní talsmadur, og af þeim felmtri og slótta, sem þessi reidarþruma olli þeim fyrsta søfnudi; enn næsta skiótt lærum vér að dáðst að enum guddómlega vísdómi, sem med því vídsvegar útbreiddi sannleikans geisla fyrir utan Gydíngalands takmørk. Óvart kémur oss ens ákafa offsóknarmans, Páls hastarliga umvendan til christinndómsins; og fylgium vér þessum makalausa manni, og gaumgiæfum hans furduligu kior; þegar vér siáum hann, med stødugløndi og hugdjørfúng, gánga í fángelsi, á móti misþyrmíngum og lífshættum, so hann snúíð giæti monnum til Krists, og styrkt þá umvendtu;

þegar vér lesum hans forsvars rædur Post. G. 6, 22, 1—22, 24, 10—23. 26, 1—29, sem bædi vitna um hans skynsemd og hygginði, og hans hreint skilnu sannleiks elsku; þá sannfærumst vér um, að sú köllun hann fékk hiá Damascus, ecki er uppe runnin í grillufullum heila, helldur komin frá Drottni, hvörs máli hann taladi — og ef vér girnumst náqvæmar að þeckia þá yfirnáttúrligu menn, hvörra baráttu og siálfsafneitun vér höfum að þacka alt það liós og þá von, sem kristinndómurinn géfur oss; ef vér vita vilium í hvada anda þeir fluttu Jesú kénníngar, og hvöria umhyggiu þeir báru fyrir þeim söfnuðum, þeir stiptudu; hvar með gétum vér betur fullnægt þessari laungun, enn með því að lesa postulanna bréf? Þótt sendis bréf þessi væru oss í eingu ödru tilliti umvardandi, enn því, að þau eru oss minnismerki ennu mestu afbragdsmanna, er nockru sinni lifað hafa, manna þeirra, sem ummindað hafa jardríkið; það eru sendibréf til vorra fyrstu brædra í Kristo, og sumpart þess kyns, að þau uppvekia í sérhvöriu mannligu hiarta medlídan; þar eru nefniliga bréf frá þeim, sem fiotrađr var fyrir Christi nafns sakir, frá þeim kénnara, sem var reidubúinn að innsigla þá trú, sem hann kénndi, með sínu blódi. (Páls bréf til Ephesus manna, til þeirra í Philippi, Colossuborg, til Philemons, og 2 til Tim); innihéldi nú þessi bréf, segi eg, eckert annað oss umvardandi, mættu þau þó vekia gaumgiæfni hiá

sérhvorri eptirþánkasamri manneskiu; enn í þessum sendibréfum finnum vér Jesu lærdóm útlistadann, útþyddann og heimfærdann uppá ymisleg tilfelli mannlegs lífs; það er í þeim, að vér siáum giersamlega opinberaða þá gudsríkis leyndardóma, sem Jesus med ásettu ráði skyldi undir hugarmindum og eptirlíkíngum, af því þau veiku augu gátu enn þá ekki þolað sannleikans fegrtu birtu Joh. 16, 12. Það er í þeim, að vér finnum alt það, sem Jesu postular siálfir ekki gátu skilið, eða að fullu útþyðt, áður enn hans forklárun upplysti hanns óliósari forlog, og andi sannleikans hafði opnað þeirra augu. Hverninn giæti sá, sem æskti náqvæmari upplysíngar um Jesu trúarbrogð, forsómað að lesa þessi sendibréf?

Enn að auk ennar almenniligu gagnsemis, sem lestur ens Nya Testamentis veitt gétur sérhverium þeim, sem það hefir af Kristindóminum meira, enn nafnið eitt, so er einginn bók til í heiminum, af hvorri manneskiann gétur aflað sér meiri næríngar til að styrkia sig í trú, von og kiærleika í sérhvoriu sinnis ástandi og lissins kríngumstædum, enn af þessari heilogu bók. Morg góð og uppbyggilig rit finnast, sem eru þeim kristna nytsom að lesa; með því þau gagna til að útþyda og færa sér það í nyt, er Jesus og hans postular kénnt hafa; enn þau eru þó oll uppsprottinn af bibliunni, einkum af vorri kristiligu bibliu; sérhvort þeirra er því fullkomnara, sem það nálgast

meir uppsprettu þá, hvaðann þau öll eru tek: inn; og hver er sá, sem ei heldur vill ausa af uppsprettunni siálfri, þegar það stendur í hans valdi? og hvar annarstaðar finnst heilnæmari og kraptugri fæða enn andliga lífs, enn í lífsins aðaluppsprettu? Einginn er sá, er hefir talað eður getur talað við oss þannig um Guð og hans ráð oss til sáluhiálpar, sem Jesús, hvers eigin orð vér lesum hiá þeim 4 guðspiallamönnum; hvert oss litið verður til þeirrar stöðu, sem hann var í, með tilliti til Guðs, eða þá, í hverri hann er, í tilliti til vor, so géta einkis orð hrært fremur, enn hans, hiarta þess kristna; hann talar með þvílíkri alvörugéfni og myndugleik, sem einasta heyrði Guðs eingétnum syni til Joh. 14, 6 fylg. Hann ræðir um Guð eins og sá, sem innvígður er til að skilia Guðs leyndardóma; um eylífðina eins og sá, sem niðurstié frá himnum, og var uppnuminn til himna, Matth. 11, 27 Joh. 3, 12. 13. hann leiðir oss í gégnum lánga röð af skynseminnar álygtunum, til að færa rök fyrir Guðs tilveru og eylífu lífi; enn hann boðar oss Guð eins og sinn og vorn föður; hann géfur fyrirheit um, og — hvað meira er, hann veitir sínum elskendum, eylíft líf Joh. 10, 28 fylg. Í hans ræðum verðum vér varir við hiartnæman sannfæringar talanda, með hverium enginn annar enn hann talað hefir um Guð og eylífðina; í þeim finnum vér ecki þá óttaslegnu efasemd, ecki

þá haltrandi óvissu, sem næsta opt sést í mannligum ritum, er viðvíkia því, sem manneskiunum er mest umvarðandi. Nei! í Jesú ræðum um eylíft líf er þvílík vissa, þvílíkur áreiðanlegleiki, álíkt einni himneskri raustu. Þess meir, sem vor trú á hann þróast, þess fremur eflist trú vor á Guði og næst vor æðri áqvarðun; enn aldrei sinnum vér betri næríngu trúar vorrar á hann, enn ef vér jafnaðarlega gaumgiæfum hans orð; því með fullum rétti getur hann krafist vors trúnaðartrausts; það hefir hann sannað, með giørníngum þeim, sem hann vitnar til Og að þessir giørníngar hafi skéð, og það á þann hátt, sem guðspiallamennirnir fráskíra, um það sannfærumst vér best í því vér lesum þá heiløgu søgu með sannleiks-þyrstri sálu; því eins og vér einginn ønnur rök þurfum að tilfæra fyrir rithøfundanna hreinskilni, enn þeirra ókonstuga og hiartnæma frásagnarmáta, eins gefur Jesú sinnislag og breytni, sem vér þekt fáum hiá þeim 4 guðspiallamønnum oss fulla vissu um það, að hann hvørki hefir leidt þá, eða leiðir oss í villu. Því af øllu því sem hann aðhafðist framskein sú guðdómsins ímind, sem hann bar, so hann með øllum rétti sagt gat: «sá sem hefir séð mig, hefir séð føðurinn", Joh. 14. 9; hafi hann sagt ósatt, hafi hann brúkað kiænsku til að tæla fólkið og sína elskendur, hafi hann t. d. kallað á Lazarus, eins og hann væri dauður, meðann hann þó alleina var skindauður — hafi hann

gétad talad falsarans túngu, í sinni qvediu til sinna vina, í hverri hann so opt vitnar til sinna verka, Joh. 14, 11, þá yrdum vér ad trúa, ad Gud siálfur logid giæti. Ef vér æsktum oss þvílíka vissu um vora ædri áqvördun, sem eingum efa er undirkostud, þvílíkann stólpa, sem stendur stödugur í ofvidrinu, og vér óhultir gétum reidt oss á, þegar sú bygging sem er reist á eintómum skynsemdar ástædum, tekur nidur ad hrynia; þá látum oss flya til Kyriara og fullkomnara vorrar trúar; og gaumgiæfa hvörninn hann ad ordum kémst um þad komanda líf. Næsta nytsamligt er þad líka ad vita, hvörninn adrir vísir menn leitudust vid ad styrkia vora von um ódaudleikann; enn brádt verdum vér þess áskynia, hve stór mismunur er á hans og þeirra rædum, ad so miklu leiti, sem þeirra ecki eru byggdar á hans — og ósialdann finnum vér oss þarfnást þvílíks kénnara, hvörs ium alleina heyrdi ad stadfesta sínar sannfæríngar med þeim ordum: "eg segi ydur". Einn hann er í þvílíku sambandi vid oss, ad hans ord hljóta ad vera so sérdeilisliga mikilvæg í augum þess trúada kristna; þad er vor guddómligi Lærimeistari, sem talar; enn hann er líka vor Frelsari, Drottinn og Dómari; hann samteingir öll sin ord vid eginn athafnir; öll sin fyrirheit vid uppfylling þeirra — hann — sem bodar syndurum frid vid Gud, hann hefir siálfur afrekad þennan frid fyrir sinn dauda; hann, sem gaf oss von eylífs lífs, hann er grund-

vellur þessarar vorrar vonar, hann hefir auglýst og stadfest vora von, med því ad hann uppreis af grøfinni, og fór tilbaka til fødurfins. Hann talar vid oss sem Drottinn og Kóngur; en hefir hann þá ecki audsýnt sig ad vera sinnar kyrkiu høfud og Herra, med því ad stipta hana og vidhalda á jordu? — hann talar eins og vor Dómari; enn hefir hann þáecki sýnt sig ad vera heimsins dómara, ad so miklu leiti sem jørd þessi er réttlætisins siónarpláts? hann géfur oss áreidanlegasta leidarvísir til betrunar liferniſins, og siálfur er hann fullkomnasta heilagleikans munstur — og. þótt so væri ad hans kénníngar eigi hefdu so yfirfliótanlega yfirburdi, so eru fullkomnar ástædur til, ad sá trúadi kristinn eingan annan heyrirmed þeirri lotningu, kiærleika og trúnadartrausti, eins og siálfan Jesúm; enn eins og aldrei neckur hefir géfid oss so hreinar og ófølskvadar hugarmindir um Gud og hans vilia eins og Jesús; so hefir einginn innsveipad þau í fegri, manneskiunum verdugri og hagqvæmari búnad, enn hann; og í þessu tilliti hafa Jesú rædur hiá gudspiallamønnunum einka-afbragdsliga yfirburdi. Ad vísu gétur madur ad nyu, fundid þá sømu lærdóma, sem Jesus kénndi oss, í ødrum cristilegum bókum, ad so miklu leiti þær, hvad innihaldid snertir, eru trúliga útdreguar af bibliunni — enn hvergi finnum vér þá framsetta med þvíliku fiori, krapti og snild, sem í Jesú egin rædum. Hann innsveipar jafnadarlega lærdóma

sína í frásagna og samlíkíngaform; og þessar eru ei einasta lempaðar eptir austurlanda Þjóða smekk, helldur lagaðar vel eptir allra manna þørfum. Ekki eru samlíkíngarnar teknar af þeim hlútum, sem fáir þekktu, helldur af náttúrunni, er liggur øllum fyrir augum opin. Þær tekur hann, sem kunnugt er, af fuglum himinsins, af lilium akursins, frækorni jarðarinnar, af úngbørnum, og af fleirum þvílíkum náttúrunnar alkunna hlutum; og þá diúpsærustu lærdóma innifelur hann í þessum tilgiørðarlausu líkíngum. Hver hefir t. d. gefið svo fullnægiandi svar uppá hið þúngskilda spursmál, sem so margir hafa brotið heilan yfir: „hvers vegna Guð líði það illa í heiminum“, sem Jesús í þeirri auðskildu líkíngu um illgresið og hveitið? Matth. 13, hvar finnum ver trúarbragðanna margbreyttu verkanir á hið mannlega hiarta, og þær hindranir er niðurkefia friófgun ens guðdómliga frækorns, skilianligar útlistaðar, enn í líkíngunni um þá fernslags sáðjørð? (í sama kap.) hver hefir nokkru sinni með lifligri og yndisligri lit afmálað Guðs føðurligu mildi við syndarana, enn Jesus í samlíkíngunni um þann fortapaða son? (Luc. 15. 11—32) þessar evangelisku samlíkíngar hafa þá einkunn ødrum fremur, að þær hvørki eru of þúngskildar, né um of auðskildar. Þær eru einkis manns skilníngi ofurmegn, hafi auga hans sjón, og hiarta hans tilfinníng — enn þeim nægiji ei með sliðruligán og svefnþrúngin lesara. Nei! til að skilia þær að fullu er þørf á

eptirþánka; enn þá launa þær ríkugliga enum eptirtektasama lesara ómakið. Hann mun ekki til ónytis grafa í þessum gullnámum, helldur mun hann þar finna dyrmæta fiársióðu fyrir sál og sinni — og því dypra hann rannsakar, þess meira finnur hann. Því er eins varið með þá sannleika, sem innsvaipadir eru í þá blæu, er Kristur þeim valdi, sem þá sky draga fyrir sólina; nær þau sundrast, skín sólin með mognudum lióma; þannig leggia þær evangelisku samlíkíngar líkt sem blæu yfir hinn heilaga sannleika, hverri þá menn upplypta, stendur sannleikinn því skírligar oss fyrir augum opinn. En einkum þessvegna verka þær þess kroptugar og varanligar á þann gaumgiæfna og eptirþánkasama lesara; og hafi menn einusinni skilið þær, géta þær ekki úr minni gengið. Menn hafa máské heyrt og gleymt aptur mørgu forsvari fyrir guddómligri forsión, sem líður það illa í heiminum; enn hafi menn einusinni skilið þá réttlæting sem er innifalin í enni einføldu samlíkíngu, um illgresið og hveitið, þá mun sú aldrei úr minni líða. Hver er sá, sem ei heyrt hefir marga, máské snialla rædu um Guds myskunsemi við syndara, án þess þó gløggliga að géta munað hana síðann; þarámót gétur ekki lidið úr minni afmálun þess fodurs, er skundar ímóti enum ádur villuráfandi, nú aptur heimhverfandi syni — og einnin sannleiki sá, er þar í liggr — mun æ í minni vera? og hvernin skyldi hin góða kristna

manneskia géta gleymt þeim af Jesú framsettu sannleikum, hværra endurminníng ánŋast, við at líta þau náttúrunnarríki, sem um oss eru hvervetna? Gétur sá guðhræddi bóndi, hvorium kunnar eru kénníngar Krists sáð jorð sína, birðt sáðlandanna ávexti, litið engianna blómstur, hlustað á saung himinsins fugla, án þess hann ástundum minnist þeirra lærdóma, er Jesús hefir teingt við þessa hluti, sem hvervetna má líta á láði og í lopti.

Þó eru það ecki einúngis þær frásagnir og samlíkíngar, í hvorium Jesú lærdómar eru innifaldir, heldur var øll hans kénníng afbragðslig sakir hiartnæmis, sniallmæla og krapts. Látum oss til dæmis að eins géta tveggia Jesú ræða, þeirra lengstu, er vér hofum af honum, þeirrar nl. er hann héldt á fiallinu fyrir sínum nyvøldu 12 Postulum, og á fiølmennum mannfundi (Matth. 5—7 kap.), og þeirrar er hann flútti, þá hann qvaddi vini sína, á seinustu ferðinni upp til Jórsalaborgar (Joh. 13—16 kap.) Þess má tilgéta að hann í ræðum þessum, er hann héldt í byriun og endíngu sinnar vegferðar á jorðu, hafi viljað úttæma gnægð síns hiarta; og þessi vor gétgáta er líka á rokum bygð — því hvar finnum vér so hreinar og háar hugarmindir, sem þær Jesús oss gefið hefir um það sanna eðli dygðarinnar, Guðs forsión, um bænina, og hinn falslausa mannkiærleika, v. s fr. frammsettar með so skírri ásmálun og fiølnytri orðsæð, sem af honum í

enni sonefndu fiallpredikun eptir sem hún finnst ritud hiá Matthæus? t. d.: þessi ord: «líttid himinsins fugla, hvorki sá þeir né uppskéra, og eigi safna þeir í hlødur, og þó fædir ydar himneskur fadir þá; erud þér ekki miklu meiri þeim?" þessi ord hafa ad vísu hughreyst betur hid hrellda hiarta, enn mørg ein stór bók, um guddómliga forsión: allir skilia þau, því þau ega so vel vid sérhvørt óførdjarfad hiarta. Þá vér lesid og skilid høfum þessa Jesú giørvøllu rædu, verdur oss undrun sú audskilin, med hvørri lýdurinn, er stód umhverfis fiallid, dádist ad ordsnild hans. Eins og sú gudsdýrkun í anda og sannleika, er Jesús kénndi oss, hvørgi er so gagnyrdt frammsett, sem í þessari hans egin rædu; so er lika sú von um eitt betra líf, er hann hefir géfid oss, hvørgi so hiartnæmum ordum innsveipud, edur lýstiligar afmálud, sem í rædu edur réttara sagt, vidrædu þeirri, er hann átti vid sína handgengnu vini á veginum til dauda síns. Þad eru ens deyandi fødurs seinustu ord med hvørium hann huggar børn sín, er harma nálægan skilnad. Þá vér ekki hneyxlumst á þeim einfaldligu spurningum, med hvørium Jesú, eigi hleypidóma-frísu, en þó einlægu lærisveinar, slitu rædu lærimeistara síns; þá vér, ad sumiklu leiti, sem møguligt er, setium oss í hans og þeirra stad, hvad hugarfar hvørutveggiu snertir: gétum vér ekki annad enn hrærst af þá hiartgróna hugarþeli, er lýsir sér í rædu þeirri,

er Hann hélt ad skilnadi, samt í bæninni, er lyktadi hana. Ei talar Hann sídar snilldarliga hér um hid eylífa líf, enn Hann talad hafdi í fiallpredikuninni um Guds forsjón: «í míns födurs húsi eru mörg herbergi, eg fer ábrott ad búa ydur stad, og þá eg hefi ábrott farid og búid ydur stad, mun eg aptur hverfa ad sækia ydur, ad þér séud þar, sem eg er. Þér erud nú af vísu hryggvir; en eg mun ydur aptur siá og ydar hiörtu skulu fagna, og einginn skal ydar fögnud frá ydur taka (Joh. 14, 2. 3. 16, 22.). Þessar og þvílíkar Jesú rædur, stadfestar af því, er frammkom, hafa vissuliga fremur hiálpad til ad styrkia trú ens deianda og ad sefa harm þeirra, er eptir lifa, enn allar þær grundvallarástædur, þótt gódar og gildar væru, á hvörium hin mannliga skynsemi byggir vonina um ódaudligleika vorn. Og þetta er heldur ei ad undra; því þá daudinn skékur sigd sína yfir höfdum vorum, þurfum vér ad vísu fleirir öruggari grundvallar fyrir von vora, enn þess, er mannlig speki megnar ad leggia; og skyldi oss þad ad höndum berast, sem Jesú lærisveinum, ad missa vin vorn, er hiarta vort gétur ei án verid, munum vér efalaust, eins og þeir, finna, ad vér þurfum hans vid, sem, eins og Pétur einka þýdíngarfullt qvedur ad ordi, «hefir hit eylifa lífs ord». Og þad er þá einkum med því hugarfari, ad lesa á þessa Jesú skilnadar-rædu; því med þvílíku hugarfari var hún bædi haldin og heyrd; og þá

qveda þeir streingir vid í hiartanu, er hón snertir. Að vísu eru þessar rædur engum kristnum manni, med öllu ókunnar, þar bædi nokkur af vorum sunnudaga-guðspiöllum og fadir vor, er vér allir kunnum, eru tekinn úr þeim; en í samanheingi ber að lesa og íhuga þær, ef gjersamliga skal finna dýrmæti þeirra.

Bædi þær styttri og lengri Jesú rædur bera allar samt í tilliti til innihalds og ordalags einkénni eins guddómligs lærifødurs. Einnin þeir einstöku furdanligu ordhnittir, er Jesús opsinnis tydkadi, hafa þann sérliga eiginleika til að bera, að menn alleina þurfa að skilia þá til aldrei að gleyma þeim. Og nýti spottarinn sér áslundum af þeim til gabbs og athlátursa, vardveitast þeir þó í gódum hiörtum, sem vísdómsreglur, þvílíkum ordsqvidum, t. d.; "ef auga þitt hneyxlar þig, þá stíng það út: ef hönd þín eda fótur, hneyxlar þig, þá sníd hvort um sig af"; "slái þig nokkur á ena hægri kinn, þá snú að honum hinni vinstri (Matth 5, 29. 30. 39.); "lát þá daudu greptra sína daudu" (8, 22.) "verið hyggnir sem höggormar, og einfaldir sem dúfur" (Matth. 10, 16); "sá sem finnur sitt líf, skal missa það; enn sá sem missir sitt líf fyrir mína skuld, hann skal finna það" (10, 39.); "þeir seinustu skulu verda þeir fyrstu, og fyrstir þeir seinustu" (20, 16.); "sá sem vill ydar á medal voldugur vera, sá sé ydar þénari" (20, 26.); "fæg kér þín fyrst

hid innra, so munu þau hid ytra hrein verda" (23, 25.); "hvør hann hefir, hønum mun géfast; en sá sem ecki hefir, frá hønum mun tekid verda, þad hann hefir" (13, 12.) — og fleirum þvílíkum er so varid, ad þeir, séu þeir lesnir med gaumgiæfni og í samanheingi, vel mega skildir verda af þeim, er vill þá skilia; en einmidt vid þá mótsøgn er þeir synast innihalda og vid þá þánka-gnægd, er þeir í raun og veru innifela, skérpa þeir athugasemina og rótfestast vendiligar í lesarans hug og hiarta.

Hvad hér í stuttu máli er sagt um ena afbragdsligu aagnsemi af Jesú egin kénníngum; þad sama má, hvad høfud-atridid snertir, segia um Postulanna kénníngar — hans andi talar fyrir þeirra munn. Hann er sá grundvøllur, á hvørium þeir byggia lærdóma sína; sá midpúnktur ad hvørium allar þeirra rædur lúta. Eg þarf ecki ad segia þad kristnum mønnum, ad þá vér trúum á Jesúm, hliótum vér ad trúa þeim mønnum, sem tala til vor í hans nafni; med því ad hann hefir géfid þeim myndugleika til ad krefiast somu trúar á ordum þeirra, sem siálfs hans: "Hvør ydur heyrir, segir hann, sá hlydir mér og hvør ydur forsmáir, hann forsmáir mig" (Luc 10, 16); hann gaf þeim einnin makt til, ad fremia þá somu gierníngа, sem hann framdi (Joh 14, 12.). En vér skyníum af anda þeim, er lysir sér í giervøllum rædum þeirra, ad eins er, sem vér heyrdum hann

siálfan. Það er ecki einúngir Jesú hreini og ómeingadi lærdómur, sem þeir ítreka fyrir oss, helldur klæda þeir hann i Jesu gagnorda og hiartnæma málbragd; ad vísu hefir sérhver Postulanna, einnin sem rithøfundar viss einkénni, er lýsa sér hiá hverium þeirra meira og minna; Páll er t. d. gagnordur og kraptfullur; Jóhannes diúpsær og tilgérdarlaus; Jacob er fagurordur og sniall í rædu. En adalandinn, nl. trúarinnar, vonarinnar og kiærleikans er hinn sami hiá þeim øllum; og ei er hann so hreinn hiá nockrum rithøfundi sem hiá þeim heiløgu skrifurum. Hvad því veldur, er audséd: þeir hafa tvo þá eginlegleika er aldrei hafa verid so náqvæmliga sameinadir hiá nokkrum ødrum rithøfundi Allir tala þeir af gnægd hiartans, og allir tala þeir af eginn reynslu. Sialdan edur aldrei hefir nokkur ritsmidur tekid sér penna í hønd í so hreinskilnum og góðum tilgángi, sem hinir helgu rithøfundar. Hvørki vildu þeir svala hégómadyrd, né eigingyrni, ei heldur saurugum tilhneigíngum; nei, það var sú sama þørf hiartans, sem hvatti þá til ad tala, er hvatti þá til ad skrifa. Þá vér lesum Pauls bréf til þeirra safnada, sem hann hafdi stiptad, er það sem vér heyrum fødur, er ávarpar børn sín, hver hann, eptir sem hann adordi kémst, alid hafdi (1 Cor 4, 15.); »fyrir Christí Evangelium". Þessa elskadi hann meira enn sitt eigid líf (Þess. 2, 8). Þegar þeir stódu stødugir í trúnni, "vóru þeir hans von, føgnudur

og heidursköréna (2, 19). Þá giöra þeir hleckina hönum léttbærari, hverium hann bundinn var fyrir Christi sakir, "þá gledst hann jafnvel, þótt hans blódi yrdi úthelt yfir þeirra trúarfórn, er hann frambar fyrir Gud (Philipp. 2, 15—17). En þeir liggia hönum einnin þúngt á hiarta, þá hann hugar allar þær hættur, sem þeir vóru ístaddir. Það hafdi kostad hann mikid stríd og ómak ad kristna þá; "hann hafdi líka sem fædt þá med sárum verkium" (Gal. 4, 19.); einginn vidqvæm módir gat verid umhyggiusamri fyri sínum syni, enn Páll var fyrir trúmönnum sínum; stundum uggdi hann ad þiáníngar þær, er þeir tóku hlut í med hönum, mundu olla því, at þeir skeikudu frá trú sinni; stundum, at þeir enu fölsku brædur, er höfdu smeigt sér inn á medal þeirra, mundu afvegaleida þá, frá Jesú Evangelií einfaldleik (2 Cor. 11, 2—5.). Med þvílíku hugarfari skrifadi Páll bréf sín. Med harla áhyggiufullu hiarta skrifar hann Corinthu- og Galatíumönnum; med födurligum fegnudi og von til safnadanna í Philippis, og Thessalonica. Af eins hreinni uppsprettu eru bréf hans til Tímótheum og Títum kominn. Hvorutveggiu vóru hans andligir synir og hiartfólgnir vinir, bádum hafdi hann á hendur falid ördug embætti: Tímótheus, sem kénnara og tilsiónarmanni í Ephesus, og Titus á Crítarey Margir falskénnendur höfdu rudt sér til rúms í bádum söfnudunum: myrkt var til seinni

tída framm að horfa. Ofsóknir og lífshættur vovðu yfir. Siálfur er Páll í fángelsi í Róm, þegar hann skrifar hið seinna bréf til Tímótheus, og sá vísann bana fyrir augum. Margir vina hans höfðu skilist við hann, af ótta fyrir að sama mundi yfir þá gánga. Með deyanda föðurs áhyggiu, ei fyrir sínum eiginn forlögum — því þeim var vel farit í höndum Drottins, hverium hann so ræk- iliga hafði þiónað — heldur með áhyggiu fyrir so mörgum hiartkiærum, er hann þá og þegar skyldi skiliast við á jörðu, skrifar hann sínum tryggasta vini, Tímótheus, sitt síðsta bréf og eingsög leiðir hann framm fyrir þann dómara, fyrir hverium hann siálfur bráðum skyldi mæta; og særir hann við þá von, vegna hverrar þeir báðir so mikið liðið höfðu, að hann með árvekni og trúfesti annaðist þá hiörð, er falinn væri hon- um til forsiónar (2 Tím. 4 kap.). Í so hreinum og góðum tilgángi reit Páll, ritudu allir Jesú Postular. Hvar finnum vér ritgiörðir af so tærri uppsprettu kómnar? Og hver æskium vér frémur fræði oss um kénníngar Krists, enn þeir menn, yfir hverium andi Guðs hvildi. Einginn er sá rit- höfundur, er gétur so sem þessir heilögu ritsmiðir skírt frá kristiligri trú, von og kiærleika; með því það er eingum unnt, at tala af so mikilli reynslu, sem þeim. Þá Páll siálfur, — að ég taki dæmi af þeim Postula, er flest hefir bréfin ritað, þá Páll kappkostar að leiða syndarana til auðmyktar fyr-

Gudi, heyrum vér þann mann, er hvørium ødrum postula fremur hefir afrekad, er næst Jesú siálfum, hefir aflad sér mest allra manna verdskuldunar af mannkyninu, og þá vér so heyrum, hvørnin þessi heidingianna mikli Postuli kémst ad ordi um tilfinníng síns óverdugleika fyri Gudi, sem hins minnsta medal Postulanna, er eigi verdskuldadi þá nafnbót, med því hann hefdi ófsókt Guds søfnud (1 Cor. 15, 9. 10.); og hvørninn hann med audmyktarinnar einlægu og fylgislausu ordatilækium sorgbitinn álasar siálfum sér: "ad þad góda, sem hann vill giøra, giøri hau ecki, og þad illa sem hann ei vill giøra, þad giøri hann" (Rom. 7, 19.); hvørsu miøg megum vér þá ecki skammast vor, þá hrokafullur siálfsþótti hreifir sér í voru brióstí; hvørsu miøg megum vér ecki finna, ad oss er þørf á þeim endurlausnara og talsmanni, á hvørium Páll án minnsta tillits til egin verdskuldunar bygdi sína giørvøllu von (Philip 3, 9.)! Þá Páll talar um trúna á Jesúm, høfum vér eigi reyr fyrir oss, er lét sér hvirfla af sérhvørium lærdóms bilium, helldur þvílíkan mann, er stód, sem klettur stødugur í øllum vffókna og umsátra stormum, í øllum raunum, er mætt géta eins manns trú — þvílíkur madur, adkominn dauda, gat skrifad vin sínum Tímótheus (2 Tim. 4, 7. 8.) "jeg hefi barist gódri baráttu, skeidid full endad, vardveitt trúna"; en þar fyrir hefir ei annar neinn, enn hann og hans jafníngi gétad

útmálad þannin krúna (Gal. 2, 20.): "eg er krossfestur med Kristó; og eg lifi nú ei siálfur framar, helldur lifir Kristur í mér, og hvad eg nú lifi þad lifi eg í Guds sonar trú, er mig elskadi og útgaf siálfan sig fyrir mig". Þá hann brýnir mannelskuna fyrir oss, hreinskilna og óeigingiarna idiusemi gódu til framgángs, heyrum vér ecki þann mann, er býr ríkuglig laun af jardneskum giædum úr bytum fyrir stœrf sín; nei. hann er hid stóra kiærleikans og nægiulundar munstur hvar jafnt vel þó hann héldi réttad vera, ad kénnurarnir ættu laun ad fá, og baud, ad þeim skyldu laun veitast, þó siálfur, ad eigi skyldi Kristindómurinn tálmunum sæta í andverdligum frámmgángi, þádi einginn láun af sofnudunum (1 Cor. 9.) ad undantekinni liúfri samburdar-gáfu frá Philipp-borgarmennum, er honum var send í fángelsinu í Rómaborg. Já, til þess hann yrdi ecki þeim fyrstu kristnu, er flestir vóru fátækir, til þyngsla, erfidadi hann einnin á nætturnar, ad hann, med handverki sínu afladi sér og sínum vidurværis. (1 Thess. 2, 9. Post. G. 6, 33 eptirf.). En þessvegna gat einúngis þvílíkur madur, í hvørs hiarta kiærleikans logi blossadi so skiær og mikill, afmálad fyrir oss mannelskuna med so fogrum litum, sem hann giørir 1 Cor. 13, hvørsu marg-faldast ecki dýrmætt þessarar afmálunar af hans eiginn forkunnar fagra dæmi! Hve mieg megum vér, í blídari kierum staddir, er forsiónin hefir

oss í sessa, fyrirverda oss yfir kløgumálum vorum, þá vér lítum hinn óþreytanliga eliunarmann þennin að neita sér alls, til að útbreiða Guðs ríki á jørdu? Hvort heldur hann brynir kolinnmædina fyrir oss, hværsu mieg eykst ei hans annars máttugu orðum kraptur að fullu, þá vér hugleiðum hans þráligu þiáníngar, hværra hann neydist að géta í síðara bréfi sínu til Corínthumanna 11, 23 og fylg. eigi af stærilæti, heldur til þagga ofundarmenn sína? eður það er hugrekki í hættum, grundvallað á enni miklu von, er kristinn trú veitir, sem hann velia vill í lesaranna hiørtum, og vér þá minnumst, af sami er madurinn, er mælir, sem siálfur, eigi til að sykiast eptir píslarsvættis kórónu, heldur með því a skyldað og embætti baud so, óskélsdur og stölandi uppá Guð og hið góda málefni, ferdadist til Jórsalaborgar, hvar gelgvænlig þrumusky af fullum fiandskap landsmanna hans dró upp yfir høfud hønum; — þá fá fyrst orð hans um trúnadartraustið á Gudi fiør og krapt; nú lèsum vér með innilígri hlutdeild ena sniøllu áminníngar-ræðu, er hann héldt fyrir øldúngunum í Ephesus (Post. G. 20, 18 og fylg.) og í henni medal annars þau føgru orð: «Og siá nú, eg fer til Jórsalaborgar — til þess finn eg ógagnstædiliga kallan — óvar um, hvað þar muni mér að høndum berast; alleina það veit eg, að heilagur Andi lætur mér frá einum stað til annars fráskíra, að fiøtur og harmqvæli

bíði mín: en fyrir engu hlífi eg mér, og eigi þykir mér lífit dýrmætt, at jeg fái fullendt mitt skeið með fögnuði, og þá þiónustu, er eg hefir á hendur tekist af Herranum Jesu, að votta um Guðs náðar evangelíum". Þvílíkir eru þeir menn, er ávarpa oss í bréfum postulanna. Því hvað til dæmis er tekit og sagt um Pál, það má í höfuð efninu um þá alla segia. Allir hafa þeir gengið ígégnum prófeldinn (1 Pet. 4, 12) og vel reynst. Allir hafa þeir í eiginn dáð og eiginn lífskiörum sýnt eina lifandi trú, örugga von og fölskvalausa kiærleika, er þeir bryna fyrir lesurum bréfa sínna; og þess vegna gétur enginn með þvílíku lífi og krapti talað um mannanna mikilvægustu málefni, sem þeir; þessvegna er eigi þá ritgiörð at finna, er innblæs lesaranum þvílíka lotníngu og trúar traust, eckert rit, er varðveitir so heilnæma og nærandi fæðu fyrir hið andliga líf, sem ritgiörðir Postulanna.

En jafnvel þótt engin bók so miög byrii að vera daglig handbók kristinna manna, sem hið Nýa Testamenti, sýnir þó reynslan, að fiölmennur er sá flokkur kristinna, er öldúngis ecki lesa það. Hér er ei talað um þá, er forakta Guðsorð (því þeim er bæði biblía, kyrkia og alt hvað heilagt er, dárusskapur einn). En einninn margir þeirra er heiðra Jesúm og postula hans, eins og óttast fyrir að hlýða á þá siálfa talandi: marga þá er bera lotníngu fyrir ritníngarinnar höfuð-inni-

haldi, hryllir vid hennar stýls-máta. Orsokin kémur einkum af hleypidómum þeim, er þeir í barnæsku hafa inndruckid gegn heilagri ritníngu. Kann vera ad þeir heyrt hafi talad um þá, óbókvísum lesurum einka ógagnsæru mökkva, er hvila yfir þessari fornu bók, og um þá hættu, er hinn fákunnandi steypir sér í med því ad misskilia, þá helgu rithøfundi, samt um þær villur, þá hiátrú og grillur, til hvørra margir af raungum skilníngi orda þeirra, hafa afvegaleiddir verid: þat bar einnin ástundum vid, ad þeir tóku hid Nya Testamenti í hønd sér, en fyrir þeim urdu nú þeir stadir, hvørra meiníng og samanhengi þeir eigi skildu og løgdu því hryggir bókina frá sér. Þessum gódu og hreinskilnu mønnum, er feiginsamliga heyra vilia Jesú og hans Postula ord, en sém óttast fyrir annadhvørt ei ad skilia edur ad misskilia rædur þeirra, þeim vildi eg ad nokkuru gagni koma med bók þessari.

Því má að vísu ei neyta, ad myrkir stadir finnast bædi í því Nya og Gamla Testamenti; ei heldur má því mótmæla, ad allmargir hafa misskilid ritnínguna og sogid af henni eytur fyrir heilnæmi. Um hvørutveggia vottar postulinn Petur á sínum døgum (2 Pet. 3, 15. 16.) Þat finnast, segir hann, ymsir hlutir í bréfum Páls, sem þúngskildir eru, og hvøria ófródir menn og óstyrkir rángfæra, eins og enar adrar ritgiørdir, sér til ófagnadar og óheilla. Ef þúngskildir stadir

fundust í enni heilögu ritníngu á postulanna dögum, hvörninn giætum vér þá vænt að þeir ei, fyndust nú á dögum, eptir so margar aldir og breytíngar háttsemis manna og meiníngá samt i svo mikilli fiarlægð? og ef þar vóru þeir menn uppi á dögum postulanna er rángsnéru ritum þeirra, hvörnin giæti þá nú á dögum allur misgáníngur í at útþýða þau umflúist? Ennskyldi um vér öldúngis ei brúka bibliuna, þareð hana má misbrúka? þá mættum vér einnin banna nautn matar og drykkiar; því hvað er það í heimi er fremur misbrúkast? þá mættum vér og loka kyrkiunum, því einnin það, at sækia þær, er misbrúkun undirkastað. Eður skyldi alleina leikmadurinn varast að lesa bibliuna fyrir þá sök, að honum stofnast af því meiri hætta, þareð hann brestur þann fródleik, er upplýsir bibliunnar myrku staði? En lærdir hafa ei síður rángliga þýdt bibliuna, en leikmenn; já, það bar ei sialdan við, að menn misbrúkudu lærdóm sinn til að giöra heilaga ritníngu þúngskilda istað þess að upplýsa hana, og að leikmenn skildu það i bibliu sinni, er hinn bóklærdi misskildi. Því til að grípa réttiliga andan í Jesu og Postulanna rædum, ríður ei so miög, eins og aðr er áminst, á bókviti, sem á því, með hvöriu hugarfari menn rádast í að lesa heilaga ritníngu. Hinn einlægi Kristni láti því ei ena þúngskildu stadi í bibliunni ógna sér, er so miog hefir verid giört orð á; já, ef þessir myrku

stadir fyndust í bibliunnar innihaldi, ef hinir heil. ögu rithöfundir töludu til vor i rádgátuligum rædum um trú vora og vön, ef þeir færu óvisöum og hvarflandi ordum um þann veg, er vér gánga skulum til eylífs sæluſtadar, þá mætti oss ad vísu hrylla vid ad tala bibliuna í hönd — en um þessi oss mestumvardandi atridi tala þeir so óveilit og skiljanlega til allra sinna lesara, ad einfeldnsugurinn, sem hefir heilbrigda skynsemi og hreinskilid hiarta, ecki getur rángskilid meinsugu þeirra, og ef nockur kynni í þessu ad misskilia þá, so er þad sem sialdnast skinseminnar helldur vilians skuld; þad eru þá sem optast þvílíkir menn, sem ecki einúngis misskildu, helldur eins og Postulinn Pétur ad ordi kémst á ny áminstum stad, rángfæra þeirra ord. Og þá er þad ecki bibliunnar skuld, helldur lesarans.

Enn þótt sá skynsami og hreinskilni kristinn ad vísu géti af siálfsdádum skilid sína bibliu, ad so miklu leyti hann þarf ad skilia hana, so er þó hægt ad skynia, ad ecki sé þad ósyrirsynju, ad gésa leidarvísir, hvørninn hana réttiliga brúka egi til uppbyggíngar. Fiølldi þvílíkra þúngskilinna stada eru í því Nya Testamenti, sem, þótt þeir ecki eginliga vidkomi adalefninu, samt meir eda minna nálægiast því, og hvørra útskírsing leidbeinir manni til skilníngs í innihaldinu — hugarmindir vorar eru misjafnar, hiá súmum gløggvari enn ødrum — þad er mismunur á apturekdíngar, og

hádegis birtunni. Þær áminníngar og aðvaranir t. d. sem þeir heilögu rithöfundar gèfa lesurum sínum, gètur einfeldníngurinn líka skilið; en þá vèr þekkium þær nærstu orsakir, hvörsvegna þeir frammsetia þessar áminníngar og aðvaranir, og þann tilgáng, þeir sèrilagi höfðu með þeim, þá skýnium vèr enn betur þeirra speki, hrærumst meir af þeim snotrleik og krapti, sem liggur í orðum þeirra. Þaraðauki erum vèr allir breiskar manneskiur; þótt vèr annars hefðum besta vilia, og freistumst til að vanbrúka jafnvel það helgasta. Aðvaranir eru þessvegna aldrei óþarfar. Að eg þá eptir mætti, og með fulltýngi þeirrar reynslu, sem eg öðlast hefi í mínu standi, leiðbeini mínum ólærðu meðkristnu til notadrjúgrar brúkunar ens Nýa Testamentis, vil eg leitast við að so miklu leyti, sem það í fám orðum má af hendi leysa, fyrst yfirhöfuð: að framsetia þær mikilvægustu grundvallarreglur, sem eg meina, að hinn sannkristni egi að hafa fyrir augum sèr, þá hann les þessa vora trúarbragða bók; þaráeptir að semia formála fyrir sèrhvörri bók, einkum ens Nýa Testamentis, með fáorðum skýríngargreinum um innihalld þeirra, tildraganda og tilgáng, í hvörium hún er skrifuð; en sá kristiligi lesari, má ekki steyta sig á því, að eg einkum hefi fyrir tekið Nýa Testamentisins bækur; það var ekki þessvegna, að eg efaðist um ens Gamla Testamentis nytsemi og dýrmæti fyrir oss Kristna. — Nei! öll

heiløg ritning er náqvæmliga sameinuð. Eins og það er sama sól, sem birtist í morgunsárinu og ásíðann í miðdegisskininu; eins komumst vér að raun um, að so vel það Gamla, sem Nýa Testamenti, er ein guðdómlig opinberun, einasta løguð eptir tíðanna misjøfnu þørfum og upplýsíngu. Án þess nockuð að þekkia til Mósis bóka og spámannanna, gétum vér ecki skilið Jésúm og hans Postula; því bæði hann og þeir vitnuðu til Mosis og spámannanna, og byggia á þeim grundvelli, sem hinir høfðu lagt. Enn þared það Nýa Testamenti *); þ. e. þau rit, sem innihalda tilskickan og ástand enna nýu trúarbragða, er Jesús stiptaði, sýndist að útkrefia ýtarligri útskíríngar og rannsókun, með því að það er aðaluppsprettu trúar og vonar kristinna manna og eiginlig leiðarstiarna kristiligs lifnaðar; vilda eg því byria fyrst á því, einkum þessvegna, að forsiónin hefir unnt oss nýrrar kyrkiuligrar útleggíngar, hvería, í mørgum greinum sannarliga endurbætta, allmargir sannkristinna munu sýnast að lesa Komist eg ásíðann að raun um, að þetta mitt fyrirtæki komi að gagni minum meðkristnu, hefi eg í hyggiu seinna meir,

*) Þetta orð þýðir í frummálinu sáttmála; og í þeim heiløgu bókum eru Guðs fyrirheiti oss fyrir þiónir sett, ásamt þeim skilmálum með hverra uppfyllíngu vér giørumst hluttakendur þeirra, sem sáttmáli milli Guðs og manna.

ef Guð lofar, að láta leiðarvísir til uppbyggiligs lesturs ens Gamla Testamentis fylgia á eptir.

Eg byst þessvegna við, að sá Kristni, er eg á tal við, sé sannfærðr um, að biblian sé guðligt verk, að það sé siálfur Guð, sem talar til vor fyrir Jesúm og hans Postula. An þessarar sannfæringar verður oss margt óliósi og ásteytanligt í ræðum þeirra, sem annars er liósi og uppbyggiligt. Hvör mundi þola að heyra eina einbera manneskiu komast so að orði um siálfa sig: "eg er vegurinn, sannleikurinn og lífið", "eg er það heimsins liós". "Sá sem hefir séð mig, hefir séð föðurinn". "Aður enn Abraham fæddist, var eg til", og s. fl. (Joh. 14, 6. 8. 12. 14, 9. 8, 58.)? mættum vér þá ekki hallda að hann væri velviljaður hiervillíngur eður undirhyggiusamur svikari. En þegar vér gaumgiæfum þau rök, er séra hvör upplystur kristinn veit, og sem tekinn eru af Jesú lífernis ósaurgaða heilagleik, sem einginn hefir náð, eða gétur náð; af enum yfirnáttúrligu giörníngum, sem alleina hann hafði makt til að giöra; af hans forlaga undrunarverða útfalli, sem staðfesti öll hans orð; og einkum ef vér, af þeirri ástæðu, sem er hin kroptugasta, af Jesú Evangelii krapti á hiörtu vor, hvörium leiðist til að heiðra hann sem þann spámann, er var frá himnum sendur, föðursins eingétna son; þá skyniumi vér að hann

hlaut að tala þannin, sem hann talaði; þá hneigist umist vér ecki á þeim míndugleik; hann brúkaði, heldum heyrum vér hans orð með lotníngu og trúnaðartrausti. — Ef vér þessvegna trúum, að vér lesum um Guðs ráð til vorar sáluhiálpar, og Guðs fyrirheit um eylíft líf, í Jesú og hans Postula ræðum; þá skulum vér ecki lúka biblíunni upp í eðrum tilgángi enn þeim, að uppbyggiast, það er: að fræðast um Guðs vilia, að stadfestast í vorra trú og von. Vér skulum andagtarfullir nálægia oss þessari guddómligu vísdóms uppsprettu, og með bæn undirbúa oss til, að ausa af henni það, sem gétur endurnært og styrkt vorn ódauðliga anda. Vér skulum velia soddann tíma til þessara helgu athafna, þegar vér, fríir frá jarðnesk um störfum, erum best lagaðir til eptirþánka, og án minstu áhyggiu, best gétum upplypt vorum anda til enna æðri efna, Guðs og eylífðarinnar. Sú besta predíkun gétur ecki heyraranum að gagni komið, ef hann ecki er eins vel undirbúinn að hlyða á hana, sem presturinn að flytia hana. Þannin er því háttað með bibliu lesturinn. Þeir heilögu rithöfundar tala til vor um þau efni, sem eru oss mest áríðandi; í þeirra ræðum er líf og kraptur; en heyrum vér þá með gáleysi, kulda og kafnir jarðneskri áhyggiu, þá fellur sæðið, annaðhvort á veginn og verður fótum troðið, eður í grytta jörð, og visnar, eða á milli þyrna og niðurkæfist. Þessvegna skulum vér leytast við að úthysa allri

jardneskri þánkatvíslrun, ádur enn vér nálægiumst yelgidóminn, hvar Gud siálfur talar vid oss. J gódum tilgángi skulum vér altíd lesa Drottins ord, so ad eckért hræsnis ysirskyn, eingin léttúdar forvitni, eingin hegómadyrd, helldur sannarlig tilfinníng vors anda naudþurftar leidi oss til bibliunnar. Guds ord er oss gésid, ad þad vera skuli lampi vorra fóta og liós á vorum vegum (Ps. 119, 105). Páll vitnar (2 Tím. 3, 16): «ad öll heilög ritníng, sem er innblásin af Gudi, sé nytsamlig til lærdóms, til sannfæríngar, til leidréttíngar, til uppfrædíngar í réttlætinu". Pessi sé þá tilgángur vors bibliulesturs! og þegar vér erum sannfærdir um ad hafa skilid Jesú orda meiníngu og hans Postula, þá sé oss þetta ord heilagur og dyrmætur sannleiki, þótt þessi sannleiki audmykti oss, og þeirra vísdómur kynni ad vera ödruvíssi, enn heimsins barna hyggiuvit! Þvílíka lítiláta, námfúsa og andagtuga tilheyrendur girntist Jesús (Matth. 11, 25 eptirf.); og þvílíka lesara girnist hann enn nú, hvort helldur hann siálfur talar til vor, eda fyrir þá menn, sem í hans nafni kunngiöra oss Guds ord.

Ecki allir bibliulesarar eru, því midur! so vel þeinkiandi; eg tala ecki um þá, sem eru so blygdunarlausir, ad þeir dyrfast med vanhelgum höndum ad blada í bibliunni, til þess þeir fái efni til ad spotta þad helgasta! vid þessa smánara á madur ecki ad tala um bibliuna; því þad væri eins og

Jesús að orði kémst, (Matth. 7, 6): að kasta perlum fyrir svín, og helgidóminum fyrir hunda; en þótt þeir séu fáir, sem vér vonum, er ala þvílíka heipt gégn Guðsorði, og sem, að eg taki so til orða, æða móti helgidóminum; þá eru þeir samt ecki fáir, sem brúka bibliuna í óverdigum tilgángi. Hræsnaranum finst að hann þóknist Guði, og giøri hønum þénustu með því að lesa bibliuna, að gánga í kyrkiu, hvørt heldur hann þeinkti eptir því, sem hann las og heyrði eða ecki. Sá léttúðugi les ritnínguna sér til dægrastyttíngar. Hann álítur hana sem skémtunarbók; þessvegna les hann mest hennar furðuligu frásagnir, ecki til að styrkia sína trú; — því læsi hann þær í þeim tilgángi, uppbyggðu þær enn trúaða kristna — en hann les þær í sama tilgángi eins og þeir sem lesa dyrdlíngasøgur og æfintyri. Þessvegna eru so margir lesarar, sem meta meir Gamla Testamentið enn hið Nya, ecki af því, að þeim gédjest þeir andríku sálmar, þær lærdómsríku frásagnir og dyrmætu vísdómsreglur, sem finnast í enu Gamla Testamenti; heldur sakir þess, að søgurnar um Gídeon, Samson og Jephta kitla þeirra iðiulausu forvitni. Enn þá verr misbrúkar sá fáfeingiligi bibliuna; hann vill álítast bóklærður, og les einasta bibliuna til þess hann géti á samfundum skrumað af bókvísi sinni, stundum til þess að syna skarpleik hinn í brellnum og ónytum spurníngum, so að einfeldníngurinn skuli halda að hann sé lærðari enn hans

lærimeistarar. Sá sem með gaumgiæfni hefir lesið þá evangélisku sögu, gétur í þessari stuttu afmálun, sem í öðrum spégli þeckt marga Jesú tilheyrendur — frá þeim lauslýnda skara, sem fylgði hönum í eigingiörnum tilgángi, og til Phariseanna, sem komu til hans, með heilagleikans yfirskini, fulli ílsku í hiartanu. Eins og þeseir seinastnefndu vóru enir verstu meðal Jesú tilheyrenda, so kémur biblian aldrei í verri hendur, enn þeirra, sem bæði eru ókristiliga sinnaðir og í anda upphrokaðir. Það sem Jesús sagði (Matth. 21, 31): «tollheimtumenn og skiækur koma fyrr í Guðs ríki, enn þeir", gétur heimfærst uppá þessa. Þeir ugglausu hræðast fyrr af bibliunnar hiartnæmu ræðum, enn þeir skinhelgu hræsnarar. — Og sannliga eru dæmi til, að þeir, sem hafa byriað að lesa bibliuna í óguðligum tilgángi, til að fá efni til aðhláturs, hafa endt sinn lestur með diúpustu lotníngu fyrir þessari helgu bók. Sá drambsami og sérvitríngurinn þarámóti skilur sialdan sannleikans tilgérðarlausu orðatiltæki. Nicódemus, af Pharisæanna flokki, í hvörs sálu þó einn sannleikans geysli skinið hafði, hann gétur sýnt oss, hve örðugt það er, að uppræta hroka sérvískunnar og eginþóttans. Jesú orðatiltæki (Joh 3, 3): "nema maður verði fæddur á ny, gétur hann ecki séð Guðs ríki"; var hönum ecki ókunnigt; því landsmenn hans nefndu þann heidíngia, er tók Gyðínga trú, endurfæddann; en Nicodemus

gat ecki skilid þad, ad hann, sem var Israelíti og Israels lærimeistari, þyrfti, til ad géta ordid borgari í Messiæ ríki, si lísur eins og ad fædast á ny, byria frá ondverdu og sem nybæríngr ad gánga í Jesú skóla. So torvelt er þad fyrir hinn drambsama ad þeckia sinn skort. Þetta er þó naudsynligt, þegar hann vill þarfnast Jesú, sem síns lærimeistara og talsmans. Madur gétur verid diúplærdur og margfródur, og samt vantad þann vísdóm, sem er ofanfrá (Jac. 3, 14); hann gétur verid forþéntur í manna augum, þótt hann hafi skort á allri hrósun sem fyrir Gudi gyldir. Ef vér þessvegna gyrnumst af Jesú og hans Postulum ad læra, hve lángt vér komnir séum í sannleikans vidurkénníngu, þá verdum vér med lítilæti ad heyra þeirra ord. Þad er sá fyrsti eginligleiki sérhvors kristiligs bibliulesara — hann upplysir margt þad fyrir einfeldníngnum, sem sá upphrokadi lærdi ecki skilur; þarvid opinberast þeim fáfródu þad sem hulid var fyrir spekíngum og vísindamonnum, eins og Jesús ad ordi kémst (Matth. 11, 25). Því lesaranna hleypidómar eru optar enn bibliunnar ordatiltæki orsok til, ad so margir klaga yfir ad biblian sé þúngskilinn. Þad sama vitnar Nicódemi áminsta dæmi. Hann vissi mikid vel, hvad þad þyddi: "ad fædast á ny"; einasta hans drambsemi, giordi honum þetta, í siálfu sér so skilianliga ordatiltæki, myrkt og héllt honum frá ad heimfæra þad uppá siálfann sig. So naud-

synligt er þad, ad vér lærum ad þeckia vort egid hiarta, ef vér skilia viljum rædur Jesú og hans Postula; því þeir tala til hiartans, og án egin þeckíngar skilium vér þá ecki. Þegar Páll kémst so hiartnæmt ad ordum um tilfinníngu síns breisk leika og óverdugleika fyrir Gudi; þegar hann af innsta hiartans grunni prísar Guds stóru miskunsemi í Jesú Kristó; mun þá ecki sá, sem les hans ord med lauslyndum siálfsþótta, meina ad hann hafi afvegaleidst af rángri innbyrlíngu (Róm. 7 og 8 kap.). Einasta sá sem samtengir audmiúka vidurkénníngu sinna ávirdínga og lotníngu fyrir heilagleika sidferdislaganna, skilur ecki einasta bók staf helldur anda hans orda; þad yfirnáttúrliga, sém finst í bibliunni, útkrefur audmykt lesarans. Án hennar mundu Jesú dásemdarverk og undrun arverdu kiör, hans guddómliga hátign, og yfir høfud bibliunnar frábreyttu lærdómar verda trú vorri til ásteytíngar, og freista vor til ad finna þad þúngskilid, sem ecki er. Enn eins og sá skynsami lesari, af sýn eptir því yfirnáttúrliga, ecki álítur þad skéd vera af ens Almáttuga medals lausu verkunum, sem skilist gétur á náttúrligann hátt (t. d. Jesú lífs vidhalld á eydimørkinni, þegar hann fastadi í 40 daga *) eda tileigna bibliunni

*) Matth. 4, 2 ad fasta þydir hiá Gydíngum: ecki ad neyta þeirrar vanaligu og meir nærandi fædu, helldur einasta nærast af urt um og grøsum.

þá lærdóma, sem ecki eru í henni (t. d. lærdóminn um úngbarnanna trú á Jesúm *); eins vel varar sá hógværi kristni sig við þeirra dárlegu efasemdarsýki, sem hefir fráfnúið margra hiörtum frá bibliunni. Hvad er fávíssara, enn ad neita Jesú dásemdarverkum, af því vér siálfir ecki gétum giört þau? Hafi Jesús verid yfirnáttúrligur, so hlaut hann ad sýna sig þannin, med yfirnáttúrligum verkum; ef vér skulum trúa hans ordum eins og Gudsordi, so hlutum vér ad hafa grundvöll fyrir trú vorri. Og hvør drambsemi er stærri, enn ad vilia afneita trúarbragdanna leyndardómum, fyrir því, ad mannlig skynsemi ecki gétur ad fullu útgrundad þá? Vér niótum sólarinnar birtu og hita, án þess ad skilia hvad sólin er; þó viljum vér skamsýnu manneskiur krefiast þess, ad géta útgrundad sólarinnar skapara, þá andligu veru, sem byr í því liósi, sem enginn fær tilkomist, hann, hvørn einginn hefir séd eda gétur séd (1 Tim. 6, 16). Látum oss þá ecki gleyma, þegar vér lesum heilaga ritníngu, ad mannligri skynsemi eru takmørk sett; og látumst ecki vitrari, enn skrifad stendur.

Þegar hinn kristni med þvílíku sinnislagi, sem herad framan er fráskírt, les heilaga ritníngu med audmiúkri tilfinníngu sinna andligu naudþurfta, og med þeirri sannfæríngu, ad biblian

*) Matth. 18, 6, hér er ecki talad um úngbørn.

sé oss af Gudi géfin til ad bæta úr þessari vorki naudþurft — so mun hann giöra sér alt ómak, til ad géta skilid meiníngu þeirra heilögu rithöfunda, og þá vona eg, ad eptirfylgiandi bendíngar og rád géti þénad hönum til nockurs leidarvísis.

Fyrst athugi madur náqvæmliga, í hvada samanhengi sá partur í biblíunni, sem vér lesa vilium, er med því undangengna, og eptirfylgiandi. Það er ecki einúngis meiníng þessarar reglu, ad madur ecki megi rífa nokkra einstaka setníngu eda grein útaf sínu samanhengi; — því það veit sérhver, sem med skynsemi hefir lesid eina bók — helldur þegar einn bibliuhluti útaf fyrir sig, er ein heil setníng (t. d. ein af Jesú rædum edur samlíkíngum), so er það nytsamligt, og opt naudsynligt, ad lesa það næst undangengna til ad siá rithöfundsins tilgáng, og tilefni hans rædu. Og so ad eg færi alkunniga bibliustadi til dæmis; sum af vorum sunnudaga gudspiollum og pistlum, géta hægliga rángskilist af þeim lesurum, sem ecki þeckia meira af bibliunni enn þessar greinir; þared þær urdu ad takast útaf sínu samanhengi, hvarí þær stódu, so þær yrdu ecki of lángar. So er því varid, þegar madur les Pistilinn á annann Jóladag um Stephanus, se gétur madur ecki skilid þessa sannleikans talsmanns edlu hugdiarfúng, edur gripid það, hversvegna ed stóra rád Gyd-

ínga með þvílíkri heipt æddi gégn honum, fyrrenn maður hefir lesið Stephans ræðu, sem vegna sinnar lengdar, er hér útiláti. Í byrjun Guðspjallsins á sunnudaginn næstann eptir Nyár er sagt: að þeir væru dauðir, sem leituðu eptir Jésú lífi. Hvernig þessari eptirleitan hafi verið háttað veit lesarinn ecki, nema hann hafi lesið það undangengna. Það fagra Guðspjall á sunnudaginn í Nyvikaföstu um erfiðismennina í víngarðinum, gétur hægliga misskilist, þegar maður ecki af því undangengna veit, að Péturs egingiarna spursmál (Matth. 19, 27): «sjá! vér yfirgáfum alla hluti, og fylgdum þér eptir, hvað fáum vér í staðinn?" gaf tilefni til þessarar Jésú líkíngar. Péturs snotru orð í Pistlinum á annan Páskadag: «nú finn eg í sannleika, að Guð sér ecki í manns greinarálit" og s. fr., skiliast fyrst þá, þegar maður veit, til hverra, og hversvegna Postulinn héllt þessa ræðu. Okunnigt yrði það þeim, sem ecki vissi meira úr Rómveriabréfinu, enn það sem stendur í Pistlinum á Trínitatis sunnudag, hvað hefði leidt Pál til af hiarta að upphrópa: «o hvílíkt dypt auðæfanna, bæði Guðs speki og þeckíngar!" og s. fr. sá sem ecki veit meira, gétur ecki hluttekið í krapti þessara Páls orða. Pistillinn á 9da sunnudag eptir Trínitatis byriar með þessum orðum. «Enn þetta er skéð oss til fyrirmindar, so vér ecki girntust það illa, eins og þeir girntust"; af því, sem fylgir á eptir, gétur

madur gétskad á, um hveria talad er; en betur sést þad þó af því undangengna. Eins afskerinn eru þau orð í Pistlinumá 10da sunnudag eptir Trinitatis: «einginn sá, sem fyrir Guds anda talar, formælir Jesú". En þad er lióst af því undangengna og eptirfylgiandi, ad Páll nefnir þau kénnileikn, hvaraf hans lesarar þeckt giætu falska kénnara frá þeim réttu. Sá sem hædir Jesúm, meinar hann, gétur ómøguliga verid hrifinn af Gudsanda, þótt hann annars tileinki sér Andans gáfur. Hid snotra Gudspiall á 22 sunnudag eptir Trínitatis, um kóng þann, sem uppgaf þénaranum þá stóru skulld, á medann þessi med hørku krafdist af sambión sínum ens litla, sem hann átti hiá honum, gétur ad vísu skilist, eins og þad stendur í handbókinni. Enn hafi lesarinn af bibliunni tekid eptir, ad Jesús sagdi þessa líkíngu, þegar Pétur spurdi: «hvorsu opt á eg ad fyrirgéfa brédur mínum, sem syndgar á móti mér?" þá veit hann strax í byriuninni, hvornin hann skilia egi samlíkíngarinnar innihalld. En — þad er ónaudsynligt ad nefna fleiri dæmi; því þegar menn siá, at mørg vor sunnudag a gudspiøll byria med þessum ordum: «því, þess vegna", "Jesús svaradi og sagdi til hans" og f. r. skyniar sérhvør lesari hægliga, ad þar er bendt til nockurs, sem á undann er gengid, og sem giøri:ir þad eptirfylgiandi skilianligra. En eins og þe ssi vor sunnudaga Gudspiøll og Pistlar, verda ad lesast í því samanheingi, í hvøriu þeir finnast í

bibliunni, so þeir betur géti skilist, eins er því varið með hennar annað innihald. Þær stærri deildir, sem vér köllum kapitula, (sem ásamt þeim smærri deildum í vers, ekki eru af Postulunum, helldur seinna giørdar) innihalda ecki ætíð nockud adskilið heilt útaf fyrir sig. Nei, opt hánga fleiri kapitular samann, eins og hvørt einstakt stafgólf í heilleri byggíngu. Í því fylgianda sést þetta betur, þegar skírt verdur frá innihaldi sérhvørrar bókar, og sendibréfs í því N. T. Þá mun hvør og einn gaumgiæfinn lesari skynia, hvad heyrir samann, og hvar hentugir vidstøldrunar púnktar eru í lestrinum *). Á þessum stad setst einasta lesaranum fyrir sjónir, hve naudsynligt þad sé, ad lesa þá heiløgu ritþsfunda í samanhengi, og leggia merki til augnamiðs og tilefnis þeirra ræda, bædi til þess hann ecki misskilii þá, sem og til ad géta fullskilið þá.

Enn hitti madur nu einn þúngskilinn stad eda ordatiltæki, sem ecki skilist gétur af samanhenginu, þá mun sá lesari, sem leitar uppbyggíngar í bibliunni, fliótt finna, hvørt þad sé þvílíkt; sem hann í því tillyti, þarf ad skilia eda ecki. Þurfi hann

*) Sú innihalds ávísun, ér stendur fyrir framan hvørn kapitula í N. T., leidbeinir lesaranum til ad géta séd innihald sérhvørs kapitula, og yfirnmgáng frá einu efni til annars; hér ad auki er þad merkt handa lesaranum, hvar þau gømlu kapitula skipti vóru raung.

ecki að skilia það, so álíti hann það, sem það ecki sé skrifað handa hönum. Hann hlaupi yfir það, án þess að brióta heilann yfir því. Hvað það þýði: t. d. að Páll var, uppriktur í 3 himin, þá á sá lærði eins bágt með að segia oss það, sem sá ólærði. Hvað sá sami Postuli meinar með þeim þrengíngum, sem hann qvað sér úthlutaðar vera, og hann nefnir stein í holdinu, Satans engil, sem slái hann með knefum, þ. e. þiái hann (2 Cor. 12, 1); hvör sá mikli og voldugi Kristindómsins mótstöðumaður sé, sem Jóhannes (1 Joh. 2, 18) kallar Antikrist, og sem Páll lýsir so berliga í 2 Thess. 2, 3 f. Í hvörri meiníngu að hinn í gröfinni lifandigiörði Kristus, í Pét. 3, 18 – 20 segist, að hafa gengið burt, og prédikað fyrir öndunum, er vóru í varðhaldi, og vildu ecki trúa á dögum Noah. Hvað skiliast á fyrir þá sképnu, sem lengist eptir og þráir Guðsbarna opinberan (Rom. 8, 9—23); í hvörri meiníngu Páll segir: að þeir heilögu egi að dæma englana (1 Cor. 6, 3); um alt þetta og þvílíkt gétur enum kristiliga bibliulesara verið ókunnigt, án þess að fara á mis við uppbyggíngu af lestri síns. um. En þarfyrir megum vér ecki álykta, að þetta sé skrifað til ónýtis í bibliunni. Þeir fyrstu lesarar skildu það að mestu leyti, til hvörra þeir heilögu ritþöfundar einnahelst litu; líka er það enn þá í mörgum greinum nytsamt fyrir þann lærða bibliulesara, sem þarvið leiðist til að offra lestri sínum á helgidómsins altari. En sá ólærði, á ecki að eiða sínni

tíð til að brióta heila yfir slíku, þareð hans annir ecki leyfa honum að sökkva sér niður í þvílík þánka-brot — hann láti sér nægiast með það, sem hann skilur, og í því mun hann finna nóga nærîngu fyrir sálu sína. Hve heimskuligt væri það ecki fyrir leikmenn að brióta heilan yfir Jóhannis opinberunum! Í siálfu sér er bókin ágiætt rit, uppsprottin af himneskri andaaipt, prýdd enum dægligustu hugarmindum. Enn hvört helldur sem er, að bókin inniheldur skáldskaparliga lýsíngu Kristinndómsins heidarliga sigurs yfir júdadómi og heidindóminum; eda spádóma í samanhengi um forlæg Kristí kyrkiu frá Jóhannis dögum til heimsins enda; so hvört sem helldur er, útkrefst til að géta skilið þessar lík-íngar, undir hvörium alt er hulið, meiri kunnigleiki á ordatiltækium spámannanna; og einkum í seinna tilfelli — diúpsærari kunnátta sagnafræd-innar, enn madur vænst gétur af flestum bibliulesurum. Fyrir því gétur ecki mælst fyrir þessari bók, að hún vera skuli almúgans dagliga handbók, þar henni er so varið, að hann einúngis með varkárni gétur fært hana sér í nyt — því á medal margra, óskilianligra stada, og það fyrir hinn lærda, eru í henni nockrir einstaka stadir, sem jafnvel þeim einfalda eru skilianligir, sem inniholda snotur og kroptug ord til lærdóms, huggunar og vidvörunar. Sá gudliga sinnadi lesari, sem girnist ád verda kunnigur bók þessari, sem er so markverd, hann lenti þessara léttu stada — enn brióti ecki heilan yfir því

þúngskilda; — hann dyrfist ecki offnemma að hnysast inn fyrir fortialdið, sem hylur þau, eptirkomandi forlög fyrir þeim dauðligu. Sé, so, að þessi bók innihaldi spádóma, um atvik og viðburði, sem seinna meir ské skulu, þá munu þeir skiliast, þegar þeir ræst hafa. "Því spádóms orðið er", eins og Postulin Pétur að orði kémst (2 Pét. 1, 19-21), «eins og liós það, sem skín á myrkum stað, þángað til dagurinn birtist, og morgunstiarnan upprenaur í yðrum hiörtum"; «því það skulud þér fyrst hugleiða'', segir hann: «að einginn spádómur í ritníngunni gétur útlagst af siálfum sér'' ɔ: áður enn hann ræst hefir og uppfyllíng hans hefir upplyst innihaldið.

Með þvílíkri varkárni og lotníngu ættu menn að lesa þá aðra staði heilagrar ritníngar, hvareð það þúngskilda er sem blandað því lærdómsríka. Fráságnin um Jesú freistíngu á eyðimörkinni (Matth. 4, 1. Luc. 4, 1 f.) t. d. er mikið uppbyggilig fyrir þann hógværa lesara, sem lítur til höfuðlærdómsins, og nægist með það, sem hann skilur; af Jesú dæmi lærir hann, hvernin hönum ber að standa stöðugum í freistíngunum, hvernin hann á að veria sig móti enum þremur skiæðustu óvinum vorrar dygðar og sinnisrósemdar: skorti, hiegómadyrð og ágyrnd, en vili hann vita meira, taki hann að grafa heilann yfir orðunum; flæki hann sig inní þá þúngskildu spurníngu: hvor freistarin eginliga var, og hvernin freistíngin atvikaðist o. s. fr.; þá er so

hætt við hann tapi adalatridinu, og freistist til ad efast um fráøgu þessa, hvorrar høfudinntak hlytur ad vekia helga lotníngu hiá sérhvørinm gudeliga sinnudum lesara. Og ad vér tøkum eitt annad dæmi: miøg lærdómsríkt og hrærandi er þad, at fetia sér fyrir siónir þá nótt, á hvørri hann svikinn var, ad líta hann í Altaris Sakramentinu reisa minnismerki síns dauda; hvar gétur án stærstu uppbyggíngar minnst þessa litla safnadar, sem var eins og útilokadur frá heiminum, þá hann neytti þessarar seinustu máltídar; eda heyrt Jesúm, hvørium daudinn var áhvedinn, ad segia þessi innihaldsríku ord: "þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfin; þetta er mitt blód, sem fyrir ydur úthellist; giørid þetta í mína minníngu?" — enn fari madur ad brióta heilann yfir meiníngu þessara orda: "þad er minn líkami, þad er mitt blód"; eda þá, á hvørn hátt Jesú líkami og blód, sé sameinad braudinu og víninu í Sakramentinu; hve miøg misskilium vér þá ecki Jesú hreinskilna tilgáng med innsetníngu þessarar heilagu máltídar — og hve hryggiligt er þad ecki, ad ymislig útleggíng þessara orda qveikt hefir margar og grimmar deilur í Kristí kyrkiu! Þegar vér finnum eitthvad vandskilid í ritníngunni, so rádførum oss þannig med oss siálfum: "er þetta þvsi líkt sem oss er unnt ad skilia, og sem eg þarf ad skilia til minnar upplysíngar, betrunar og sinnisrósemdar"? sé því ecki so varid, skulum vér minnast Páls

adværunar (1 Tím. 1, 4) "ecki ad gêfa gaum ad því, sem framar aslar spurnínga, enn gudligrar uppbyggíngar í trúnni"; og hans áminníngar (1 Cor. 13, 9 f.): "ad allur mannligur vísdómur sé ófullkominn". Ef vér fylgium þessari reglu í vorum biblíulestri, þá skulum vér stirkiast vid hennar upplysíngu, án þess vér hneixlumst á því þúngskilda í henni; ecki munum vér þá steyta oss á því yfirnáttúrliga í hennar frásøgum eda því heimugliga í hennar lærdómum; helldr í ollu príssa Guds vísdómsfulla rád til ad efla vora trú og von. Þegar vér lesum frásagnirnar um Jesú fædíngu, dauda, upprisu, himnafør, og heilags anda úthellíngu yfir Jesú Postula; þá skulum vér ecki láta oss afvegaleida, af þeim kiænu ónytiu-spursmálum, sem mannlig forvitni hefir uppfundid; en vér skulum alvarliga gaumgiæsa þann dyrmæta tilgáng þessara atburda; med dupustu lotníngu skulum vér tilbidia vísdóm þess Eylífa, er so fødurliga hefir látid sér umhugad vera, ad þad sem oss mest umvardar, ecki einúngis bygiast skyldi á mannligs hyggiuvits óstøduga grundvelli, heldur á óyggianligum kraptaverkum; vér skulum veria oss gégn allri efasemd med íhugun þeirra yfirnáttúrligu verkana, sem þessir makalausu atburdir hafa framqvæmt á jørdunni, sem ei eru minna úndrunarverdir, enn atburdirnir siálfir. Þá verdur lestur þeirra heiløgu frásagna ávaxtar-samur fyrir vor hiørtu; þá munu þær árligu há-

tíðir, sem minna oss á þær, haldast heilagar af oss, með auðmjúkri hjartans tilfinníngu. Þegar vér lesum þær greinir í bibliunni, sem vitna um Jesú hátign, þá skulum vér ecki grafa heilann yfir því á hvørn hátt það guddómliga og mannesskiuliga er sameinað hiá honum; því það er ecki unnt mannligri skynsemi að útgrunda; en þótt hún, án þess að minnast sinna takmarka, hafi lagt stund á slíkt, sem optast, enni kristiligu trú og kiærleika til skaða; þegar vér minnumst þess, að Guðs son giørdist vor bróðir, þá skulum vér varast með glæpum að ríra þan verdugleik, sem vor mannesskiuliga náttúra þarvið hefir hlotið; þá skulum vér gleðiast af því ótakmarkaða trúnaðartrausti, sem vér megum setia til allra hans orða og fyrirheita.

En mæti oss þúngskildir staðir, er oss, til vorrar uppbyggíngar, ríður á að skilia, og vér ecki gétum að fullu ráðið þá af samanheinginni einúngis; þá skulum vér ætíð samanbera þá þúngskildari staði við þá liósari, sem hljóða um sama efni; og þannin láta þá heiløgu rithøfunda útþyða sín egin orð. Eg giøri ráð fyrir, að sá kristni, sem lesa vill bibliuna sér til uppbyggíngar, áður viti kristindómsins høfuðlærdóma, áður beri kenst á vorra heiløgu trúarbragða hreinu og háu grundvallar ástæður. Hann þeckir þá einnin þá atriðislærdóma um þann einasta sanna Guð, hans son Jesúm Christ, sem hann útsendi; hann veit að Jesú giørvalli siðalærdómur er byggður á þessum setn-

íngum: "ad vér eigum ad dyrka Gud í anda og sannleika"; "ad vér egum ad elska Gud yfir alla hluti, og vorn náúnga sem siálfa oss"; "ad þad sem vér viljum ad adrir giøri oss, þad eigum vér líka þeim ad giøra". Saman vid þessa høfudlærdóma, eigum vér ad bera ritníngarinnar annad innihald — og ef vér hittum eitthvad, sem oss synist ecki géta átt vid þessa lærdóma og bodord, sem Jesús og hans Postular so opt og ljósliga hafa framsett, þá vitum vér, ad þad kémur af skammsyni mannligs hyggiuvits, sem misskilur Guds ord, því Gud gétur ecki mótsagt siálfum sér. Þad er ágiætur eiginligleiki vid heilaga ritníngu, ad einginn árídandi lærdómur eda bodord finst einúngis á einum stad, heldur á fleiri stødum, ymisliga framsett og í ymsu samheingi. Stundum er vikid á mørg sannindi stuttliga vid tækifæri, stundum eru þau af ásettu rádi framsett, — stundum med berum ordum, stundum í líkingum — sumstadar er lærdómurinn heill framsettur, annarstadar nockud af hønum. Héraf sést, ad hinn guddómligi sannleiki gat ecki allstadar eins skilmerkiliga í ritníngunni útlistast; þad flytur af hlutarins og manneskiuligs ordfæris edli; þegar lesarinn nú hittir einn þúngskildann stad, þá rádfæri hann sig vid þá skilianligri, sem eru sama efnis, til hverra vísad er í sumum bibliu útgáfum; og þá mun sá myrkvari stadur verda skilianligri. Nockur dæmi giætu upplyst þessa reglu.

Hneigist einhver lesari á því sem Jesús sagði til móður sinnar *): "Kona! hvað villt þú mér? mín stund er enn nú ecki komin", eða á því sem hann sagði við þá, sem boðyðu hönum, að móður hans og bræður væru komnir (Matth. 12, 46 f.): "hvör er mín móðir, og hvörjir eru mínir bræður?" «sá sem giörir vilia míns föðurs, þess sem er á himnum, hann er minn bróðir, systir og móðir"; þá samanberi hann þau hiartahrærandi fögru orð, sem Jesús talaði á krossinum: "Kona! siá þú, það er þinn sonur"; «Jóhannes! siá það er þín móður", þá mun hann sannfærast um, að einginn sonur hefir haft viðqvæmara hiartalag til móður sinnar enn Jesús hafði; hann mun géta til, að það fyrsta blíúsa orðatiltæki kémur af útleggíngunni, og að Jesús á síðara staðnum einúngis meinar, að hann náqvæmar var sameinaður sínum sönnu lærisveinum, enn skyldfólki sínu. Þegar Jesús segir (Luc 11, 41): «géfið einasta ölmusu af því, sem þar er í, (ní í bikurum yður og kérum) siá! þá er yður það allt hreint". Þá skyniar hann, að meiníngin ecki er sú, að vér með ölmusu um gétum utskafið óréttlætið, þegar hann einasta samanber þennan stað við Matth. 23, 26: «hreinsa fyrst hið innra á bikurum og kérum (: hreinsa fyrst bú þitt frá óréttfengnum eignum), þá verður

*) Jóh 2, 4. Þessi staður, sem áður var rángt útlagður, er vel lagfærðr í þeirri nyútkomnu endurbættu útleggingu af N. T. á dönsku.

líka hið ytra hreint". Ecki misskilur hann heldur þann, í þeirri siðvanaligu útleggíngu so twíræda stað Luc. 16, 9: "giørið ydur vini af hinum rángláta *) Mammón". Vér vitum bædi af þeim nyávikna stað, sem Jesú grundvallarlærdómum, að það er ecki hans vilji, að vér séum gódgiørda-samir af annara eignum, helldur af vorum eigin; og þaraf gétum vér ráðið, að Jesús ecki avið þann rángláta Mammón" meinar það ríkidæmi, hvers með rángsleitni er aflað, og þessi vor gét-gáta verdur viss, þegar vér siáum í 11ta versinu, að sá rángláti audur mótsetst þeim sanna; því þaraf siáum vér hægliga að þar ætti ecki að standa, sá rángláti, helldur sá rángi, svik-uli, Mammón; sem táldregur þá er eiga hann, með farsældar von. Hiá Matth. 19, 24 hittum vér þau orð: "hægra er úlfaldanum að gánga í gégnum nálaraugað, enn ríkum manni inní himnaríki"; og vér undrumst máské, eins og Jesú lærisveinar, yfir þessu orðatiltæki. Enn þegar vér í Marcí Evang. 10, 24 og 23 siáum að þessi orð skiptast um: þeir ríku og þeir sem stóla uppá ríkidæmi sitt; þegar vér athug-um, að ámedal Jesú fyrstu játenda vóru audigir menn, t. d. Jóseph af Arimathæa; þegar vér lesum hiá Postulanum Páli, 1 Tím. 6, 17—19:

*) Þessi stadur er lagfærdur í þeirri nyu dönsku útleggíngu.

að það er ecki boðið þeim ríku, að lóga eignum sínum, helldur: „að þeir skuli ecki stæra sig af þeim, treista ecki á þær, og að þeir skuli kappkosta að audgast af góðum verkum"; þá sannfærumst vér um, að Jesús fordæmir ecki ríkdóminn í siálfu sér; helldur er hans meiníng sú, að það sé harla torveldt, og án Guðs aðstoðar ómøguligt, að sá, hværium tímanlig audæfi liggia þyngst á hiarta, géti slitið hiarta sitt frá sínum hiágudi, og metið mest þau andligu giæði. Þau føgru Jesú orð (Matth. 6, 25 f.): „verið ecki hugsiúkir yfir því, hvað þér skuluð eta, drecka, hværiu þér skuluð klæðast; alið ecki önn fyrir morgundeginum, því hværium degi nægir sín þiáníng"; "safnið ydur ecki fiársióðum á jørðu, helldur á himnum" (v. 19. 20); — og þau krøptugu Páls orð (Coloss. 3, 2): "sækið eptir þeim hlutum sem þar uppi eru, enn ecki eptir þeim sem eru á jørðu", ogønnur þvílík, hafa ecki einúngis þeir hædnisgiørnu rángsært, helldur líka grillumenn so misskilið, sem að framqvæmdarsemi, átorka, iðiusemi og umhyggia fyrir vorri vellíðan væri mótstríðandi Kristindómsins anda. En hve miøg slíkir hafi misskilið þau heiløgu trúarbrøgð, mun sérhvør sannfærast um, sem yfirvegar Jesú ágiætu samlíkíngu (Luc. 19, 12 f.) um það pund, sem sérhværium er fyrirtrúað, til að ábatast á; — samt yfirvegar þær alkunnigu greinir (1 Thess. 4, 11. 12. 2 Thess. 3, 6—12. Post. G. 20, 34. 35) í hvør-

ium Páll so skorinordt upphvetur til idiusemis; og lofsins, minnist þeirrar atorkusemis, sem Páll og Tabítha (Post. G. 9, 36. 39) og fleiri hafa synt. En Kristindómurinn kénnir oss, ad vér eigum ad erfida á jørdu þessari, snúandi vorum huga til himinsins; og sá er so breytir, er hinn besti og trúasti verkamadur. Þann 7da kapitula af 1ta sendibréfi Páls til Corinthumanna, hvar Postulinn rádleggur þeim fyrstu Kristnu helldur ad vera ógiptum enn giptum, vegna þeirra ofsókna, er so opt rak þá á flótta, hafa grillumenn þannig rángfært, sem Postulinn áliti þann ógipta framar ødrum heilagann. Enn hve fiærri hønum sé þad, géta allir séd í hans 1ta bréfi til Tim. 4. 3, hvar hann so skorinordt varar menn vid þvi heilagleikans yfirskini, sem so opt vanheidradi hiónas bandid. Vída hvar í enu N. T erum vér t. d. varadir vid heimsspeki *) (Coloss. 2, 8), kærleika til heimsins (1 Joh. 2, 15. 16); heimsins vinátta nefnist Guds óvinátta (Jac. 4. 4), trú enna kristnu yfirvinnur heiminn" (1 Joh. 5, 4); og þvílíkt, hafa menn vans brúkad til ad næra sérlyndis villumeiníngar, þared menn misskildu þau þýdíngarfullu ord: «heimsur", og "veraldligur". Jesú dæmi synir, ad

*) Hvad Páll meinar med heimsspeki, um þad skal rædt verda í skyringargrein. yfir 1 Cor.

Kristindómurinn vill ecki niðurkéfia tilhneigíngu manna til skémtunar, og félagsskapar, því siálfur naut hann þess (Joh. 2, 2). ecki niðurþagga vora siðsamligu ærugyrnd, eða aðrar sak'ausar tilhneigíngar í manneskiunnar náttúru; því siálfur forsvaraði hann mannorð sitt (Matth. 12, 24 f.). Þetta kénna Postular hans, þegar þeir opt upphvetia þá Kristnu, að þeir með óstraffanligu lífserni, skyldu vinna óvina sinna hrós (1 Pét. 3, 15. 16); þegar þeir þryna fyrir þeim siðsamligt framferði, og annað sem er gott afspurnar meðal manna (Philipp. 4, 8). Samt sem áður, á so veraldliga sinnuðu tímabili, sem því er vér lifum í, þá trúarbragða grillur eru sialdgiæfar, á meðan þarámót þorri manna "safna fiársióðum á jörðu, og skeyta lítið um þá hluti, sem eru hérofanað"; á þvílíku tímabili þarf maðr ecki so ytarliga að vara við misbrúkun þeirra bibliugreina, sem skorinorðt leggia oss á hiarta það eina nauðsynliga, helldur minna ena kristnu á, «að varðveita sig óflekkaða af heiminum" (Jac. 1, 27); "og brúka þennan heim eins og þeir, sem ecki misbrúka hann" (1 Cor. 7, 31) — (eða eins og stendur í þeirri nyu útleggíngu á dönsku: "eins og þeir, sem ecki nyta hann).

Framar hafa þær bibliugreinir verið rángfærðar, í hvorium sagt er, að manneskian réttlætist fyrir Guði af trúnni án eigin ferþénustu og verðskuldunar, af einskiærri náð; að Guð framqvæmi allt, það góða hiá oss; að diöfullinn freisti

manneskiunnar til að syndga, og fleira þvíumlíkt; og vér verðum náqvæmliga að fylgia þeirri héraðframan umgétnu aðalreglu, til að skilia þessar bibliugreinir, sem so opt hafa orðið lesinnar koddi og skálkaskiól; og því vil eg leitast við að leiðbeina þeim ólærða lesara í þessu með fáeinum skýríngar-greinum. Það er einkum í sendibréfunum til Rómveria og Galatíumanna, að Páll framsetur lærdóminn um syndaranna réttlætíng hiá Guði fyrir trúna á Jesúm Christ. Til þess að niðurkiesta Gyðínganna hroka, sem þóktust hafa framar øðrum rétt til Guðs velþóknunar og eylífrar sáluhiálpar, þareð þeir bókstafliga giættu Móisis lögmáls, og til þess að auglýsa Guðs ráð til syndaranna frelsis fyrir Christum, sannar hann skilmerkiliga í þessum sendibréfum: að allar manneskiur séu straffverðir syndarar, og að vér þessvegna ómøguliga gétum krafist Guðs náðar og syndanna fyrirgéfníngar, í launa skini fyrir forþénustu vora; heldur sé alt þetta einúngis óverðskuldaðir Guðs velgiørníngar, sem ekki géti fallið oss í skaut, nema vér trúum á Jesúm, sem gaf sitt líf í dauðann fyrir oss. Með þessum lærdómi hefir Guðs orð bæði viliað sýna oss, hve heilagt siðalögmálið er, — leiðbeina oss til að vér viðurkénna skyldum vorar yfirsiónir og auðmykia oss fyrir Guði, og á aðra síðu bera umhyggiu fyrir vorri sinnisróssemi við tilfinníngu vors eginn ófullkomligleika, í inntæta hiá oss barnligt trúnaðartraust

til Guðs, og byggia vora sáluhiálparvon á föstum og óskeikulum grundvelli. En þetta friðarins Evangélium, sem, rétt skilið, inniheldur bæði þær kröptugustu upporfanir til ráðvendnis og heilagleika, sem og huggunar ástæður fyrir þann ydrandi; þetta Evangélium hafa margir hræsnarar haft fyrir letinnar kodda og skálka skiól, þar þeir vona, að þeir géti orðið hluttakandi í Jesú friðþægíngu, án þess þeir betri lifnað sinn, án hreinskilinnar alvarugéfni í heilagleikans þiónustu. En sá sem er nockuð kunnugur heilagri ritníngu, getur strax séð, að þeir, sem þannin misbrúka Guðs Evangélium sér siálfum til óheilla, og eins og Páll að orði qveður (Gal. 2, 17) giöra Jesúm að syndarinnar þénara, þeir hafa aldrei lesið bibliuna í hreinskilnum tilgángi. Þeir eru þöllkir, sem brúka trúarbrögðin til yfirhylmíngar, og leitast við að rángfæra Guðs orð, eptir sínum spilltu tilhneigíngum. Sá hreinskilni bibliulesari, sem ecki aðskilur þau guðdómligu fyrirheit, frá þeim guðdómligu boðorðum, og sem veit, að það sama Guðsorð, sem boðar syndurunum frið við Guð, inniheldur líka þá skilmála, án hverra uppfyllingar, einginn getur orðið hluttakandi í þessum velgiorníng, hann mun sannfærast um, að eingin lærdómur kröptugar varar oss við því illa, og uppvekjar oss til alls ens góða, enn ritníngarinnar lærdómur um Jesú endurlausn. Og so að eg bendi til nockurra fárra staða, ámeðal so margra, þá

athugi menn einasta, hvornig Páll hagvendir þessum lærdómi í sendibréfinu til Rómveria 6 kap. og frá 12ta kap. til bréfsins enda, og í bréf. til Gal. 2, 16—20, og frá 5, 16 til enda; lesi menn hvað þessi sami Postuli segir 2 Corinth. 5, 14. 15 og til Títum 2, 11—14. Ebr. 11 kap. Lesi menn þau fegru orð í Jacobs Pistli 2, 26 og í Péturs fyrsta bréfi 2, 24. 25; þá mun sérhvorr hreinskilinn lesari skynia, að Jesú dauði fyrir syndir vorar, opnar oss ecki hæli, hvort vér stúið getum með saurig hiörtu og hendur; heldur þvílíkan helgidóm, í hvørn enginn gétur komist, nema sá sem lætur af illu, og helgar Drottni sitt hiarta; hann mun skynia, að sú trú, þeir heilögu rithøfündar krefiast af oss til sáluhiálpar, hvort heldur þeir taka orðið í útbreiddari þýðínga um meðkénníng Jesú giør-valla lærdóms (sem í d. Marc. 16, 16) edur í enni þreingri merkíngu, um trúnaðartraust á Jesú, sem vorum endurlausnara og talsmanni, (eins og Róm. 3, 25), að þvílík trú ecki er hin sama, sem hræsnarinn kallar trú; heldur sú sannfæring, sú trú, sem, eptir bibliunnar orðatiltæki, "hreinsar hiartað" (Post. G. 15, 9) "sem er fram-qvæmdarsøm í kiærleikanum". (Gal. 5. 6) "yfirvinnur heiminn". (1 Joh. 5, 4), í stuttu máli eins og skugginn gétur ecki verið til án lík-ama, eins og líkaminn er án andar dauður, eins gétur trúin ecki verið án ávaxta í heilögu líferni. Páll hefir kénnt oss í sendibréfinu til Ebr. 11 kap.

hvað þvílík trú framqvæmt géti hiá manneskiunni; og heimurinn hefir aldrei séð stærri dæmi þar uppá enn hiá Jesú Postulùm. Þessvegna útmála þeir heilögu rithöfundar þá eptirkomandi sælu, sem þvílíka, er flýtur af vorri trú (Marc. 16, 16); og sem náð (Róm. 6, 23) so að manneskian, sem syndari, finni í hvörin ástandi hún er í tilliti til Guðs, og stóli ecki uppá eigin verðskuldan; stundum álýta þeir hana sem ávöxt vorra verka, laun fyrir ástundan vora (Róm. 2, 7), til að fullvissa oss um, að vor kiør eptir dauðann séu í réttlátum höndum, og náqvæmliga líkiast skuli þeim trúskap, vér syndum í Drottins þiónustu.

Ecki heldur er bibliunni að kénna um þá misbrúkun, sem hennar lærdómur um mannliga spillíngu og ódugnað til ens góða, um vora betrun, að hún sé frá Guði, en ecki oss siálfum, — hefir þola mátt; skorinordt og hryggur qvartar Páll Róm. 7, 7—25, yfir vondra tilhneigínga makt yfir manneskiunni; en hann synir oss í þeim eptirfylgiandi 8 kapitula, að þeirra veldi veikist géti fyrir aðstoð Jesú Evangélii. Á ymsum stoðum tileigna þeir heilögu skrifarar Guði vora endurbót, eins og höfundi alls þess góða, sem er í oss. Eg vil til dæmis géta eins merkiligs staðar sem hérað lýtur, í sínu samanhengi; Páll segir í sendibréfinu til Philipp. 2, 12, 13 »kostgiæfið yðar eigin sáluhiálp með ugg og ótta ɔ: með stærstu umhyggiu og varkárni; »því" — bætir hann við "Guð er sá

sem verkar hiá ydur bædi viliann og giørnínginn, eptir sinni velþóknan". Hver er nú sá, sem ecki séd géti, ad Páll ecki frádæmir, í haus seinustu ordum, manneskiunni mátt til, ed styrkia til sinnar eigin betrunar? Því hvernin giæti hann þá í næstundanförnu versi krafist af þeim ad kostgiæfa sína sáluhiálp? og hvernin giætu yfirhøfud þeir heiløgu rithøfundar á ótal stødum advarad oss á móti því ílla, og upphvatt oss til ens góda; ef ad þeir á ødrum stødum vildu frádæma oss mátt til ad hlyda þeirra advørunum og ad fylgia þeirra áminníngum? — ónei! þegar biblian med liósum og sterkum litum afmálar mannliga spillíngu, þá er þad ecki til ad draga dug úr oss; helldur til ad syna oss vora bresti, í því hún setur oss fyrir siónir þann hættuliga óvin, sem vér høfum vid ad beriast, og hvetur oss til ad brúka vora krapta til árvekníis og bænar; og þegar hún lætur vora betrun ecki vera vort verk, helldur skér fyrir anda Drottins — þá vill hún med því efla vora hugdiørfúng, til ad feta áfram þann þraungva veg, sem leidir til lífsins, med þeirri hughreystíngu, ad vor kostgiæfni ecki géti mislukkast, þar Gud sé vor adstodari; en héradauki varar hún oss vid þeim andliga siálfsþótta, sem er miøg skadligur, med þeirri áminníngu: ad vér ei gétum framqvæmt neitt gott, án Guds adstodar. Oss sæmir þá ecki ad brióta heilann yfir því, hversu stérann þátt Gud, og hversu stórann þátt vér eigum í vorri

betrun; því þvílík heilabrot vóru eitt af þeim skérium, á hverium mannligt hyggiuvit so opt strandað hefir — helldur færa oss í nyt, þá krapta, meðøl og tækifæri, til hiartans betrunar, sem Guð unnir oss; og þegar vor viðleitni lukkast, auðmiúkir þacka Guði fyrir það, sem uppsprettu alls þess sanna góða hiá manneskiunni.

Eins og bibliunnar lærdómi um Guð, uppspretta alls sannleika, er háttað, þannin er líka varið því mótsetta hugargripi, um Diofulinn, lyginnar foður; hverutveggia hefir verið misbrúkað til að hylma yfir og afsaka manneskianna spilltu girndir, en þó ecki so mikið vegna bibliunnar myrku orðatiltækia, sem vegna lesaranna illgirnis. Því þótt vér, ókunnigir í andanna heimi, eigum eins bágt með að skilia, hvornin Diofullinn er upphaf til alls hins illa, sem og hitt, hvornin Guð sé hofundur þess góða; so kénna oss þeir heilogu rithofundar lióst og skilmerkiliga, það sem vér þurfum að vita, til þess vér ecki rángfærum þetta hugargrip. Ef vér ættum að trúa, að Diofullinn meðalslaust giæti innblásið oss sauriga þánka og þvert á móti vorum vilia drifið oss til illra verka, þá væri manneskian aumsqvunarverð sképna á hveria máttugari andi verkaði so volduglíga; en það finnst hvergi í bibliunni. Hún synir oss þarámót allstaðar, að vort hold og syndfúsa náttúrufar sé sú eiginligasta og nálægasta uppspretta til allra vorra saurugu þánka; — hún segir oss,

ad þegar vér mótstrídum vorum spilltu tilhneigingum, þá mótstondum vér Diöflinum. Sá sami Jesús, sem kémst so ad ordum um Guds ords lauslyndu tilheyrendur (Luc. 8, 12): "enn eptirá kémur Diöfullinn, og tekur ordid úr þeirra hiörtum" — hann segir þó skírt og skilmerkiliga (Marc. 7, 21): "innanad" (en ecki útanad, eda frá ens illa anda medalslausu áverkan) "frá mannesskiunnar hugskoti koma vondar hyxanir". Postulinn Jacob, sem segir (Jac. 4, 7): "veitid Diöflinum mótstödu, og mun hann flya frá ydur"; hann afmálar uppruna syndugra þánka og ásetníngs med so liósum einkénnum. eins og alþekt er, þannin: "hver og einn freistast þegar hann tilteigist og lockadur verdur af sinni egin uyrnd" (Jac. 1, 14) og s. fr. Og þótt Postulinn Jóhannes komist so stórkostliga ad ordum um svikarann Júdas (Joh. 13, 2): "ad Diöfullinn hafi skotid því í hiarta Júdas Ischarioth ad hann skyldi svíkia Jesúm" og á ödrum stad (Joh. 13, 27): "ad Satan hafi farid í hann", þá hefir hann samt í undangeinginni frásögn nægiliga varad oss vid rángsærslu sinna orda, til ad draga þad út af þeim, ad illur andi, án Júdasar vilia eda samþyckis, hefdi annadhvert vakid eda eflt þennan vondskufulla ásetníng í hans sálu, þared hann synir oss liósliga, ad sú eginligasta og helsta orsök til þessa glæps, var sú spillta tilhneigíng, sem so lengi búid hafdi í Júdasar hiarta, og nú umsídir fékk yfirrád yfir honum.

Þegar vér samanberum þá skilmerkiligri stadi í því N. T. hvar þeir heilögu skrifarar heimfæra vondar hugenir til vors holds og skilníngarvita, vid þá þúngskildari, hvar þeir nefna Diöfulinn höfund og upphaf alls hins ílla; þá skynium vér hægliga, ad þeir med því sídstnefnda ordatiltæki, ecki géta haft annan tilgáng enn þenn, kreptuliga ad setia oss fyrir siónir vidurstygd saurigra tilhneigínga. og minna oss á, ad þegar vér med vitund og vilia nærum saurigar gyrndir í sálu vorri, þá séum vér ecki Guds, heldur Diöfulsins born, þá líkiumst vér mannanna óvin, en ecki þeirra fødur, og erum í Diöfulsins, en ecki í Guds þiónustu.

Og þessi kreptugu snoturyrdi, sem jafnadarliga tydkast í heilagri rítníngu kénna oss nya og markverda reglu, sem vér verdum ad hafa fyrir augum í biblíulestri vorum Hiartnæmt tala Jesús og hans Postular vid oss, um þad, sem oss mest áríder, og brúka sem optast þau kreptugustu ord, og mest passandi hugarmindir, sem mannlig túnga leyfir, til ad syna, hve hrærdir þeir séu. Fari nú einn kaldur grublar ad lesa í bibliunni, þá mun hann hægliga finna mikid í henni, sem hönum þykir uppskrúfad og órímiligt, þared hann ber ecker skyn á þeirra hiu andagipt. þeim hiartnæmu ordatiltækium hvarí þeir heilögu menn segia sína meiníngu Héraf flytur su naudsynliga regla, ad þegar vér lesum bibliuna, megum vér ecki hánga í bókstafnum, ecki sundurlima

orðin; helldur útþýða hennar samlíkíngar, málstæki og kraptfullu orðatiltæki eins og maður plagar að skilja þau í daglegu lífi. Til að sanna þessa góðu reglu, skulum vér leiða nockur dæmi til, sumpart af þeim að framan áviknu, sumpart af öðrum bibliugreinum. Þegar Jóhannes, til að láta í ljósi sína gremju yfir Júdasar diøfulligà ásetníngi, kémst so að orði: «að Diøfullinn hafi farið í hann"; þá væri það eins órétt, að skilja það eptir orðunum eins og þegar Jesús sagði, til lærisveina sinna, um þenna svikara (Joh. 6, 70): "einn af ydur er diøfull". Bæði Jesús og Jóhannes tala hér um Júdas og hans svíkræði, eins og menn í øllum túngum plaga að tala um þá illgiønustu og þeirra ódáða verk. Efað maður við nyumgétin orð, sem Jesús, brýggur af hins únga manns alt of stóru elsku til jarðneskra muna, sagði (Matth. 19, 24): "hægra er úlfaldanum að gánga í gégnum nálaraugað, enn ríkum manni inní himnaríki", villdi í diúpum þaunkum þaraf álykta þannig: "úlfaldinn gétur ecki komist í gégnum nálaraugað, þess vegna gétur einginn ríkur komist í himnaríki"; hve miøg færi hann þá ecki á mis við Jesú meiníngu. Þegar Jesús í fiallprédikuninni kémst so að orðum: «efað þitt auga hneixlar þig, þá kipptu því út; eða þín hønd eða fótur hneixlar þig, þá høgg það af; ef einhver slær þig á ena hægri kynn, þá bióð honum hina vinstri" (Matth. 5 kap.)

"géf Þeim, sem bidur Þig; og heimtadu ecki aptur, Þad sem annar hefir tekid frá Þér" (Luc. 6, 30), fávisligt væri ad skilia Þetta rétt eptir ordinu; Þar Jesús med kroptugu ordatiltæki, vill med Því fyrra upphvetia oss til ad strída á móti syndsamligum gyrndum, Þótt sigurinn afladi oss slíkrar Þrautar, eins og ad kyppa augunu út, elligar afsnyda hönd eda fót; og á seinna stadnum kénnir hann oss, ad fyrr ættum vér ad Þola órétt, og géfa eptir fyrir Þeim óbilligustu krøfum, enn hefna vor sialfir, eda yfirtroda mannelskunnar og blídlindisins heilaga løgmál. Med diúpri og vidqvæmri tilfinníngu síns eginn ófullkomligleika sagdi Páll Róm 7, 19: «Þad góda, sem eg vil giøra, giøri eg ecki, og Þad illa, sem eg ecki vil giøra, giøri eg"; sá athugasami lesari sér gløgt, ad Postulinn meinar, ad hans framqvæmdarsemi í Drottins víngardi, var lángtum minni, enn hann siálfur æskti. Hryggur yfir fiøldu Þeirra følsku kénnara, sem afvegaleiddu gydíngalyd, sagdi Jesús hiá Jóh. 10, 8: «allir Þeir, sem komu ádur enn eg, eru Þiófar og ræníngiar; eins hryggur sagdi Páll, Philipp. 2, 21: «Þeir hinir allir leita Þess, hvad Þeirra er, enn egi Þess, sem Jesú Christí er" — hver er sá, er ei siái, ad ordid: «allir" á Þessum og líkum stødum verdur ad takast, eins og Þegar madur í dagligu tali segir: «sérhverr leitar síns hagnadar"; "Þar er eingin hreinskilni til í heiminum". Þegar Jesús, hiá Matth. 10, 34. 35

segist ecki vera kominn til ad slipta frid á jordu, helldur styriold, til ad vekia ósamlyndi milli nánustu ættmanna; so er þad ecki til ad syna adaltilgáng sinnar komu, ad hann segir þetta, helldur þad er naudsynliga yrdi ad flióta af henni, nefniliga stiriolld millum liófsins vina og óvina. Þegar lída tók undir hans pínu. og hann á sansalligann hátt gyrntist ad setia lærisveinum sínum fyrir siónir, hve óhúlltir þeir þángad til lifad höfdu undir hans varatekt, og þær offóknir og hættur þeir frammvegis mættu búast vid; segir hann vid þá, Lúc. 22, 35 f.: «Þá eg útsendi ydur án púngs, án tösku og skiæda, brást ydur þá nockud? nei", svoruda þeir; «en nú", segir hann, «hvor sem á púng og tösku, sá taki þad med sér; og sá sem ecki á sverd, hann selji kyrtil sinn, og kaupi eitt"; þad var ecki furda, þótt hans lærisveinar, sem þá þecktu so litid til hans áforms, ecki giætu skilid hann. Enn hve óviturligt, smeckllaust og illviliad væri þad ecki, ef vér, sem lært höfum af útfallinu ad þeckia Jesú áform, samt vildum eins og sumir trúarbragdahædarar taka þetta eptir ordunum, soleidis: ad Jesús í raun réttri hefdi ásyst lærisveina sína til óróa mót landsstiórnurunum; — þad er audséd, ad hann med sínum sidvanaligu skörpu ordatiltækium einúngis vildi segia: «stórar hættur liggia fyrir ydur, eins og þér ferdast ættud í gègnum skóg, fullann af ræníngium"; hvorsvegna hann strax, þegar hann vard var vid, ad læri-

sveinarnir misskildu hann, hætti, segiandi (v. 38): „það er nóg" (: tølum ekki meira um það).

Þessa orðsqviðuligu talshætti, finnum vér hvervetna í enu N. T. og einkum í Jesú rædum; stundum velur hann orðsqviði og samlíkíngar, eins og áður er sagt til að innsveipa þann sannleika í þeim sem hans þáverandi breiskum tilheyrendur, ecki gátu þolað að lyta í sinni fullu byrtu, helldur smámsamann fyrir hiálp þessa fagra búnaðar, að opna þeim guddómligu sannindum léttari aðgáng til vorra hiarta. Tali hann um þær ráðstafanir, sem Guð fyrir hann hafði giørt til mannkynsins upplysíngar, betrunar og sáluhiálpar, þá tekur hann alkénda samlíkingu, af ríki einu, Guðs ríki, himnaríki, sem byriast ætti á jørdunni, framhaldast og fullendast á himnum, samlíkir sér med Kóngi, (í Júda máli: Messias), sem vildi safna sér þegnum, frá øllum áttum jardarinnar, og sínum Postulum samlíkir hann við þióna eða fulltrúa, sem sitia skyldu á 12 stólum og dæma þær 12 Israels kynqvíslir (Matth. 19 28). Vildi hann benda tilheirendum sínum til sins yfirvofandi dauða, og hans heillasemu afleiðínga; þá brúkar hann opt med áfetníngi þau þúngskildari orðatiltæki, eins og í samtalinu við Nicódemus (Jóh. 3, 14), "að mannsins son skuli upphasinn verda, eins og høggormurinn á eydimørku"; eda hann tekur tilefni af þeirri yfirnáttúrligu fólksins mettan, til að nefna, siálfann sig: það lífsins brauð, sem frá

himnum er komid, já, sitt hold og blód fædu fyrir heimsins líf (Joh. 6, 51). Þessi líkíng var mørgum af hans tilheyrendum óskilianlig, ecki so á siálfri sér, helldr þessvegna, ad það sem hún átti að þydast uppá, nefniliga: Messiasar, daudi, var þeim framandi og þvert á móti gédi. — Þegar hann fyrirsegir Jerúsalems og gydíngasticrnarstands eydileggíngu (Matth. 24. 29—35); þá brúkar hann spámannanna sterku ordsqvidi, med hvørium þeir afmáludu ríkianna umbiltíngar; hann tekur samlíkingu af sólar og tungls formirkvan, af stiørnuhrapi, af dómarans komu í skyunum. Þegar hann (Matth. 25, 31) talar um Dómsdag, og þann dóm, Kristur halda skal yfir øllum manneskium; tekur hann á likann hátt, samlíkíngu af þeim kóngi, sem kallar alla þegna sína fram fyrir sínn dómstól. Þegar hann vill setia oss fyrir siónir ástand þeirra farsælu, og ófarsælu eptir daudann — það ástand, um hvørt vér ecki gétum giørt oss lióssara hugargrip, enn barnid í módurs lífi um þá sól, sem seinna meir upprenna skal yfir þess høfdi — þá fær hann líkíngar af því, sem plagar að vera sansaligri manneskiu hid allra glediligasta eda qvalamesta á jørdunni; hann samlíkir því samvitsku nagi, sem í ødrum heimi pínir þá ógudligu, vid orm, sem ecki deyr; og þeim saurigu gyrndum, sem plága þá, án þess ad géta mettast, vid elld, sem ecki sløknar (Marc. 9, 44. 46. 48); bústad þeirra sáluhólpnu afmálar

hann (Matth. 8, 11. 12) eins og stofu upplysta af ljósum, hvar þeir guðhræddu sitia til borðs hver með øðrum í samfélagi þeirra æruværðugu Israels forfeðra, á meðan hinir óguðligu tárast af hrygð úti fyrir í mirkri, og gnysta tennum af øfund. Sá einfaldasti bibliulesari á hægt með að skynia, að þvílíkir staðir ecki mega skiliast eptir bókstafnum; helldur eru sansaligar hugarmindir, til að afmála fyrir oss það yfirsansaliga og eylífa.

Eins er þeim uppspunnu frásøgum (eptirlík- íngum og bílætum) varið, sem Jesús so miøg tyð- kaði. Í sérhverri af þeim verðum vér að athuga þann høfuðlærdóm, sem í þeim er hulinn, og ecki leita eptir meiru, enn því, sem frásagan eða eptirlíkíngin, í tilliti til samanheugisins, á að kénna oss, eða grubla úti hvørt einstakt bílæti, sem þénar til að fullkomna og pryða giørvallt málverkið. 2 Dæmi géta upplyst þetta. Í frá- søgunni um erfiðismennina í víngarðinum (Matth. 20, 1 f.) er sá høfuðlærdómur hulinn: vér eigum að giøra vora skyldu, og þá óqvíðnir áhend- ursela þeim réttláta dómara vor kiør; hann ágarðar oss launin eptir trúmennsku vorri í hans þiónustu, en ecki eptir óvissum tímastaða og tæki- isæra kríngumstæðum, sem hann, en ecki, vér rædur fyrir. Þessvegna missķildum vér hraparliga þessa frásøgu, ef vér villdum þannin álykta: þareð þeir seinastleigðu feingu eins mikil laun, eins og þeir fyrstu, þá er sein umvendan eins góð, og sú, sem

skér snemma. Þeir seinustu erfidismenn vóru so lengi ydiulausir þared einginn hafdi leygt þá ádur. Í frásøgunni (Matth. 25, 1 f.) um þær 5 forsiálu og 5 óforsiálu meyar, er oss liósliga fyrir siónir sett, hve naudsynligt þad sé, ad vér ætíd vidbúnir séum Dómarans-komu, sem ské kann ad oss óvorum. Enn hve fáfeingiligt væri ecki ad spyria: hvad þyda lamparnir? hvad vidsmiørid? eda hvorsvegna eru meyarnar 5 forsiálar og 5 óforsiálar? eru þá þeir gódu Kristnu og þeir lakari jafnmargir? med þvílíku ónytiu grubli færi madur á mis vid Jesú tilgáng, og veikti verkun frásøgunnar. Eins rángt væri þad, ef vér í líkíngunni um húsfødurinn, sem plantadi víngard, gyrdti í kríngum hann, setti þar vínpressu og uppbygdi turn (Matth. 21, 33 f.); vildum leita frábrugdinnar þydíngar í ordunum: gérdi, vínpressa, turn; þar øll þessi bílæti tilsamans tekin eiga ad, syna húsfødursins umhyggiu og varatekt á sínum víngardi, þad er: Guds forsiá fyrir sinni kyrkiu. Eda þá — ef vér af þeim kunnigu stad (Matth. 12, 43 f.), hvar Jesús talar um þann óhreina anda, sem þá hann var útfarinn af manninum, kom aptur med sio anda sér verri, og s. fr. vildum grubla úti andanna edli og þeirra bústad; þared Jesús einúngis hafdi þann tilgáng, ad hylia í þessu bílæti, sem Gydíngum var alkunnigt, þann sannleika, ad líkasem siúkdómurinn verdur þess skiædari þess optar hann vitiar manns, þannin fordiarfast manneskiuligt hiarta

þess optar það forherdist mót vidurkénndum sannleika.

Yfirhøfud þarf sá hreinskilni Kristni, sem af alvoru leitar sannleikans, ecki ad óttast fyrir, ad hann vegna þessa búníngs þeirra guddómligu lærdóma í N. T., villast muni af þeim rétta vegi. Því bædi eru þau bílæti, sem Jesús og Postularnir brúka, mestpart tekin af alþecktum hlutum; og þaraðauki skiptast þau úpriginligu ordatiltæki á vid þau eiginligu — þeir stórydtu ordsqvidir ósialdann á vid þann jafnari stílsmáta; so ad einginn, sem leitar uppslýsíngar, vantar tækifæri til ad géta fundid hana. Hvør nema sá illgiarni gétur hallldid, ad Jesús, af því hann batt sína háu lærdóma til þánkans um eitt ríki, hafi leitast vid ad verda veraldligur Kóngur; þared hann bædi í ordum og verkum so klárliga hefir útlistad, hvílíkt hans ríki var? hvør skynsamur lesari Ebræos bréfsins (hvørs høfundur, vegna orsaka, er sídar skulu umtalast, hefir valid eptirlíkíngar til sannleiksins búnadar) gétur fallid uppá ad skilia það bókstafliga, ad Jesús sem ædsti prestur hafi med offran síns eigin blóds gengid inní þann sanna helgidóm, í himininn; þared lærdómur sá sem liggur í bílæti þessu so opt, í enu N. T. er útþyddur med berum ordum. Lesum þá med sannleiksfúsum hiørtum aptur og aptur vora kristiligu bibliu; og þá mun skrifmáti þeirra heiløgu rithøfunda hvørki hneixla oss eda leida í villu; því kunnigri vér verdum þeirra stíl, þess

skilianligri og einfaldari verda oss þeirra rædur, þess meiri velþóknan vinnur ecki alleina sannleikinn siáifur hiá oss, helldur líka sá einfeldnis fagri búníngur, í hvörium hann er innsvepyadur.

Þad er ad framan ávikid, ad þeir heilögu ríthöfundar hellst hlutu ad líta til þeirra fyrstu lesara, og þeirra kríngumstæda, þeir vóru í. Og þegar vér hugum, ad þeir fyrstu Kristinu lifdu so mörgum árhundrudum fyrr enn vér, á ödrum stad, undir ödru stiórnarformi, höfdu adra sidi, venjur og meiníngar, vóru undirkastadir ödrum hættum og freistíngum enn vér; í stuttu máli — giörvallt þeirra útvortis ástand var ö[ld]úngis frábrugdid voru; so gétum vér ecki undrast yfir, þótt margt í N. T. sem þeirra tída manneskium var mieg áríđandi, syniſt oss markliſtid; margt sára hagqvæmt þeim tídum, enn minna vorum. En undrunarverdara er þad, ad þad mesta í N. T. talar til vors hiarta, og uppfyllir so vora andans þerf, eins og þad væri skrifad í giær eingúngis handa oss; og þad kémur þaraf, ad þeir heilögu rithöfundar, upplystir af anda sannleikans, skygndust so lángt inn í mannligs hiarta innstu fylsni, ad vér gétum ecki þeckt oss siálfa eins vel í nockurri eins gamallri bók, sem N. T. Hvísad manneskian verdur alltid manneskia, undir hvöriu himinbellti hún annars lifir; sannleiki verdur ætid sannleiki, hvöda búnadi sem hann annars íklædist; og þær hreinu og himnesku grund-

vallar áſtæður í N. T. munu, ſo leingi ſem jørðin ſtendur, bergmála í mannligri ſamvitſku.

Þegar nú ſá biblíuleſari, ſem eg hér tala við, brúkar eð veruliga innihalld N. T. til mæliſnúðs fyrir trú ſína og lifnað; þá finnſt hønum það áríðandi, að giøra greinamun á því veruliga og óveruliga, á því ſem hellſt viðkom þeim fyrſtu leſurum, og því ſem gyldir fyrir manneſkiur á øllum tíðum og ſtøðum. Til þeſsa þarf ſá hreinſkilni Kriſtinn enga fiølfræði, þegar hann einaſta les N. T. til egin uppbyggíngar. Eg tek til dæmis, eins og áður er ávikið, einn leſara, ſem að auki þeckíngar vorra trúarbragða høfuðlærdóma, veit hið merkiligaſta innlak Kriſtinnsdómsſøgunnar; hann veit þá að hið N. T. er ſkrifað í þann tíma, þá Chriſti kyrkia var nybyriuð; að þeir fyrſtu leſarar, ſem annaðhvert vóru Gyðíngar eða Heiðíngiar, høfðu marga frábrugðna hleypidóma og villur; að þeir fyrſtu Kriſtnu, ſumpart vóru ofſóktir af Gyðíngum og Heiðíngum, ſumpart undirkaſtaðir júdaſinnaðra lærimeiſtara tælíngum; høfðu hættur og freiſtíngar að ſtríða við; hann veit, að Poſtularnir, Jeſú yfirnáttúrligu verkfæri, feingu þvílík fyrirheit af Jeſú, ſem vér ecki gétum eignað oſs, Andans gáfur, ſem vér ecki høfum, líka ſkyldur þær, ſem ecki ūppáliggia oſs. Sá ſem í leſtri N. T. géfur gaum að þeim tíða og perſónu mismun, og — hvað meſt áríður — einaſta leitar ſannleikans til guðhræðſlu, hann gétur viſt ſkyniað, hvað einúngis áhrærði

Postulana, eda þá fyrstu Kristnu, og hitt sem er mæliþrádur fyrir allra Kristinna trú og lifnad. Eptir fylgiandi athugasemdir, géta gagnad til betri skyrslu um ávikid efni.

Í enu N. T. finnast einstök skylduverk, og lysíng kristiligrar gudhrædslu, sem takmarkast verdur og ytarligar ad fastsetiást, so heimfærst géti uppá vorar tídir. Þegar Jesús sagdi til ens ríka únglíngs, sem vildi verda hans lærisveinn (Matth. 19, 21 samanb. Luc. 12, 33): »vilier þú algérdur vera, þá far burt, og sel alt hvad þú átt, og géf þad fátækum". Þa midar þetta til þeirra sérdeilisligu kríngumstæda, sem Kristindómsins fyrstu kénnarar vóru í. Þeir gátu ecki undirkastad sig vfsóknum þeim, sem fylgdu þeirra mikilvæga embætti, án þess þeir uppoffrudu sínum sostu eignum. Ef úngmenni þetta hefdi þá viliad giörast Jesú eiginligur lærisveinn, sem átti ad undirbúast til ad útbreida hans. Evangélium á jördunni (því þad þydir ordid "algiördur" á þessum stad); þá hlaut hann, eins og Pétur og hans stallbrædur giört hofdu, ad yfirgéfa alla hluti og fylgia Jesu. Héraf siáum vér, ad bodord þetta, ad somiklu leyti gétur gylldt á ollum tídum, sem vér ætíd eigum ad meta skyldu og samvitsku meir enn oll tímanlig giædi, og vera reidubúnir ad uppoffra, ecki einasta gótsi voru, helldur einnig, eins og Jesús á ödrum stad ad ordi kémst (Lúc. 14, 26), "lífinu siálfu", þegar einhver sérdeilislig kollun frá Gudi krefst þessa

offurs af oss. J Postulanna Giorníngabók (4, 32) siáum vér, ad hiá þeim fyrstu Kristnu í Jerúsalem var allt sameiginligt, og ad þeir ríku seldu eignir sínar, og létu andvirdid í sameiginliganu siód, af hvorium þeir þúrfandi feingu styrk. Sá inniligi bródurkiærleiki, af hvorium þessi innrétting upprann, hlytur jafnan ad synast oss heidarligur og lærdómsríkur. En eins og þessi eigna sameiginlegi siódur ecki var grundvalladur á Jesú eda Postulanna bodordum, þá getur sérhvor hægliga skyniad, ad hætt var vid, ad han yrdi misbrúkadur, þá Christi kyrkia vard fiølmennari; hann vard því ad upphefiast þegar stundir lidu framm, eins og sú kiærleiks-samnautn, ad hvorrar misbrúkun allareidu Páll finnur (1Cor. 11, 17 f.). A samkomu Postulanna og enna fyrstu Kristnu (Jerúsalem var ályktad (Post. G. 15, 1 f.) ad þeir kristnudu heidíngiar ad vísu fríast ættu frá umskurninni, og hinum ødrum álagafullu Mósis sidareglum, en þarámóti fordast' ecki alleina afguda offranir og hórdóm (þad seinna heyrdi til einskonar heidíngligrar afgudadyrkunar, og var yfirhøfud almenniligt medal heidíngia, so þad næritum var álitid ósaknæmt) heldur lika blód og þad sem kafnad var. Enn þegar bædi Jesus og hans Postular á ødrum stødum segia, alla fædu leifiliga, þá skynium vér hægliga, ad þessar fyrirskipaniir ahrærandi blód og kafnad, einasta vóru utgéfnar (eins og postullig áqvardan í lióst lætur Post. G. 15, 21) so ad-

þeir frá Gyðíngum umvendtu Kristnu, sem enn þá héldu þvílíka siðu óleisiliga, ecki steittu sig á því. Oss viðvíkur þessvegna ei þetta forboð; en, það almenniliga kjærleikans lögmál, á hvöriu það var bygt, er sannarliga ætíð gyldt, nefnil.: að vér með varkárni skulum brúka vort kristiliga frjálsræði, og hellður afneita sak-lausri ánægiu, enn olla vorum veikari bróður hneixlis; — hvört lögmá' á voru léttúdiga tíma-bili nærstum synist vera gleimt, og sem Páll þó so skorinordt í bréfum sínum til Rómveria og Corinthuborgarmanna innrætir (Róm. 13 kap. f. 1 Cor. 8, 1 f.). Eins var' sú siðsemdar fyrir-skrift stíluð til þeirra tída, sem Páll gaf Corinthu söfnudi (1 Cor. 11, 1—16): að konur komi ecki berhöfdaðar í þær kristnu samkundur. Það var haldið hneixanligt meðal grikkia og austurlendínga, að nockur skickanlig kona leti sig siá, án þess að hafa skylu fyrir andliti. En þareð álit um útvortis siðsemi alltaf umbreytist eptir loptslagi tíðnm og sið-veniu; so liggur þarí einúngis sú forsiálnis regla fyrir oss, að vér í því miður áríðandi, réttum oss eptir almennings áliti um það sómasamliga, sem þessir Corinthumenn ecki giörðu, af laungun eptir að syna sitt kristiliga friálsræði. Yfirhöfuð lærum vér af þessum smá atvíkum að dást að Postulanna vísu huggvæmni og árvökru umhyggiu fyrir sóma þeirra kristna safnaða. Í þeirri for-svarsrædu sem Jesús hellt á móti Phariseunum,

þegar þeir báru uppá hann, ad hann stædi í sambandi vid Diefulinn, kémst hann medal annars þannin ad ordum (Matth. 12, 31 32): "synd mót heilögum anda gétur ecki fyrirgéfist manneskiunni hvorki í þessu lifi eda því komandi"; þessi stadur hefir sialft marga veiklinnada so, ad þeir óttudust, sem hefdu þeir syndgad mót heilögum anda, og þessvegna væri þeim eingin nádar von hiá Gudi. Enn samanheingid sýnir, ad Jesús med synd móti heilögum Anda meinar þvílíka synd, sem hans samtídarmenn drygdu, í því þeir, sem siónarvottar hans kraptaverka, tileignudu Diefulsins krapti þessa yfirnáttúrligu giorninga, sem báru so áþreifanlig kénnimerki Guds almættis; ad sannfæra og betra þvílíka, var ómeguligt. Enn þessi ord séu oss til vidvorunar, so vér ecki forherdum vor hiörtu móti vidurkéndum sannleika; enn þau eiga ecki ad uppvekia óþarfa skélfíngu hiá nockrum þeim sem ydrast synda sinna (sem Pharisæarnir ecki vildu giora). Á mörgum stödum í enu N. T. er talad um þá vanvirdu, þrautir, og offókn, sem ecki einungis Postularnir, helldur líka allir Jesú nafns sonnu játendur, urdu og verda ad lída; "þér munud", sagdi Jesús til Postulanna (Matth. 10, 22), "verda hatadir af öllum monnum fyrir míns nafns sakir". "Allir þeir, sem gudliga lifa í Christo Jesú", segir Páll (2 Tím. 3, 12), "þeir hlióta offókn ad lída". "Oss byriar fyrir miklar hrellíngar inn ad gánga

í Guds ríki" (Post. G. 14, 22). Þessir og þvílíkir stadir géta ad vísu í mørgu tilliti heimfærst til allra tída. Enn þá eru vísdómsins synir undirkastadir hædni dáranna; og sannleikans diørfúngarfullu talsmenn hatri enna íllu; enn þá er óvinátta milli lióssins og myrkursins, milli Krists og Belíals; enn þá er þad port miótt, og vegur sá þraungur, sem leidir til lífsins; og ætíd færast sønnur á þad sem Páll sagdi (Gal. 5, 24): "ad þeir, sem vilia heyra Christó til, verda ad krossfesta sitt holld med þess gyrndum og tilhneigíngum". Enn samt skynium vér hægliga, ad þá Christi kyrkia í byriuninni var umkringd af einberum fiandmønnum, sem képptust hvør vid annann um ad eydileggia hana í fædíngunni, þá var hún ecki einúngis svipt allri mannligri hiálp, helldur var hún undirkøstud øllum svíkræda og ofríkis umsátrum og átti vid annad ad strída, enn á vorum døgum og í vorum løndum, hvar Kristindómurinn er sú drotnandi trú, sem yfirvøldin vernda, og ad þessvegna þær mestu þreingíngar, sem í N. T. segiast ad vera samfara enni kristnu trú, verda ad skiliast um þær ofsóknir, sem vorir fyrstu kristnu brædur vóru undirkastadir. Dárligt væri þad þessvegna ef menn vildu olla sér verdskulladrar óvildar, med hardhnióstru og slæmu sinnislagi, og sídann hugga sig vid þau bibliunnar ord, ad allir Jesú játendur hlióti ofsóknir ad lída. Enn verdi þad vort hlut-

fall ad líða fyrir Guds og sannleikans sakir, þá látum oss ecki síður enn vora fyrstu brædur í Christó, þola það sem ad höndum ber, med diørf-úngarfullu stødúglyndi, og leita huggunar í því Jesú fyrirheiti (Matth. 5, 12): „ad vor laun verda mikil á himnum".

Eins og vér af þessum tilfærdu dæmum höf-um séd, ad jafnvel þau bibliunnar skýldu-bod-ord, sem einúngis ad nockru leiti og med nákvæm-ari talmerkun, géta heimfærst uppá oss, þau innis halda þó þær hreinu og ypparligu grundvallar-ástædur, sem kristnir á øllum tídum eiga eptir ad lifa; og ad það þessvegna er bókstafurinn enn ecki andinn, sem er umbreytíngum undirkast-adur: eins er því háttad med margar vidvar-anir móti villudómum þeim sem heyrdu Postul-anna tímum til, en ecki vorum. Sérhvørt tímabil hefir sinn brest; og allrahelst hlaut Jesús og Post-ularnir ad vara vid þeim hleypidómum og løstum, sem drotnudu á þeirra tidum. En þegar þeir setia sig einmidt á móti samtídarinnar þáraslap, so í raun réttri mótstrída þeir allra tída villu. Því eckert nytt sér undir sólunni segir Salómon (Predik 1, 9). Mannligar yfirsiónir siást ad vísu á ymsum tídum, í ymsum mindum; enn upp-spretta þeirra er hin sama hiá øllum, nefniligas sansaligleikinn. So mismunandi, ednr réttara sagt, so mótstrídandi Postulanna tímabils hiátrú, og vorra tída vantrú, synist ad vera, so líkiast

þær þó hver annari og eru komnar af sameiginligri uppsprettu. Þessvegna mun þeim lesara, sem í flýtir les hið N. T. og híngað og þángað finnur aðrar minðir mannligrar forðjerfunar enn hann er vanur að siá, opt finnast að hann sé í framandi landi, hvar ecKért géti hønum að gagni komið eður til notkunar prðið; en grandgiæfi hann þetta nákvæmar, so gétur hann speiglað sig í þeim annarligu villudóma og dáraskapar mindum, og gaumgiæft þá sannleikans raustu, sem finnur að þeim.

Ecki væntum vér leingur eptir jarðneskum Messias, í þeirri þýðíngu, sem Jesú aldar menn væntu hans; en er þó ecki eins almenniligt hiá oss, eins og þeim, það jarðneska sinnislag, sú drambsemi, hégómadýrð og drotnunarsýki, hvaðan þessar sansaligu eptirvæntíngar uppsprettu? og þessvegna géta þær dýrmætu Jesú ræður, með hverium hann leitast við að ávinna hiertu sinna tilheyrenda, til að aðhyllast það æðra ríki, sem hann var kominn til að stipta, þær géta eins vel átt við oss eins og þá. Ecki erum vér að vísu so fúsir á, eins og Pharisæarnir, að sakfella einn fyrir vanhelgun hvíldardagsins, þótt hann lækn-aði siúka á þeim degi. Enn sú hræsni, sem var orðsök til þessarar ákløgunar, lætur sig en þá í liósi, þótt í annari líkíngu; og þorfnumst vér þá ecki enn nú, þeirrar upplýsíngar, Jesús við það tækifæri gaf um hvíldardagsins áqværðun? Sé

hiátrú, sem leiddi Jesú ofundarmenn til að áklaga hann fyrir að hann stæði í sameiníngu við Diofulinn, edur réttara sagt, sem þeir nyttu sér af, til að giøra sín illyrði gyld í almúgans augum, hún er að víſu að mestuleiti útdauð. En það illgiarna sinnislag, sem leiðir mannesliuna til að sverta mannorð síns náúnga, það er, því verr og miður, ekki útdautt; vér gétum þessvegna ekki án sannrar uppbyggíngar lesið þá sniøllu ræðu, sem þessi niðran Jesú heiðurs gaf tilefni til. Vér lifum ekki lengur, eins og enir kristnu í Corinthuborg, meðal heiðíngia, sem bióða oss tilsinna offeurmáltíða; og þessvegna synast máské sumum lesurum þær aðvaranir óþarfligar, sem Páll gèfur þaraámóti (1 Cor. 8, 1 f.). Enn hvað tydkast meir enn nú, enn misbrúkun kristiligs friálsræðis þeim veikari bróður til ásteytíngar? og hve æskiligt væri það þá ekki, að þær dyrmætu grundvallaráſtæður, sem Postulinn við þetta tækifæri framsetur, hugfestust af vorra tíða Kristnum! Því hvør hefir óveilnara enn hann takmarkað brúkun og misbrúkun þess friálsræðis, sem vor helgu trúarbrøgð veita oss? Hvør hefir talað betur um, hvaða tillit sá betur upplysti Kristinn, líka í saklausri ánægiu, á að hafa til síns veikara bróðurs; um hégómleik þess lærdóms, sem ekki er sameinaður kiærleikanum; hvør hefir betur giørt allt þetta enn Páll í sínu 1ta bréfi til Corinthumanna? og þótt vér ekki høfum þann hleypidóm eins og þeir fyrstu

kristnudu Gydíngar í Róm, ad vér tokum vara á þeim mósaítisku helgidøgum, eda veigrum oss vid ad neyta sumslags fædu; eingu ad sídur þørfnumst vér sára mjøg þeirrar áminníngar, sem Páll brýnir fyrir þessum Kristnu (Róm. 14 og 15 kapp), ad vér, hve mismunandi annars vorar meiníngar kynnu vera, ættum þó, eins og kristiligir brædur, ad umlída hvor annann, og sá styrkvari ecki forsmá þann breiskari, og ecki sá breiski fordæma þann styrkva. Fyrir laungu erum vér varnir frá þeirri hjátrúarfullu. fastheldni vid umskurnina, og hinar adrar Mósis tilskipanir sem tilheyrdu heimsins barndóms aldri, ad hverju Páll, einkum í sendibréfi sínu til Galatas, so skørinordt finnur, en lángt erum vér frá því, ad hafa ad fullu nád, eins og vér getum og eigum, því sanna kristiliga friálsrædi, sem í nefndu bréfi (5, 13. f.) mótsetst þeim gydíngaliga þrældómi, nád þeirri inniligu ávaxtarsømu trú á hann, sem frelsadi oss, sem Postulinn hér so fagurt fráskýrir. Sá falski heilagleiki, finnst ecki hiá mørgum á vorum døgum, hvørn Páll optar lastar hiá sumum dárum á hans døgum, sem sýndist Jesú sídalærdómur oflinur, og villdu giøra sig englum líka med sífelldri føstu, med ad fordast hiónaband, og pína líkama sinn um of; enn þessir hleipidómar gefa honum annars tækifæri til, náqvæmar ad áqvarda þann sanna heilagleika, eptir hvørium vér allir keppast eigum (t. d.

Coloss. 2, 18. 1 Tím. 4, 1 f.). Í Gydínga heila-brot um englanna eðli og flokka, við hverju sami Postuli í sendibréfunum til Tímótheum (1 Tím. 1, 4) og Títum, so opt varar, er oss ecki so hætt við, að flækia oss; en í því hann lastar þessar Gydínganna skrøksøgur og ónytiu spurníngar, sem einúngis ollu þrætu. feck Post-ulinn tilefni til með sínum síðvanaliga krøptugu orða-tiltækium að benda oss til, hvað það veruliga sé í vorum heiløgu trúarbrøgðum (1 Tím. 1, 5). Í stúttu máli: þegar vér einasta lesum hið N. T. með því athygli og eptirþánka, sem Jesú og hans Postula orðum hæfir; þá munum vér ecki einasta þar, hvar þeir einmidt tala til vor, helldur hvar þeirra ræður synast miða til annara, finna frióssamt efni oss til lærdóms, huggunar og við-vörunar.

Með líkri gaumgiæfni, mun sá ólærdi lesari hins N. T. hægliga géta skiniað, hvað einúngis viðvék Jesú Postulum, og hvað heimfærast á til allra Kristinna yfirhøfuð. Vér vitum allir að Postularnir vóru yfirordulig verkfæri í Guðs hendi, með hverra styrk sú bygging fullkomnast átti, hverrar grundvøll Jesús hafði lagt; það Guðsríki að útbreiðast, sem hann hafði stiptað; þeir vóru þessvegna, og urðu að vera undir Guðdómsins sérdeilisligu stiórn og varatekt. Sá sem minnist þessa, gétur hægliga þeckt það í Jesú ræðum, er einasta áhrærði þá sem heimsins vænt-

anligu kénnara. Þeim var fyrirheitin (Jóh. 14 og 16 kapp) œdri adstod af Drottins anda; þeim var lofad, ad allt hvad þeir bædu födurinn um í hans nafni, a: í hanserindagiørdum, þad skyldi þeim veitast; þeir áttu í œdri meiníngu ad vera jardarinnar sallt, og. lifs heimsins; sá myndugleiki var þeim unntur (Jóh. 20, 23), ad hvørium þeir fyrirgáfu syndirnar, þeim vóru þær fyrirgéfnar af Gudi. Eins og þeirra embætti var yfirvrduligt, so hlutu þeirra gáfur líka ad vera þad: og, ef þeir vissu fyrirfram: "ad sú tíd skyldi koma, þá allir þeir, sem ihelslóu þá, meintu sig ad giøra Gudi þægt verk, þá hlutu þeir ad útbúast sérdeilisligum krapti af hædum, til ad gánga þessum hættum á móti. So sem þad þessvegna væri dárasfapur, ef einhvør eignadi sér þau fyrirheit sem einasta vóru géfin Postulunum; eins væri þad drambsemi, ad vilia tiltrúa sér þær gáfur, sem þessara orsaka vegna einúngis Postulunum veittust. Einasta þeir vóru í standi til, í Jesú nafni, ad giøra þá sömu giørnínga, sem hann giørt hafdi, jál eins og hann siálfur sagdi (Jóh. 14, 12) (í tilliti til afleidínganna) enn þá stærri — ad fyrirsegia ókomna hluti (Jóh. 16, 13) ad tala nyum túngum (Marc. 16, 17. 18) já, einnin (Post. G. 8, 18) med handa álegging ad meddeila ødrum þessar yfirordsligu gáfur; einasta Postulanna tímabili heyrdu þessar kraptaverka gáfur til, þá Kristinn dómurinn átti ad innfærast í heiminn, og stad

festast sem Drottins verk; en á eptirkomandi olldum urdu þær ad hætta, þared þeirra giørdist ecki þørf.

En þannin er yfirhøfud því yfirnáttúrliga varid, sem finnst í heilagri ritníngu, margir hafa látid á sér skilia ótta fyrir, ad þær frásagnir, sem fyrirkoma í enu N. T. um markverda drauma, engla opinberun, og adrar yfirordúligar siónir, um fyrirsagnir þess tilkomanda, og um so mørg undrunarverd tilfelli og giørníngo, muni hiá þeim midur upplysta olla hiátrúar, so þeir enn þá festi trú á draumum, vænti enn þá sióna og opinberana, enn þá halldi ad sumar manneskiur géti fyrirsagt hvad fyrir oss eigi ad liggia, géti á yfirnáttúrligann hátt læknad manneskiur og dyr, o. s. fr.; og hvor vill neita, ad vanvitska og siálfsþótti hafi misbrúkad bibliuna til ad næra sérvillings hleypidóma og hiátrú? enn eckért er so órettvíst, sem ad kénna þeirri heilogu ritníngu um þad. Þad væri einhvør sú stærsta óvidurqvæmni, ef nockur vildi bera þad uppá Jesúm og hans Postula, ad þeir væru hiátrúar-kénnendur; þeir, sem hafa niderbrotid myrkranna ríki á jørdu, sem kollkastad hafa afguda ølturum í ollum þeim løndum, til hvørra Jesú ríki er útbreidt; sem hafa frelsad oss frá því hiátrúarfulla þrældóms oki, med hvøriu fordum Gydíngum og Heidíngium var ofþiakad; sem hafa kénnt oss ad tilbidia Gud í anda og sannleika. Vilii madur einasta lesa

Postulanna Giorníngabók, þá gétur madur séd allstadar (Post G. 8, 9. 16, 16. 17, 16. 19, 13 og framv.) ad þar sem Jesú Evangélium útbreyddi sína velgiördarsku geisla, þadan viku galldralistir, spásagnir og særíngar; mikill bóka fiøldi var uppbrendur á biørtu báli, í hvørium kúkl var útlistad, í stuttu máli: hiátrúar boka vék fyrir sannleikans lióssi. Og hvørnin gat þá þetta eldgamla mytkranna ríki, sem var so rótfest í erfdum hleypidómum og siddenium, so voldugliga verndad af drotnum jardarinnar, og hvøriu forntídar spekíngar þessvegna ecki gátu hnekt, hvørnin gat þad af so breiskum verkfærum, eins og Jesú Postular vóru, þannin truflast og giør eydilagst; hvørnin gátu Jesú trúarbrøgd, sem eingri útvortis vidhøfn vóru skreitt, og so skorinordt fundu ad lostum manneskiunna, uppteksist á so rammspilltu tímabili af þeim þiódum, sem vóru vanar vid skrantlig hátídahøld og sidareglur; já, yfirhøfud, hvørnin gat þad skéd, ad trúin á Jesúm, eptir guddómsins velgiördarska tilgángi, stadfestist á jørdunni, og sameinadi søfnud enna trúudu: ef þeir, sem fyrst bodudu vor trúarbrøgd ecki hefdu verid útbúnir med yfirordsligum gáfum, sem guddómsins sendibodar? Nei! Kristindómsins innleidsla í heiminn, sem var eins og ny skøpun, vard ad sameinast þvílíkum atburdum, sem vitnudu um Guds heiløgu nærveru, uppvoktu lotníngu og gripu ómótstædiliga hid mannliga hiarta.

Enn hafi nu Guð í tímans fyllíngu opinberað sig fyrir heiminum í sínum syni, einúngis til að bæta úr vorum breiskleika, og til að styrkia trúna hiá þeirri sansaligu mannesskiu um það eilífa líf; væri það þá ecki stærsta fásinna, ef einhvörr eignaði sér siálfum eða öðrum þvílíkar gásur, sem Jesús og hans Postular vóru útbúnir með? Í öllum vorum andligu nauðsynium, er Kristinndómurinn, hvörn guddómligur kraptur hefir staðfest, ofs fullnógur. Og þótt Guð, í þeim mikilvæga tilgángi, nefniliga mannkynsins frelsi fyrir Kristum, findi það nauðsynligt að opinbera sig í yfirorðuligum atburðum; ættum vér þarfyrir að vænta, að þessir atburðir verði itrekaðir, vegna vorra litilfiörligu jarðneska nauðsynia? þótt t. d. Jóseph af Nazareth, væri í draumi varaður af Guði við þeirri hættu, sem barnið Jesús, heimsins komandi Frelsari var staddur í, höfum vér þar fyrir rétt til að vænta guddómligrar aðvörunar í draumum? eða þareð Jesú Postular, samqvæmt hans fyrirheiti gátu fyrirsagt óorðna hluti, gátu í hans nafni læknað siúka; væri það þá ecki óhæfilig drambsemi ef einhvör tilltyði sér þvílíkar gásur? Vantrú er sú eginliga uppspretta þvílíkrar hiátrúar. Því þegar vér trúum á Jesúm eins og Guðs son, og álítum Postulana eins og hans yfirorðuligu vitni, hvörnin gétum vér þá metið nockurn annann jafnt þeim? og ef vér trúum Guðs orði, hvörnin gétum vér

þá misbrúkað það, þvertámóti þess aðvarunum? Þegar Pharisæarnir æsktu annars teikns af Jesú (Matth. 12, 38—45), enn þeirra sem hann áður giört hafði fyrir þeirra augum, so gaf hann þeim verðskuldaða ávítan fyrir það; og ættum vér enn þá að vænta annara tákna enn hans og Postulanna, og þanninn freista Drottins? "nema þér siáið tákn og stórmerki, trúið þér ecki", sagði Jesús við sína landsmenn, (Jóh. 4, 48); og ættum vér enn þá að giöra oss sekaí þessari jarðteikna sýsn? "sú gáfa, að tala annarligum túngum", segir Páll (1 Cor. 14, 22), "er til teikns, ei þeim sem trúa, helldur þeim vantrúuðu". Sá trúaði Kristinn væntir þessvegna ecki nyrra jarðteikna, helldur stólar uppá það Guðs orð, sem einusinni er staðfest. Og þegar sami Postuli segir á öðrum stað (Eph. 4, 11), að Jesús hafi sett þessa yfirorðuligu lærifeður, þángað til hans líkami, hans kyrkia, náð hafði sínum þroska, og fullorðins aldri; þá bendir hann til þess, að þau krapta verk sem Jesú fyrstu vitni fremdu, einkum tilkomu Kristindómsins æskualdri, til að vekia sansaligar manneskiur til að gaumgiæfa Jesú guðdómliga lærdóm. Enn þetta yfirnáttúrliga, sem er samfara Kristindómsins innleiðslu í heiminn, getum vér ennþá fært oss í nyt til eflíngar trú vorri, hverrar eflíngar jafnvel sá upplystasti so opt þarfnast í lífsins stormum; enn aldrei skulum vér í því leita eptir næríngu fyrir hiátrúna; ecki

helldur álýta kraptaverkin sem adalatridid. Nei, adalatridid og kiarni hins N. T. er sannleiki til gudhrædslu, þad eylifa lífsins ord, sem geymt er í því; og þess meir vèr af hiarta elskum og metum þad, því fremur byggium vèr vora sannfæríngu um Jesú lærdóms guddómligleika, á hans eigin innvortis gyldi; því, „ef sá er nockur, sem giøra vill Guds vilia", segir Jesús (Joh. 7, 17), "hann skal komast ad raun um, hvort þessi lærdómur sé af Gudi, eda eg tali af siálfum mér".

Enn adalorsøkinn, hvørsvegna N. T. lestur er sérhvørium hreinskilnum Kristinum til so stórrar uppbyggíngar, er, eins og ádur finnst ávikid, þau mørgu dyrmætu eptirdæmi uppá trú og dygd, sem þar eru fyrir siónir sett. Enn hér verdum vèr ad leggia merki til þeirra mismunandi tída og kríngumstæda. Auk þess nyávikna yfirnáttúrliga, sem fylgdi embætti Jesú og hans Postula, fyrirkèmur margt í framferdi enna helgu manna, sem ecki hæfir oss, og hvar ecki þeirra fyrirtæki, helldur þeirra hugarfar er oss sett til eptirdæmis. Þegar Jóhannes skyrari, til framqvæmdar síns sérdeilisliga embættis, afneitadi øllum mannligum gladværdum, og frivilliugliga valdi ørbyrgdarfullan lífernis hátt (Matth. 3, 1—4); þá gétur þetta hreinskilna siálfsafneitunar munstur, kènnt oss ad vera ánægdum, og þad, í ørdugustu kríngumstædum. Enn ad þad frábreytta í Jóhannis hegdan, ecki sé regla fyrir adra, án Guds sér-

deilisligu kollunar, gétum vér séð af því, að Jesús ecki forðadist samfélags glaðværðir. Þegar Páll, af sérdeilis orsök, eins og hann siálfur segir (1 Cor. 9, 1—27) þáði ecki laun af søfnuðunum, er hann þó með réttu mátti, sem þeirra kénnari; so gátu ecki einusinni þeir aðrir Postular, í því breytt eptir hønum, þar þeir sumpart høfðu á hendi skildmeyna framfæri. Sem eðallunduð siálfsafneitan til fremunar Guðs ríki á jørðu, skyn ætið fagurt þetta Páls dæmi; enn hvørt, og að hve miklu leyti vér, eins og hann, megum neita þeim rétti, sem løg heimila oss, til að efla ærðri tilgáng, án þess vér yfirtroðum æðri skyldur, það verður vort kall, kríngumstæður og efni að segia sérhvørium af oss. Það heyrði til þeirra sérdeilisliga kalli, að þeir geingu børga á milli, til að útbreiða Jesú Evangélium; enn það væri dáraskapur, ef einhvør vildi apa það eptir þeim, í þeim løndum, hvar kristiligir kénnendur eru tilskipaðir; en sú hugdiørfúng í hættum, það støðuglyndi í þrautunum, það foragt fyrir dauðanum, sem Postularnir í liósi létu í uppfyllíngu síns mikilvæga embættis, það er munstur fyrir alla menn á øllum tíðum. Enn þá eru þessir heilogu menn jarðarinnar salt; þeirra hegðan er þeigiandi vottur móti spilltum og dofnum tíðsaldri: þeirra dæmi þénar þeim hreinskilnu í landinu til að tendra enn heilaga kiærleiks elld, so hann ecki af vantrúarinnar kulda útslokkvist. Það

var Postulanna skylda, í kráss öllum Gydínga og heidíngligrar valdstiórnar höfunum (Post G. 4, 18) eptir Jesú skipan að útbreida Jesú lærdóm; og ef enn þá einhvörr, hár eda lágur, skipar oss þad, sem vér med vísu vitum, ad stríðir móti Guds ordi, þá er án efa Postulanna breitni munstur fyrir oss; enn til þess þarf varkárni og lempni, ad vér ecki undir því yfirskini, „ad vér framar eigum ad hlýda Gudi enn mönnum" séum yfirvaldinu óhlýdnir, í því sem þeir hafa rétt til ad bióda. Þessvegna ef einhvörr setur sig á móti skipunum ens kristiliga yfirvalds, þegar þad ecki skér til ad umbreita Jesú lærdómi, því þad er sá helgidómur, sem eckert kristiligt yfirvald hnecker, helldur til ad prída þá opinberu gudsdyrkun, med uppbyggiligum sálmum; þá væri þad misbrúkun Postulanna eptirdæmis, og orsakadist annadhvört af eptirþánkaleysi eda drambsemi. Yfirhöfud hefir hvörki Jesús eda hans Postular fyrirskipad nockud, í tilliti til útvortis kyrkiusida, er vera kynni gylld regla á öllum öldum; einúngis hefir Jesús innstiptad skyrnina og qvöldmáltídina. Þær adrar reglugiördir vid Guds útvortis dyrkun, hefir hann lagt enum kristnu sefnudum í siálfs vald; eins og vér getum hægliga skyniad, ad mikid af því, sem átti vel vid Postulanna tímabil, getur ecki þarfyrir átt vel vid þær aldir, þá Jesú kyrkia var útbreidd ordin, og þær yfirordanligu andans gáfur vóru hættar.

Yfirhöfuð megum vér ecki heldur gleima, að einginn af Postulunum eða þeim heilögu mönnum, sem biblían umtalar, utan Jesús var aldeilis syndlaus. Þeirra eptirdæmi gétur þessvegna ecki haft lagakrapt fyrir oss, nema að so miklu leyti sem það er samqvæmt Jesú og hans Postula skyslausu boðorðum. Þar sem þeir heilögu rithöfundar annaðhvört hrósa eða álasa þeirri breitni, sem þeir frásskyra, þar gétum vér ecki tekið feil; enn stundum dæma þeir eckert um það; og þá verður lesarans skynbragð, að skéra ur málum, hvört verk það, sem umtalað var, er eptirbreitnis verdt, eða ecki. Þannin frásskyrir Lúcas (Post. G. 23, 1—3) að, þegar Páll stóð frammi fyrir ráði Gyðinga í Jerúsalem, og tók að forsvara sig, og kénnimannahöfðínginn Ananías skipaði þeim sem stóðu hjá að ljósta hann á munn; þá hafi Postulinn komist so að orði: «Guð mun slá þig, þú kalkaði veggur; þú situr hér til að dæma mig eptir lögmálinu, og þverámóti lögmálinu býður þú að slá mig". Lúcas ségir einasta frá þessu, án þess að fella sinn dóm yfir það. En ef vér samanberum þessi orð, við það, sem Jesús við annað tækifæri sagði (Jóh. 18, 19—23), þá verðum vér að viðurkénna, að sá nafnfrægi Postuli í það skipti hljóp á sig; eins og séft gétur af því, sem á eptir fylgir *), að hann strax kannaðist við

*) Post. G. 23, 4. 5. Þegar Postulinn ségir, að hann visfi ecki að Ananías var kénni-

ávyrdíng sína. Þvílíkir smáblettir í framferdi þeirra helgu manna, eiga ad minna oss á, ad þeir vóru manneskiur, og sannfæra oss um hreinskilni þeirra heilögu rithöfunda, sem ecki draga dulur á ávirdíngar þeirra manna sem þeir annars afmála so fagurt.

Eptir þessar almenniligu skýríngargreinir yfir það heila N. T. skulum vér byria á þess einstöku deildum, og í stuttu máli fráskýra innihalldi sérhvorrar bókar, og bæta einstaka athugasemdum vid hvoria fyrir sig.

---

## Þau 4 Evangélia.

Ordid Evangélium brúkast hér um Jesú lífssögu; annars þýdir það gledilígann bodskap, og í N. T. stundum bodan Messiæ komu til heimsins, stundum Jesú kénníngar, bædi hans bodord og fyrirheit. Þó gétum vér ecki vænt, ad

---

mannahöfdíngi; þá er líkligt ad hann hafi meint med því, ad hann hefdi gleimt ad það væri kénnimannahöfdínginn, sem skipadi ad fara so illa med hann, í því vétfángi hann so óréttvisliga var medhöndladur. Líka gat það skéd, ad Páll, sem so lengi hafdi verid fiærverandi frá Jerúsalem, hafi ecki vitad hvor þá var ordinn kénnimannahöfdíngi, og það því helldur, sem þetta embætti var so opt tekid frá einum, og géfid ödrum á þeim so óróasamu tídum.

finna samanhángandi frásögn um Jesú líf og lifnad hiá nockrum af þeim 4 gudspiallamönnum. Einasta géta Matthæus og Lúcas Jesús fædíngar og hans æsku; alleina Lúcas gétur einstöku atvika í Jesú úngdæmi (Lúc. 2, 42 f.). Allir 4 gudspiallamenn skrifa frá Jesú lifferni medal lýdsins, hans rædum, giörníngum og forlögum; af gudspiallamannanna stuttu frásögnum má ráda, ad þeir ecki segia frá öllu sem Jesús opinberliga taladi og giördi. Sérhvör gudspiallamadur hefir einasta gétid þess, sem hann áleit merkiligast fyrir þá, handa hvörium hann sérílagi ritadi sitt Evangélium.

Þá vér samanberum þau 4 Evangélia, má þad ei undra oss, þótt þeir ástundum synist ad mismuna sín ímillum. Í höfudefninu ber þeim öllum saman; og mismunurinn er ecki eiginlig mótsögn heldur mismunandi frásagnarmáti.

Einn setur þann atburd fyrr, er annar frá-skrifir seinna; því ei var þad ásetníngur þeirra, ad skrifa dagbók; og því nidurrada þeir ecki atburdunum eptir því sem þeir skédu, heldur eptir því sem þeir líktust ad innihaldi. Einn safnar t. d. ymsum Jesú rædum, vegna líks innihalds, á einn stad (Lúc. 2, 42 f.), annar rádar þeim eptir tídinni þá þær vóru fluttar. Einnin mismuna frásagnir þeirra margopt í tilliti til hve greiniliga hvör þeirra segir frá sama hlut, án þess þó ad þá greini á. Einn færir í letur meira, annar minna af einni edur annari rædu, er Jesús héldt: einn

gétur um fleiri edur önnur atvik vid einn atburd, enn annar; á þá lund sýnist Matthæus ritad hafa giörvalla Jesú fiallpredikun (Matth. 5 og 7 kapp.) en Lúcas þaráméti nockurn hluta hennar (Lúc. 6, 20 f.) *). Jesú freystíngarsaga er af Matthæus og Lúcas náqvæmar frásǩírd, en Marcus víkur ad eins á hana (Marc. 1, 13). Um Jesú sídústu innreid til Jerúsalem er ödruvísi ordum farid hiá Jóhannes (Jóh. 12, 12 19) enn hiá hinum gudspiallamönnunum; um innreidina siálfa er hann fáordur, enn hann gétur þarámóti orsakarinnar, sem giördi fólkid uppvægt, nl. Lazarus vakist upp frá daudum, hvoriu hinir hafa sleppt. Einn þeirra e: kunnugri einum atburdi enn annar og segir því ástundum skilmerkiligar frá, enn annar, (því stiórn Herrans anda vardveitti þá frá villu í lærdóminum, en giördi þá ecki alvitra). Eptir sem Matthæus segir frá, þókti lærisveinunum fyrir vid qvinnuna, er smurdi Jesúm (26, 6—13). Jóhannes gétur þess greiniligar, þá hann á medal lærisveinanna tilgreinir Júdas Iskarioth (12, 1—8). Judas hefir þá byriad, og hinir adrir, er ecki vissu hans vonda tilgáng urdu hönum samdóma. Lúcas (18, 35) og Marcus (10, 46—52)

*) rædan hiá Lúcas er ei hin sama sem hiá Matthæus, heldur önnur lík ræda sem Jesús hefir haldid ödrusinni, nockud frábreitt í tilliti til ordanna og innihalds, sem og so sýnist líklegra.

skíra frá, að Jesús læknaði blindann mann hiá Jerichó, er að Marcúsar sögn hét Bartimæus. Matthæus vissi, sem siónarvottur, að Jesús hér gaf tveimur blindum siónina, og gat betur fastsett tíðina og staðin nær og hvar það skédi (20,29—34). Það er ónauðsynligt að koma með fleiri dæmi, því þeim ödrum mismun er eins varið sem þessum.

Þessi mismunur í frásagnarmátanum, sem einasta ósanngiarn lesari getur kallað mótsögn, þénar til efla vora sannfærsngu um guðspiallamannanna trúverdugleika. Hefðu þeir allir sagt oss alt með sömu orðum og í sömu röð, hvörnin giætum vér álitið þá að vera fióra aðskilda höfunda? giætum vér þá ecki trúað, að þeir hefðu borið sig saman hvör við annan? Nú vitum vér, að vér höfum fiögur, hvör ödrum óviðkomandi vitni, sem í höfudefninu ber vídúngis saman. Á sama hátt hafa þeir allir umtalað þá markverdu atburdi, hvará vor trú byggist, nl. Jésú pínu, dauda, greptran og upprisu; og þegar frásagnir þeirra um Jesú upprisu mismuna í tilliti til midar árfðandi kríngumstæda þá géfur það oss vissu um sérhvörs vidqvæmu hreinskilni, sem einasta segir frá því, hvarum hann var fullvissadur.

Þegar vér yfirhöfuð, framar lítum til anda ans í guðspiallamannanna frásögn, enn til bókstaffsins og orðanna (sem vér megum giöra, þegar vér vilium uppbyggiast af Ritníngunni), þá verdum

vér varir undrunarverdrar samhliódunar milli þeirra 4 höfunda Jesú lífssögu, sem er hid bersta skilríki fyrir þeirra trúverdugleika. Sérhvør þeirra hefir nockud, sem hinir ei hafa. Einkum hefir Lúkas getid margra, og Jóhannes ennú fleiri frábrugdinna skírteina (Jesú rædum og giorníngum. Hiá eingum þeirra verdum vér varir vid nockud sem var Jesú hátignarligu persónu óverdugt. Øll ord og verk sem þeir tileinka Jesú, láta í liósi sømu hreinskilni í lærdómi og grundvallaráslædum, sama ómeingada heilagleika í lífnadi. Hefdu þeir nú siálfir uppfundid þad þeir hafa skrifad, hvørnin var þad møguligt, ad so lítt uppfræddir menn, sem gudspiallamennirnir, giætu framsett so lýtalaust málverk ennar fullkomnustu dygdar og heilagleika, er ecki á sinn maka í søgnafrædinni? eda, ef einhvørr þeirra hefdi ausid af óhreinni uppsprettu, hvørnin gat þad skéd, ad af þeim mørgu frábrugdnu mindum sem sérhvørr þeirra prýdir málverkid med, giæti so fullkamid heilt framkomid, sem vér dáumst ad í Jesú lífnadi? Efad þær ymisligu rædur, sem Jóhannes og hinir 3 gudspiallamenn tileinka Jesú, væru falsadar, hvørnin gátu so einfaldir menn framsett þær, eda hvadan gátu þeir, á so villugiørnu og spilltu tímabili, tekid sinn hreina lærdóm og ágiætu grundvallaráslædur, sem so lángt bera af øllu því, er fyrri tída vísustu spekíngar hafa gétad útgrundad? Þessa samhliódan í anda og sannleika, sem allstadar

finnst í gudspiallamannanna frásögn, meigum vér einkum athuga, því hún sannfærir oss um, ad þeir heilögu rithøfundar eckert háfa ritad annad enn þad, sem þeir siálfir annadhvørt sáu og heyrdu, eda trúverdug vitni frædda þá um.

Hina sømu undrunarverdu samhliódan og samanheingi finnum vér einnin í gudspiallamannanna frásøgnum um þad ysirnattúrliga í Jesú lísi og kiørum. Allt er ein samføst kédia, úr hvørri ei má einn hleck burtu taka, ef ei skal hid heila trublast. Gudspiallamennirnir setia oss Jesum, sem mann, fyrir siónir, sem makalaust dæmi uppá fullkominn heilagleika, sem eingum daudligum er unnt ad ná; en þeir tileinka hønum og þann uppruna, sem er dæmalaus og ólíkur því, er í náttúrunni vidgengst (Lúk. 1, 35. Matth. 1, 20). Þeir eigna hønum þau verk, sem einberum mannligum krapti ei var unnt ad giøra, þeir innleida hann so talandi, sem ei sæmdi einberri manneskiu ad mæla; en þeir kalla hann einnin Guds son, og telia hann giæddann meiri enn mannligri hátign. Þeir setia oss fyrir siónir þann heilaga deyandi á krossinum sem misgiørdamann, og leiddu þeir oss nú ecki leingra, þá væri alt þad undanfarna oss ein órádanlig gáta, eintóm rádleysa án samanheingis; enn alt upplysist og birtist í enni fegurstu samhliódan, þá vér siáum þann krossfesta rísa upp af grøfinni og aptur hverfa til Fødursins. Þannin er adalinntakid í gudspiallamannanna frásøgnum

nágvæmliga samteingt. Væri nú alt þetta ekki sannleikur, hvornin skyldu so einfaldir menn, sem guðspiallamennirnir vóru, hafa gétað samanteki so dæmalausan dikt, er ekki á sinn maka; hvaðan tekið efnið til hans, þared sagnafrædin ekki hefir hans líka? Og þegar vér þar hiá athugum, hvörsu vel þessir atburdir eiga við vorar meslárídandi naudsyniar, hvörsu þeir bæta úr vorri andligu örbyrgð; hvörsu ſtødug sú trú og von er, sem byggist á Evangélii grundvelli: hvør er þá sá, er ei merkir, að grundvøllurinn til þessarar atburdakédiu, ei hafdi sinn uppruna frá mannligu hyggiuviti, en er lagdur af mannanna vísdómsfulla og giædsku-ríka Fødur?

Eins ber þessum hrilegu rithøfundum saman, bædi við sialfa sig og sín á milli, í lýsíngu þeirra manna er fyrirkoma í Jesú lífsøgu. Til að ſtadfesta þetta, má eitt dæmi téna, sem øllum er gagnkunnigt, það sem guðspiallamennirnir ſkrifa um Jesú lærisvein Pétur, hlýdir so yfrið vel uppá hans sinnislag, að vér ei gétum annað enn þreifað á, að það só sannleikur. Pétur elſkadi sannleikann af hiarta, þessvegna elſkadi hann Jesúm, sannleikans frædara; en hann var madur gédſlór, og gat þessvegna auðveldliga hlaupið á sig. So leidis byrtist hann frá því fyrsta og til þess sídasta, í guðspiallamannanna frásøgn. Pétur var það optast, er svaradi fyrir lærisveinana, og

sem fyrst byriadi að kénna og erfiða. Það var hann, sem lotníngarfullur féll til Jesú fóta, þegar allir urðu felmsfullir yfir þeim yfirnáttúrliga fiskidrætti (Lúc. 5, 8); það var hann, sem, þegar Jesús yfirgéfinn af mörgum lærisveinum sínum, spurði þá sélf: viliið þér og burt gánga, svaraði hønum: herra! til hvørs skulum vér fara? þú hefir orð eylífs lífs (Jóh. 6, 66 f.). Það var ogso hann, sem uppá Jesú spursmál: "hvern segið þér mig að vera", svaraði fyrir alla: »þú ert Christus, sonur lifandi Guðs" (Màtth. 16, 15). Enn þessi sami fliótráði Pétur, hliop opt á sig og missá sig vegna síns oftrausts. Hann einn vogaði hughraustur að gánga ámóti Jesú á siónum, en í storminum veiktist hans trú (Matth. 14, 28 f.). Af viðqvæmni til síns frædara, átaldi hann hann, að hann vildi géfa sitt líf út fyrir heiminn, og olli sér þar með stróngrar ávítunar (Matth. 16, 21—23). Þegar Jesús vildi þvo hans fætur, eins og hinna lærisveinanna, sagði Pétur: "Herra! skyldir þú þvo minar fætur! það skal aldrei ské!" en þegar Jesús sagði hønum: þvoi eg þig ecki, þá hefir þú enga hlutdeild með mér, sagði Pétur: «eigi einasta fæturnar, helldur einnin hendur og høfuð" (Jóh. 13, 6—9). Hugdiarfur lofaði hann að gánga í dauðann með Jesú (Matth. 26, 25), og með mikilli diørfúng dró hann sverðið úr slíðrum og særði Malchus (Jóh. 18, 10); en skømmu seinna hræddist hann ambátt eina (Matth. 26,

69 f.). Hvörsu fullkomliga svarar þessi samblendni af veikleika og krapti til Péturs fliótlynda gèdlags; og ef vér nú fylgium þessum Postula, frá því augnabliki hann minntist orda Jesú vid hans tillit, gèck út og grét beiskliga, þá þeckium vér hann sama fliótráda lærisvein, sem so vidqvæmt elskadi sinn guddómliga fræðara; hvört heldur vér lítum til þess, þá hann, er hann frétti Jesú upprisu, hlióp til Jesú grafar ásamt Jóhanni, stígur fyrstur inní gröfina (Jóh 20, 2—6); eda vér lítum til þess, þá hann var að fiska í Galilææ sjónum, og hann frétti ad Herran stód vid siósíðuna, kastadi sér út og syndti í land (Jóh. 21, 7 f); eda vér heyrum hann, í sídstu samrædu vid Jesúm hryggvan af því þrísvar frammsetta spursmáli: «Simon Pétur, elskar þú mig", svara: herra! þú veitst alla hluti, þú veitst, ad eg elska þig (Jóh. 21, 15—17). Hvörsú náttúrlig er ei þessi lýsing? Þegar vér nú athugum hvörsu þessi lýsing, sem sumpart allir gudspiallamennirnir sameiginliga, sumpart Jóhannes einn, og sumpart einasta hinir 3 hafa gèfid, náqvæmliga ber saman, so höfum vér hér í öggiandi sannleikans merki, bædi hiá gudspiallamönnunum yfirhöfud, og hiá hvörium þeirra sérílagi. Það sem hér er sagt um þetta eina dæmi, gétur heimfærst uppá hinar adrar gèdlagslýsingar sem fyrirkoma í Evangéliis, hvört heldur þær eru gódar eda slæmar. Þær eru allar, hvört heldur þær fyrir-

koma hiá einum eda fleiri gudspiallamönnum, siálfum sér so líkar, ad hvoreinn adgiætinn lesari strax gétur fundid, ad þeir meiga hafa talad og hegdad sér þannin þeir sem tala og hegda sér.

Hiá gudspiallamönnunum verdum vér varir vid ena sömu andans og sannleikans samqvæmni í þeirra rædumáta. Ecki verdur því neitad, af hvoreinn kémst ödruvísi ad ordum enn hinn; en allir brúka þeir vidhafnarlausann og einfaldann stílsmáta, sem er sannleikans vottur. Jafnvel þótt þeir framsetiii lesurum mörg undarlig atvik, þá óttast þeir eiganveigin fyrir, ad nockur muni efast um þeirra sagna trúverdugleika. Þeir tala í þeim róliga og hreinskilna anda, sem rithöfundar, er höfdu þann hreinskilnasta tilgáng, og þeir skrifa á þeim tímum, þá margir siónarvottar þess þeir umgéta, lifdu. Þeirra stílsmáti er án konstar og prýdi, og hefir ei adra fegurd, en þá er sannleikurinn siálfur med sér ber. Sárúngum gétur því ei fundist til gudspiallamannanna einfalda ritsmáta.

Vér höfum yndi af ad umgángast þessa menn, og heyra þeirra hreinskilna ræduform, einasta þegar vér metum sannleikan siálfan, án allrar lánadrar prýdi. Med slíku hugarfari gétum vér ecki lesid frásöguna hiá Jóh. 9 kap. um þann, sem var fæddur blindur, og Jesús gaf siónina, án þess ad merkia sannleikans hreina anda; hér siáum vér nágranna forundrást yfir þessari umbreitíng

ens blinda þurfamanns, ótta hiá hans for-eldrum, Phariſœanna þverúd mót ſannleikan-um, þeſs blinda alvarugéfni eptir ad Jeſús hafdi læknad hann, afmálad ſo náttúrligo, ad fráſagan ſiálf er fullnóg til ad ſannfæra oſs um hennar trúverdugleika. Ad færa fleiri dæma uppá þad edla og fagra í gudſpiallamannanna rædumáta, er ónytſamligt fyrir þá er ecki géta eda vilia athuga og ſkilia þad; fyrir ſannleikans elſkara er þad óþarfi, því þeir finna ſiálfir hvervetna nóg dæmi í gudſpiöllunum, og munu ávalt finna því fleiri, ſem þeir leſa optar.

Þá vér einaſta leitum uppbyggíngar af Jeſú líſsſögu, er þad þarflauſt at géfa ſig vid vöndum ſpursmálum, um hvor lærdir menn en þá ei eru ſamdóma, t. d. á hvöriu ári, og á hvörium ſtad, hvör gudſpiallabók er ſkrifud. Þad er oſs nóg, ad vér eptir ſamhlióda vitnisburdum enna fornu rithöfunda erum ſannfærdir um, ad allar gud-ſpiallabækurnar eru ritadar af þeim mönnum ſem þær eru vidkéndar, nl. af 2 Poſtulum, Matthæus og Jóhannes, og af 2 Poſtulanna læriſveinum, Marcus og Lúcas. Fáeinar ſkírſngargreinir, ſem ætladar eru til ad upplýſa innihald gudſpi-allabókanna og ſtyrkia vora trú á þeim, vilium vér teingia vid hvöria þeirra fyrir ſig.

Af Matthæí líſsſögu er þvínær ecki annad kunnugt, enn hvad hann ſiálfur ſegir frá (9, 9. 10, 10, 1. f.), ad hann var tollheimtumadur þá

Jesús kaus hann til lærisveins, og að hann síðan varð Postuli. Hann heyrði þá, sem Postuli, af Jesú siálfum þær ræður, og sá þá atburði, er hann hefir í letur fært. Einginn sognaskrifari gat því betur vitað, hvað skrifa skyldi; þaraðauki reit hann, eptir sem forkiufeðurnir votta í Jerúsalem, einmidt á því siónarplátsi, hvar atburðirnir urðu, fám árum eptir Jesú himnafør, á þeirri tíð, þá margir þeir lifðu, er séð og heyrt höfðu, það hann fráskírir. Eins og þetta sannfærir oss um frásögunnar trúverðugleika, so kénnir það oss einnin, að dást að hugrekki Postulanna, bæði þeirra skrifliga og munnliga vitnisburði um Jesúm; allmargir Jesú óvildarmenn ámeðal Pharisæa og Saducæa vóru ennþá á lífi, hvørra vondskufulla breytni við þann saklausa sett fyrir siónir og er í rit færð þeim til minnis, er seinna lifðu. En Postulin segir einasta frá því sem alkunnigt var; lýsir einasta þeim einbera sannleika, án þess að fella dóm í því efni; hann lætur lesarann siálfan dæma ímilli Jesú og hans óvina.

Matthæus hefir sérílagi skrifað sitt Evangélium fyrir gyðínga og fyrir kristna af Júdum komna, þessvegna framfærir hann marga spádóma af G. T. til að sannfæra Gyðínga um, að Jesús væri sá af Guði fyrirheitni Messias; þessvegna koma opt fyrir hiá honum þau orð, við sérhvørn merkiligann tilburð í Jesú æfi: Nú kémur framm það sem þessi eða hinn spámaður hefir spáð um

Messias; með hverju orðatiltæki hann þó ekki ætið meinar eginligan spádóm, heldur ástundum géfur einasta til kynna, að það, sem spámaðurinn hafði sagt um annan atburð, vel gæti heimfærst uppá það sem umtalast í Jesú lífssögu*). Með því að Postulinn einkum sérílagi skrifar fyrir þá, er af Gyðíngum, vóru komnir, so bendir hann margopt til þjóðsögu Júða, hátta þeirra og meiníngа, sem til alkunnra hluta, og í stað þess, að hinir guðspjallamennirnir ástundum upplýsa með innsmeigðri skírúngargrein eitt edur annað, fyrir aðra enn Júða pandskilið orðatiltæki, gjörir Matthæus ráð fyrir, og það með fullri ástæðu, að landsmenn hans bæru nánara kenst á hið G. T. og Mósis stjórnarform. Jafnvel þótt þetta vitурliga og nauðsynliga tillit til enna fyrstu lesara af Júða ætt, sem er so þekkianligt í þessari guðspjallabók, olli, að líkindum því, að Kristnum á vorum dögum þykir sumt annarligt vera; þó mun leikmaðurinn, sem alleina er útbúinn þeim áður umgétnu, sérhverjum bibliulesara nauðsynligu, eiginligleikum, géta sér það í nyt fært til sannrar uppbyggíngar. Sá hér að framan veitti leiðbeini og þær athugasemdir sem á eptir-

*) Þannin segjum vér opt í dagligu lífi: "nú kemur að því, er sá eða sáj mælti" án þess þó, að vér álítum hann giæddan spásagnar anda.

fylgia, munu, einnin, ad von minni, géta verid honum til leidarvísirs.

Sérhværr þeirra 4 gudspiallabóka hefir nockud eiginligt, afbragdsligt til ad bera. So og einnin þessi. Auk ens frábrugdna er Matthæus skrifr frá í þeim 2 fyrstu kapp. er alleina hiá honum ad finna Jesú giørvøllu fiallprédikun, greiniliga og í samanhengi framsetta. Einsamall segir hann oss frá þeim snilliligu og lærdómsríku eptirlíkíngum um illgresid medal hveitisins (13, 24), um hinn hlífdarsama kongúng vid þiónustumann sínn (18, 21), um konúnginn, er baud til géstabods (22, 1), um dómsdag (25, 31) og fl., samt ena kroftugu rædu gégn Pharisæunum (23 kap.), alt þetta hefir hann einn skilmerkiliga uppskrifad.

Annars þótt þeir einstøku atburdir í Jesú lífssøgu, eins og ádur er sagt, ecki ætíd skráskrifst í þeirri rod, sem einn þeirra bar vid eptir annann. Med því ad þeir heiløgu ritheføfundar fremur høfdu ásett sér, ad láta eptir sig skrifud høfud-atridi Jesú lífssøgu, enn ei samfasta æfisøgu; þá meigum vér ecki þarfyrir meina ad ena heilegu søgu sé vant rádlags og reglu. Vér verdum varir hiá Matthæus fleiri høfuddeilda, hvar lesarinn gétur skaldrad vid. Þegar hann hefir umtalad Jesú ættartølu sem Gydíngum var einka kiærkomid, talar hann um Jesú fædíngu og þad markverdasta af hans barnæsku (kap 2). Sídan gétur hann um þad er géck á undan Jesú opinbera lífi, nl.

skírarann Jóhannes, hans spádóm um Messiæ komu, Jesú skírn og freistíngu (3—4, 1—11). Þvínæst leidir hann lesarann inná þad eginliga sjónarpláts nl. Galilæa, hvar Jesú opinberu athafnir skédu medal Gydínga, inngreinir strax í byrjuninni (4, 17—23) hofudatridid af ollu því sem vér minnum fá ad siá og heyra, nl. Jesú vidleitni fyrir sinn lærdóm og krapt ad stipta eitt Guds ríki hér á jördunni; þaráeptir útlystar hann í andríkum rædum, stundum fyrir sínum lærisveinum, stundum fyrir þeim 12, sem hann hafdi útvalid til Postula, stundum fyrir fólkinu og stundum fyrir Phariseunum, hvornin hann skilur og hvad hann meinar vid þess himneska ríkis náttúru og ásigkomulag, og þá eiginligleika sem þessa ríkis borgarar hljóta ad hafa — einmidt þvertámót Gydínga raungu hugmind um eitt jardneskt Messiæ ríki, og þá miklu lukku fæddir Gydíngar skyldu verda adnjótandi í enu sama; og hvornig hann med morgum kraptaverkum sannar ad hann var af Gudi kiörinn kóngur í ríki þessu (4, 12. 20, 16). Med þessum ordum (20, 17): "Nú ferdast hann upp til Jerúsalem" byriar nyr þáttur Jesú lífssögu, sem inniheldur þær rædur og giorníngar, hvarmed Jesús sumpart giordi óvini sína aldeilis uppvæga (innreidin til Jerúsalem, kaupenda og selienda útrekstur úr musterinu, þær skorinordu rædur gégn Phariseunum) sumpart uppörfadi sína vini til stoduglindis (spádómurinn um Gyd-

ínga ríkis eydíleggíngu, um hans tilkomu til dómsins, innsetníngu þeirrar heilögu qvöldmáltídar (20, 17. 26, 29). Sídan kémur píníngarsagan, og seinast útfallid á öllu hinu: Jesú upprisa, og hans skipan til Postulanna, ad útbreida hans trúarbrögd í heiminum. Hvör er sá er ei siái ad í þessari sögu, þótt hún sé skrifud án allrar vidhafnar, og án þess ad í henni sé tímarödinni nágvæmliga fylgt, finnist liós orda og samheingi? Sama nidurradan finnst í hinna annara gudspiallamanna fráságnum í höfudatridinu, ad so miklu leiti, sem þeir fráskýra sömu atburdum; þó þeir í einstakra atvika nidurrödun ástundum mismuni störum.

Marcus gudspiallamadur (ad þeirri vidteknu rödd sé fylgt, þótt Lúcas synist ad hafa skrifad fyrr enn hann) er ad öllum líkindum enn sami, sem Lúcas gétur um í Postulanna Giörníngum (12, 12) og Páll í bréfinu til Colloßenses (4, 10 og á fl. st.). Hann hét þá eginliga Jóhannes Marcus, og var sonur Maríu, er bió í Jerúsalem, er hýsti og skaut skióli yfir marga Kristna; til hennar húsa kom Pétur Postuli, þá hann á yfirnáttúrligann hátt var frelsadur úr fángelsinu (Post. G. 12, 5 f.). Marcus var Péturs lærisveinn, þessvegna nefnir Postulinn hann son sinn (1 Pét. 5, 13), eins og Páll nefnir Tímótheus og Títus sína syni, þar hann hafdi umvendt þeim til kristiligrar trúar. Hann var ad Lúcas sögn (Post. G. 12, 25. 13, 13)

ásamt Páli og födurbródur sínum Barnaba, Páls medhiálpari á reisu einni til Kristindómsins útbreidslu; en skildist sídan vid þá og snéri tilbaka til Jerúsalem. Vœntanliga hefir hann í þad sinn, eins og Pétur og hinir adrir lærisveinar í byrluninni, verid of ssodulítill til ad hætta lífi sínu fyrir Jesú Evangélium. Enn ad hann sídan umbreittist, og giørdist annar madur, eins og hinir adrir, siáum vér ei einasta af því, ad Barnabas, nockrum árum seinna, tók hann sér fyrir fylgdarmann til somu árídandi og hættuligu erindagiørda (Post. G. 15, 37 39), helldur einkum þaraf, ad hinn sami Páll, sem þá ecki vildi taka Marcum med sér sem stallbródur, af því honum einusinni skaut skélk í bríngu, og þessvegna skildist vid Barnabam, er vildi taka Marcum med sér, ad nockrum tíma lidnum, þá hann sat fiotradur í Róm, gaf Marcus þann ágiæta vitnisburd, ad hann ásamt tveimur ødrum væru þeir einustu af Gydínga ætt, er truliga og af álúd erfidudu med hønum til ad útbreida Guds ríki (Coloss. 4, 10, 11) og væru hønum siálfum til huggunar í hans fángelsi, og tveimur árum sídar, þá Páll var í ennþá hardara f. ngelsi í Róm, og nær dauda sínum, nærstum yfirgéfinn af øllum, var Marcus sá, sem þessi stóri Postuli þráir, og hvørn hann bidur trúnadarmann sinn Tímótheus ad láta fylgiast med til Róm, "þvíad hann væri hønum nytsamligur til þiónustu" (2 Tím. 4, 11).

Fleiri rök þurfum vér ecki fyrir þessa gudspi allamanns hreinu sannleiksellsku og ástundun til ad útbreida hann. Sem ny rekfemd fyrir þessu, gétur þénad trúverdigra kyrkiufedra frásögn, ad Marcus ferdadist frá Róm, hvar hann skrifadi sitt Evangélium, til Egyptalands, ad boda kristna trú, og var einn af þeim, er lagdi grundvöll safnadarins í Alexandríuborg.

Eins áreidanlig skírteini hösum vér fyrir því, ad Marcus var vel kunnigur öllu því, er hann hefir fráskyrt í sínu Evangélio. Eptir kyrkiufedra anna vitnisburdi hefir hann ritad sitt Evangélium í Róm, í nærveru og undir tilsión lærimeistara síns Péturs Postula; og hans Evangélium sannar þad ogso liósliga; þar Marcus hefir drepid á einstaka frábrugdnar kríngumstædur vid ymsa atburdi, er ecki einasta lysa siónarvottinum, heldur líka Pétri siálfum t. d. ad húsid, í hvoriu Péturs teingdamódir lá veik, ecki einasta heyrdi Pétri til, heldur líka Andreas (1, 29) ad Jesús, í hvassvidrinu á siónum, lá í skutnum og svaf á kodda einum (4. 38), ad þeir lærisveinar, er spurdu Jesúm um Jerúsalems eydileggíngu, vóru þeir Pétur, Jacob, Jóhannes og Andreas (13, 3—4), ad madur einn med vatnskrús skyldi mæta þeim tveimur lærisveinum, er Jesús sendi til Jerúsalem ad undirbúa páskalambid (hvorra Pétur, ad Lúcas sögn, var sá annar) (14, 12 f.), ad engillinn sagdi til qvennanna hiá gröfinni, ad þær skyldu

segja frá því er þær hefdu séd, hans lærisveinum, en einkum Pétri (16, 7). Öll þessi og fleiri smáatvik, sem einasta finnast hiá Marcus, hefir ad ollum líkindum einginn annar; en siónarvottúrinn og hlutadegandinn Pétur sagt honum.

En þá merkiligra er þad, ad Marcus, jafnvel þótt hann synist ad hafa haft Matthæi og Lúcæ Evangélia vid hondina, þared hans ásiundum ordrétt ber saman vid þeirra, hefir þó sleppt morgum frásognum sem vóru hans kénnara til æru, sem hinir hafa, og þarámót fer morgum ordum um eitt og annad sem Pétri var midur sómi ad, og þad med minni tilhlidrunarsemi, enn hinir. Hann talar eckért um Péturs ypparligu hegdan vid fiskidráttinn (Lúc. 5, 8). Eckért um hans dirfúng í því, ad gánga móti Jesú á siónum (Matth. 14, 28). Eckért um þad í Jesú rædu, er Pétri gaf til upphefdar ordid (Matth. 16, 17—19). Þegar hann þarámót, ecki einúngis gétur þeirrar hordu ávítunar, er Jesús gaf Pètri (8, 33), ásamt med Matthæus (16, 23); heldur einnig frásýrir Péturs afneitan jafn greiniligar enn nockur hinna gudspiallamanna (Marc. 14, 66—72). Hvornig gétum vér liósligar skilid þessa Marci einkénniligu adferd, en med ad trúa því, er hinir gomlu Fedur frásýra: ad Pétur siálfur hafi stiórnad Marci frásagnarmáta, og ad þessi hógværi Postuli hafi viliad, ad rit þad, í hveriu hann siálfur átti so mikinn þátt, ecki skyldi um of hrósa honum, og

ecki dylia hans yfirsiónir? Þótt nú Marcus ecki væri Postuli, þá gétum vér þó með fullum trúnaði lesið hans sagnarit um Jesúm: þareð hann, auk hans kunníngsskapar við marga siónarvotta, einkum hefir ausið fráségn sína af so hreinni uppsprettu, fyrir munnliga frædslu Jesú helðsta Postula.

Þótt nú þessi guðspiallamaður hafi sleppt mørgu, er finnst hiá hinym ødrum t. d. Jesú fæðíngu, mørgum af hans ræðum o. s. fr. (vœntanliga þareð hann hér engu gat viðbætt því, er hinir høfðu sagt); so finnast hiá hønum einstøku merkilig atvik, sem hinir hlaupa yfir. Hiá hønum einum finnst fráségn um þann blinda mann í Bethsaída (Péturs fæðínga-stað) hvørium Jesús gaf siónina á undrunarfullann hátt (8, 22—26), ogso hin fagra samlíking er stendur 4, 26—29. En einkum er hann-þarf frábrugðinn, að margir atburðir, sem hann hefir ásamt hinum guðspiallamønnum, finnast hiá hønum með slíkum viðbætir og nákvæmari ..qverðun, af hvøriu hið giørvalla verður opt liósara. Einstøku dæma er nyliga géilð þessu til staðfestu, og fleiri mun seinna gétið verða.

Eins og Matthæus einkum skrifaði sitt Evangélium fyrir kristnaða Gyðínga þannin hefir Marcus áqvarðað sitt handa heiðíngium. Að vísu giørir hann, eins og allir N. T. rithøfundar yfirhøfuð, ráð fyrir, að hans lesarar ecki þecki graunt Gyðínga og þeirra heilogu bækur. Enn það er

þó í augum uppi, ad Hann lempar sig eptir þeirra lesara hugargripi, sem af heidíngium giørst hofdu kristnir. Þaraf kémur það., ad hann bædi hleypur yfir eitt og annad, sem eginliga var árídandi fyrir Jsraelíta. t d. Jesú ættartølu, og stundum bætir vid athugasemdum til ad giøra þúngskilid ordatiltæki skilianligt þeim, er ecki vóru Gydíngar, og stundum géfur hann heidíngium upplysíng um Gydínga háttu, hverium Heidíngiar vóru midur kunnigir (Marc. 7. 2—11).

Um gudspiallamannsins Lúcæ kynferdi og fædíngarstad veit madur eckért til vissu. Mikid líklegt er, ad hann ad uppruna hafi verid heidíngi, og fædst í Antióchía í Syríu. Páll segir í bréfinu til Coloss. 4, 14, ad hann hafi verid læknir; og hann vyrdist ad vera sá einasti af þeim 4 gudspiallamønnum, sem var ad nockruleiti mentadur. Enn sérhverium lesara, er leita vill sér uppfrædíngar í hans Evangélió, rídur meira á því spursmáli: hvort vér gétum vel reidt oss uppá þær frásagnir, er hann meddeilir oss, þared hann ecki var Postull, ecki siónarvottur þeirra atburda, sem hann frásskyrir? og forsiónin hefir hagad því so, ad vér í þessu efni giætum feingid fullkomna vissu. Lúcas er oss eins áreidanligur leidtogi, sem Marcus, hver ecki heldur var Postuli. Eins og Marcus var Péturs lærisveinn, so var þessi Pols lærisveinn. Lúcas fylgdi þessum sínum kénnara trúliga á mørgum hans reisum (Post. G.

16 10. 20, 4—5). og af Postulanna Giörníngum, sem líka eru skrifadir af Lúcas, gétum vér séd, í hve stórum mædum og hættum hann átti þátt ásamt Páli. Einnin gétum vér af sjálfs Páls vitnisburdi í hans seinna bréfi til Tímóth. 4, 11 séd, hvörsu Lúcas var innbláfinn af somu hugdiörfúng sem kénnari hans so hann ekki hræddist daudann fyrir Jesú nafns sakir. Páll sat í þann tíma í straungu fángelsi í Róm, reidubúinn, hvört augnablik ad deya píslarvættis dauda; og þau hretvidrasky, sem drógust saman yfir hans höfdi, höfdu nærstum fælt hans flestu vini burt frá honum. Lúcas alleinn var vin sínum og kénnara trúr til þess sídsta; "Lúcas einn", segir Postulinn í fángélsinu, "er hiá mér". Gétum vér haft áreidanligra skírteini uppá þessa gudspiallamanns hreinskilni og falslausu sannleiks elsku?

Þegar þvílíkur madur fullvissar oss um, ad hann hafi numid Jesú lífssögu af siónarvottum og ordsins þiónurum, ad hann hafi frá upphafi náqvæmliga grenslast eptir öllu, so hann giæti géfid sínum lesurum samanhángandi og áreidanliga frásögn; og þetta vitnar Lúcas í þeim stutta formála hans Evangélii (1, 1—4). Þurfum vér þá meira til ad sannfærast um, ad vér óhulltir gétum fylgt þessum velkunniga rithöfundi og hreinskilda sem diarfa sannleiksvin? Vér vitum þaradauk af Postulanna Giörníngum, hvílíkan adgáng Lúcas hafdi til þeirrar uppsprettu, hvaraf

hann aufið hefir. Hann naut ecki einúngis uppfrædíngar af Postulanum Páli, sem var so gagnkunnigur Jesú lærdómi og lífssögu, og sem af Drottni var innvígdur í helgidóminn (Gal 1. 11, 12), heldur var hann einnig med sínum kénnara í Jerúsalem þá hann var fiötradur; og í þau tvö ár, sem Páll var í fángelsi í Cæsarea, dvaldist Lúcas í Gydíngalandi. Hér var hann þá á sama stad, hvar allt þad hafdi skéd sem hann fráskyrir í sínu Evangélió; þar umgéckst hann mörg siónarvitni, sem ennþá lifdu, og þarámedal Postulann Jacob, hvörium Jesús unnti miög (Post. G. 21, 17. samanb 27, 1 f.); gétum vér þá efast um, ad hann trúliga hafi notad þau hiálparmedöl, sem budust hönum, þegar hann hafdi áformad ad skrifa Jesú lífssögu?

Þared Lúcas átti þátt í heidíngianna umvendan ásamt Páli, so hefir hann skrifad sitt Evangélium fyrir þá af Heidíngium, sem giörst höfdu kristnir. Höfudatburdirnir í Jesú lífssögu hlutu ad vísu naudsynliga ad vera þeir sömu í sérhvörri trúverdugri frásögu, handa hvörium sem hún annars var ritin; þessvegna eru þeir sömu hiá Lúcas, sem einkanliga skrifadi handa þeim, er vóru ad uppruna Heidíngiar, sem hiá Matthæus er skrifadi handa Israelítum. En samt sem ádur hefir sérhvört Evangélium keim af þeim eiginliga tilgángi, í hvörium sérhvört þeirra er ritad. Þannin gétum vér vænt, ad Lúcas, sem verid

hafdi vottur þeirrar bitru stýrialdar, sem frædari hans Páll átti vid Gydínga og gydíngasinnada Kristna, af því hann kalladi óumskorna Heidíngia til Messiæ ríkis, gyrntist af Jesú egin ordum og verkum ad sanna, ad Páll hafdi rétt í því, er hann giordi. Þessi tilgángur lætur sig í liósi í hans fráságnum. Þessvegna framfærir hann þessháttar Jesú rædur og giorníngu, er þénad gátu til ad lækka Gydínganna þióddramb, og ad sýna samhliódan ámilli Jesú og Páls lærdóms og lífernis. Eins og Páll t. d. hvar sem hann kom, ætíd fyrst prédikadi Evangélium fyrir Gydíngum, og þegar þeir forsmádu þad, snéri sér til Heidíngia, þannig hafdi Jesús kénnt ad Lúcas sögn (4, 25—27) med dæmum teknum af ekiunni í Sarepta og Naaman enum syriska, ad þegar Guds velgiörníngar forsmádust af hans þverúdarfulla fólki, byduft þeir Heidíngium. Og þá Gydíngar ógnudu Jesú vegna þessa diarfa ordat tiltækis (Lúc. 4, 28—30), var þad þá ad undra, ad hans Postuli hlaut líku ad sæta? (Post. G. 21, 27 f.). Páll kénndi, ad umskurnin eda yfirhúdin gilldir eckért fyrir Gudi, heldur sú trú sem er kröptug fyrir kiærleikan (Gal. 5, 6), og kénndi Jesús ecki þad sama í líkíngunni um þann miskunsama Samarítan sem finnst hiá Lúcas? Páli var ætíd lagt til lífa, ad hann umgéckst Heidíngia, sem í Gydínga augum vóru óhreinir; og var ecki siálfur Jesús nefndur vinur tollheimtumanna og

bersyndugra Þared hans leitadist vid ad snúa Þessum til Guds ríkis? (Lúc 7, 34). Þær sømu ástædur sem Jesús brúkar í Þeirri føgru samlíking hiá Lúcas (15, 11 f.) um Þann 'svikapada son til ad førsvara sína breitni, Þær sømu notar Páll til ad réttlæta sig (einkum í bréf. til Róm. og Gal. ata). Af Þessum og ødrum fleiri stødum í Lúcæ Evangélio, sem sá adgætni lesari siálfur finnur, má Þad ráda, ad jafnvel Þótt Matthæus eins og hann, setii oss Jesúm syrir siónir, ecki einasta sem Gydínga, heldur sem heimsins frelsara, so hefir Þó Lúcas einkum ásett sér ad sanna Þad, ad augnamid Jesú koinu nædi til allra Þióda.

Þad lýsir Þaradauk á hina sídunа hreinskilni Þessa gudspiallamanns, ad hann, Þótt hann skrifadi sitt Evangélium Þá, er hans læri:meistari Páll, Heidingianna Postuli, var minna metinn af gydingasinnudum Kristinum, en hinir adrir Postular Pétur, Jacob og Jóhannes. sem álitust fyrkinnnar máttarstólpar (Gal. 2, 6 9); gétur alls trúliga eins og hinir adrir gudspiallamenn, hvad Þessum Jesú fyrstu Postulum gat til sæmdar vordid; og greiniligar enn Matthæus fráskyrir Postulans Péturs køllun og Því hreinskilna sinnislagi sem hann Þá lét í liósi (Luc 5, 1—11). Med hvílíkri vissu gétum vér fylgt Þessum hreinskilnu rithøfundum, sem vóru so framknúdir af hreinni sannleiksélsku, og so lángt frá ad hafa nockura óverdugan tilgáng, sem adrir ritarar so opt láta í liósi.

Lúcas einum höfum vér að þakka ágiætan viðbætir Jesú lífssögu. Í hans Evangélio einúngis lesum vér; (auk þeirra snotru nýnefndu samlíkínga um þann misKunsama Samarítan, um þann fortapaða son, og margra annara, styttri og leingri ræða) þær merkiligu og lærdómsríku frásagnir um þann frá dauðum uppvakta úngling af Nain (Lúc. 7, 11—17), um lærisveinanna mistökka þá Samarítanarnir neituðu þeim um herbergi (Lúc. 9, 52—56), um kynnisfókn Jesú hiá systrunum Maríu og Mörthu (10, 38—42), um heilsubót þeirrar qvinnu, er 18 ár hafði verið bogin (13, 10—17), um lækníng 10 líkþrárra (17, 11—19) og s. fr. Lúcas hefir einnig gétið þeirra merkiligu atvika við Jóhannis skírara og Jesú fæðíngu, hinna ágiætu lofsaungva af Maríu, Zacharías og Símeon enum gamla; og það lítið, vér vitum um Jesú úngdóm, höfum vér ogso þessum guðspiallamanni að þakka (í 1 og 2 kap).

Nú víkur ræðu vorri að hinum síðsta guðspiallmanni Postulanum Jóhannesi. Hann var sonur þeirra Zebedæi og Salóme og bróðir Jacobs ens eldra, er Agrippa kóngungur lét hálshöggva (Post. G. 12, 2). Hafi nokkru sinni sá maður uppi verið, er var fær um að skíra frá Jesú lífssögu, og setia hann oss fyrir siónir í sannri guðligri hátign, þá var það Postulinn Jóhannes. Hann var ei alleina heyrnarvottur ræða þeirra, er Jesús flutti á mannfundum, og siónarvottur hans dul-

lausu dásemdarverka, heldur unnti Jesús honum mest af øllum Postulunum; «hann var sá lærisveinn — so qvedur hann ávalt ad ordi um siálfan sig — er Jesús elskadi". Pétur, Jacob og Jóhannes vóru, sem vér vitum af Gudspiøllúnum, þeir menn, er Jesús virti mest og giørdi sér handgengnasta, og sem hann kaus til ad vera votta þýdlikra atburda í hérvist sinni, vid hveria honum eigi þókti rádligt ad þeir allir 12 væru vidstaddir. En ámedal þessara þriggia var Jóhannes þó honum handgengnastur; og vogadi, sem Jesú vildarmadur ad spyria hann þess, er einginn af stallbrædrum hans høfdu hug til (Jóh. 13, 21 f). Hann var hvervetna hiá Jesú, já, á enni hrædiligu tíd, þá allir hinir Postularnir vóru burtu flúdir af ótta, stendur Jóhannes undir krossinum, og tekur á móti vidqvæmum panti hans elsku, ad Jesús felur honum umsiunn sinnar yfirgéfnu módur á hendur; hann er siónarvottur síns deyandi vinar sídsta daudastrídsd, og sá med eiginn augum þá atburdi, er sanna dauda hans (Jóh. 19, 34. 35). Jafnvel þótt hinir Postularnir væru ei sídur enn Jóhannes vottar Jesú upprisu og enna fylgiandi miklu vidburda, var þad þó þessi Postuli, er fyrstur, eptir bodskapi Maríu, hlióp med Pétri til Jesú grafar (Jóh. 20, 1 f.); er róinn til fiskiar ásamt nockrum ødrum lærisveinum á Tiberiadis-siót, fyrstur þekti sinn, á landi standandi, frædara, og sem, þá hann átti hrærandi tal

vid Pétur, sek nya rekſemd um ens upprisna sérligu vardveitslu (Jóh. 21 kap.). Af hvorium giætum vér þá fremur æskt oss frásagnar um Jesúm, enn af þessum, sínum guðliga kénnara so handgengna, lærisveini? og hvílíka orsök hofum vér til að gøfga þá guðligu forsión, er annast hefir, að sá skyldi einnin oss skíra frá Jesú, er Jesú ástfólginn, þekti hans huga og hiarta so vel.

En hvørnin er því varid, að Jóhannes hefir undanfeldt so margt í frásøgu sinni, er ritað finnst hiá hinum guðspiallamønnunum, og þarámóti skrifar so margt, er hinir þegia um? Þá vér lesum Jóhannesar guðspiall, eptir að hafa lesið hin, er sem opnist fyrir oss nýtt siónarpláts, hvar líta megi ymsa tilburdi Oss gefur þar að heyra aðrar Jesú rædur, að líta aðra giorníngа, en skrád finnst í hinum guðspiøllunum Að vísu finnum vér þar á ny þá somu høfuðatburdi, Jesú kappsmuni að stipta Guðsríki á jørdu, bardáttu hans við lióssins fiandmenn, hans lídan, dauða og upprisu; en þó er oss þar vant, so margra merkra atvika og atburda í Jesú lífsøgu, er hinir segia frá t. d. Jesú fædíngar, skírnar og freistíngar í eydimørku, skikkunar enna 12 Postula, forklárunar hans á fiallinu, spádóms hans um Jerúsalems eydileggíng, innsetníngar ennar heiløgu qvøldmáltídar, hans uppstigníngar, auk þeirra dyrmætu ræda, er lysa fyrir oss sídalærdómum hans. Um alt þetta þegir Jóhannes, Þarámóti hefir

hann oss skrifad eptir sig látid allmargar ei sídur merkar rædur og giorníngar af Jesú, er hinir hafa med þøgn framm hiá gengid. Þetta mætti að vísu í fyrsta álíti þykia undarligt; en við náqvæmari íhugun, stýrkist þó af því á ny trú vor. Jóhannes reit nefniliga gudspiall sitt seinna, enn hinir og hefir, sem þeir gømlu kyrkiu-sagnaskrifarar votta, haft þeirra gudspiøll fyrir sér og lesið þau þriú; og nú gétum vér ei leidt oss adra orsøk í huga, hvørsvegna hann hefir undanfellt so marga tilburdi í Jesú lífsøgu, enn þá, að hann áleit þá skírslu, er hinir høfdu géfið, bædi nægligá og sanna. En hefir hann þá ekki med þessari þøgn sinni samþykt hinum og bætt sínum mikilvæga vitnisburdi við þeirra? Þetta verdur ennþá audsiáanligra, þá vér adgiætum, að hann eigi allsialdan bendir til eins og annars, er hinir hérma að við hafi borið, án þess þó með berum ordum að nefna það. Soleidis segir hann oss frá því, er tilbar við Jesú skírn, án þess að skíra frá skírninni (Jóh. 1, 32-34), talar um undirbúníng til ens heilaga Altaris Sakramentis (13 kap.), samt um atvikinn við það, án þess að drepa á innsetnínguna þess; bleypir (3, 24) þeirri athugagrein inn ímillum: „Því Jóhannesi var ennþá ei í fángelsi kastað" án þess að vikia hið minsta á, að hann í fiøtrum væri, o. s. fr. Mundi hinn annars náqvæmi Jóhannes á þann hátt ritað hafa, ef hann ei hefdi ráð fyrir giørt, að tilburdir þeir, er hann

bendir til, væru lesurum hans þá nægiliga kunnir vorðnir af hinum guðspiallamønnunum.

Eingiνn er sá meðal enna 4 guðspialla-manna, er fremur lœtisi siálfum sér, enn Jóhannes. Auk aðal-atburðanna, eru það nockrir fáir til-burðir (nl. hin yfirnáttúrliga mettan 5000 manna, og að því búnu, ferð hans yfir Genezarethς sió-inn (Jóh. 6, 1—21; smurníng hans á undan pínínguνni 12, 1—8 og inureið í Jerúsalem, 12, 12—19, alt stuttliga ávikið) er hann hefir upp-skrifað ásamt þeim, er fyrr ritudu um þetta efni; og það án efa af eingri annari orsok, enn þareð þeir vóru óaðskilianliga samteingdir frásøgunni og ræðum þeim, er hann ætlaði að uppskrifa. Að øðru leiti eru það einúngis nyir, af þeim 3 guð-spiallamønnum undanfeldir atburðir, er Jóhannes hefir fært í létur. Það sama má segia um ræður þær, er vér finnum í guðspialli hans. Bæði eru þær að efninu ólíkar, og annarsstaðar fluttar og við annað tækifæri, enn þær ræður, er hinir guð-spiallamennirnir hafa skrifaðar eptir sig látið.

Annars megum vér ei leiða oss í huga, að einasti tilgángur Jóhannis með guðspiallsbók sinni verið hafi, að auka frásøgur forgaungu-manna sinna með viðbætir nockrum. Því einnin hann undanfeldi af ásettu ráði, sem hann siálfur vottar (Jóh. 21, 25), óteliandi giørnínga Jesú, er mundi nægiligt efni í margar bækur. En hvað hann dregið hafi til að gánga soleiðis í valið

af Jesú rædum og verkum, og til hvørs hann eginliga midadi med fráságn sinni um Jesúm, því gétur einginn betur lyst enn hann siálfur. Ad því umgétnu, ad Jesús hefdi giørdt ennþá fleiri stórmerki í augsýn sinna lærisveina, er ei fyndust skrád í þessari bók (hans Evangélió) segir hann enn fremur (Jóh. 20, 21): "en þessir hlutir eru uppskrifadir, ad þér trúa skyldud, ad Jesús er Christus, Guds son: og ad þér, sem trúid, skyldud hafa lífid í hans nafni" þad var þá hátign Jesú persónu, hans néqvæmu sameiníngu med Guds dóminum, og hvad hann var, er og verda mun fyrir oss, þad vildi Jóhannes einkum giøra lesurum sínum skilianligt. Til þess bendir hann í upphafi bókar sinnar (1, 1—14) hvar hann strax setur oss sem á eitt hátt siónarberg, hvadan vér skyldum skoda Jesú ord og giørnínga; þar er, sem vér finnum rædu-efnid, er útlystast í giørvallri fylgiandi lífssøgu. Vér lesum, med hve diúpri lotníngu Jóhannes skrifari, hvørs vitnisburdur greiniliga er framsettur, talar um Jesúm; og vér siáum, ad þessi gudspiallamadur af ásettu rádi hefir valid þvílíkar Jesú rædur og giørnínga, er oss skyldu kénna, ad tilbidia hann, sem födursins eingétna, sem hiartnanna ransakara, sem þann af himnum senda; fylgia honum sem lióssinu, veginum, siálfum sannleikanum; álíkt og hiørdin hirdirnum, trúa á hann sem á upprisuna, lífid og heimsins frelsara; heidra hann, sem vorn dóms

ara og vera honum samteingdir, sem greinirnar vínvidnum. Ad vísu finnum vér í hinum gudspiallabókunum óræk merki uppá hátign Jesú persónu og ljós ord um áqvördun hans sem heimsins frelsara (t. d. Matth. 28, 19. 11, 5. 8, 11—12. 26, 28). En eins og, menn hljóta ad leidast til athuga um þann innvortis dómara, er talar í hiarta þeirra, ádur enn þeir finna hiá sér laungun til trúarbragdanna háu lærdóma, so verdum vér og þess varir, ad Jesús er í þeim 3 fyrstu gudspiallabókum oss fyrir siónir settur, sem hinn fullkomnasti sidalærdómsfrædari; þarámóti var þad þeim ætlad, er handgeingnastur var Jesú, ad leida oss innar í helgidóminn og kynna oss þad, sem Jesú eiginn lærisveinar eigi gátu numid (Jóh. 16, 12—14), uns þad frammkom, er fyrir honum lá. Þad er þá einkum af Jóhannis gudspiallsbók vér sannfærumst um fullkomna samhljódan ímillum innihalds Jesú eiginn ræda og Postulanna bréfa.

Af því er vér stuttliga rædt höfum um þær 4 gudspiallabækur, mun sérhvör skynia, ad vér, til ad fá algiörliga hugmind um kénníngar Jesú og liferni, megum lesa þær allar ásamt. Hvad Jesús hefir frædt oss um edli kristiligrar dygdar, þad finnum vér ad sönnu í þeim öllum, en einkum í þeim 3 fyrstu; og hvad hann kénndi oss um trú vora og von, hefir einginn þeirra undanfellt, en Jóhannes einkum ad fullu útlistad.

Fylgi nú hinn guðrækni lesari þeim hér að framan framsettu reglum til ávaxtarsams lesturs ens N. T., mun hann og að vísu so fá skilið innihald guðspiallanna-bóka, sem hann þarf til síns augnamiðs. Fáeinum athugagreinum viljum vér enn fremur viðbæta, með einkanligu tilliti til þessa hluta ens N. T.

Með því að guðspiallamennirnir hafa allir ásamt ritið allmarga parta af Jesú lífssögu, en einn segir frá einum atburði og tilgreinir fleiri eður önnur atvik, eður framsetur eina fiölorðari ræðu og tiltekur tíðina, þá ræðan var haldin og tildraganda hennar, — en annar; so er það ósk a ráð, þá þúngskildar og efasamar greinir verða fyrir oss, að bera guðspiallanna frásagnir um sama efni saman, þar vér á þann hátt finnum munum það ljós og þá sannfæring, er vér leitum eptir. Nokkur fá dæmi (auk þeirra áður framfærðu) eru vel fallinn til að upplýsa þetta. Hvaða tilefni Jóhannes skírari hafði til að ávíta Heródes kóníng fyrir hórdóm, skíra þeir Matthæus og Lúcas oss ei, en Marcus segir, hvörsu það mál var með vexti, er þessi sannleikans talsmaður átti við kónginn, og synir oss undireins, hvaða færi og tilhvatníng hann hafði til að ávarpa kónginn soleiðis: "það er ei leyfiligt, að þú hafir konu bróður þíns" (Marc 6, 8). Að Jóhannes skírari áleit Jesúm að vera hinn fyrirheitna Messías, getum vér að vísu ráðið af enna 3 fyrstu guðspialla-

manna; en óskandi þykir oss ad vèr heyra mætt-um útþrykkiligri vitnisburd um þad af þessum Messíæ fyrirrennara; og hann finnum vèr hiá gudspiallamanninum Jóhannes (Matth. 3 kap. Marc. 1, 1—8. Lúc. 3, 15—18. samanb. Jóh. 1, 15—36). Hvad olli sorniskillrar manumergdar vid Jesú sídstu komu til Jerúsalem, herma þeir 3 fyrstu gudspiallamenn oss ei med liósum ordum; en Jóhannes skrifar oss, ad þad verid hafi Lazari uppvakníng frá daudum, er olli þessa mann-safn-adar (Jóh. 12, 9—19). Ad Jesús ad fullu deydi á krossinum, um þad eru allir gudspiallamenn-irnir samsaga, enn siónarvottúrinn Jóhannes sannar þennan sinn trúverda vitnisburd med so örækum rökfemdum, ad ei leikur þará hinn minsti efi (Jóh. 19, 34. 35). Einnin stadfesta allir gudspiallamennirnir Jesú upprisu frá daudum; en hvorn fysir ei ad lesa nokkud meira um þennan höfud-atburd, enn þá ad vísu mikilvægu, en þó stuttu frásögn, er Matthæus hefir fært í letur? (ad líkindum, þar sá tilburdur var lesurum hans í so frískn minni, ad greiniligri stadfestíngu mátti ofaukid þykia) og hvorsu eflist ei vor trú af þeim greiniligleiká í frásögum fylgiandi gudspiallamanna, sem er því meiri, sem fleiri þeirra segia frá! og hvílíkt heill fyrir oss, ad sá atburdur, sem er grundvöllur vorrar kristiligu trúar, er sannadur med so mörgum og í tilliti til höfud-atridisins, sam-hliódandi vitnisburdum. A' líkan hátt upplýsast

optsinnis þúngskildir talshættir og rædur af einni gudspiallabók af ødrum stødum, sama innihalds, í annari. Hvad Jesús t. d. meinar med synd á móti H. Anda má ad sønnu ráda af samanhenginu hiá Matthæus og Lúcas; en Marcus bætir fám ordum vid, er upplýsir þenna talsháttt (Marc. 3, 29. 30). Hvad Jesús meinar med enum ríka, hverium þad er afar torsókt ad koma í Guds ríki, útþýdir sami gudspiallamadur fyrir oss (sem fyrr er getid), þá hann gefur ad skilia, ad Jesús ymist segir "þeir ríku" edur "þeir, sem stóla uppá aud sinn" (10, 24). Þad svar, er Jesús eptir Matth. 12, 48—49 gaf þeim, er søgdu honum, ad módir hans og brædur vildu tala vid hann, giørir þad ásigkomulag liósara, er Marcus bætir vid, ad téd frændfólk hans, af ótta fyrir ad hann ørmagnast mundi af starfi sínu, hefdi viliad kalla hann inn frá fólkmeigdinni (Marc. 3, 20. 21. og v. 31—35). Þau skin-rok, er Pharisæarnir brúkudu til ad bera Jesú helgidags vanhelgun á brýn, jafnvel þótt hann sem optast, med ordi einu læknadi siúka, hefir Lúcas hinum fremur med skíríngargrein sinni (13, 14) giørt oss skilianlig. Jesú svar uppá þad tvøfalda spúrsmál lærisveinanna (Matth. 24, 3): nær Messias mundi koma til ad straffa þá harðsvíradu Júda, edur med ødrum ordum, hvonær Jerúsalem og ríki Júda mundi eydileggiast, og: nær Messias koma mundi til ad dæma alla verøld, finnum vér

skilmerkiligast skráð af Matthæus; eins og þará-móti þær spámannaligu hugmindir og líkíngar, í hvöriar fyrirsögn hans um Israelsríkis eydileggíng er innsveipuð, standa hiá Lúcas með berum og eig-inligum ordum (21, 20).

Margopt upplýsir það eina rædu, að menn viti tildragandu hennar. Hann hefir einn guds-spiallamadur undanfelt við ymsar Jesú rædur, annadtveggia til málastyttíngar, eda þared hann, þótt giörla kynni innihald rædunnar, vissi ei glögg-liga, við hvört tækifæri hún var flutt, og þar-ámóti fylgt ödrum, er þessu var betur kunnugur enn siálfur hann. Þá þessu er so háttad, stodar það miög að berá einn þeirra saman við annan. Það sem Jesús t. d. segir Lúc. 16, 16—18 er skilianligra hiá Matth. 5ta og 11ta kap., hvar vér siáum, við hvört tækifæri það var sagt. Hiá Marc. 10, 31 finnst alleina höfuð-inntakið úr Jesú svari uppá Péturs Postula eigingiarna spursmál v. 28. Skilmerkiligra er Jesú ansvar hiá Matth. 20, 1 f., hvar það er upplyst með eptirlíkíngunni um verkamennina í víngardinum. Á sama hátt er alleina höfuð-inntakið af ymsum Jesú rædum framsett af Lúc 17, 1 – 6; tildragandan og rædurnar siálfar má finna hiá Matth. í 18 og 17 kap.

Þó að þessu sé so varið, megum vér ei leida oss í hug, að með því að sömu rædur ei hvör-vetna eru í samjöfnu samanbandi hiá einum sem ödrum gudspiallamanni, að þær þarfyrir af þess-

um edur hinum muni rífnar vera úr réttu samhengi. Vel gat þad hendt, ad Jesús hefdi mælt sóm ord vid fleiri tækifæri, og til þess bar ad vísu naudsyn, ad þau ítrekud væru, þá þau skyldu í minni festast. Jesú fjallprédikun hiá Matth. 5 til 7 kap. líkist mjög Lúc. 6, 20 f. hafa því margir meint, ad rædan sé hin sama, alleinä ad Lúcas hafi stytt hana; en vera má ad þad sé ein önnur, edur ödru sinni haldin ræda, í hvorri hann bædi med sömu ordum og med nokkut breittum ordatiltækium, hefir ítrekad mikinn hluta þess, er hann ödru sinni hafdi sagt. Soleidis flytur Lúc. 8, 16—18 og mikinn part innihalds ens 12 kap. er Matth. hefir framsett í ödru samanheingi, án efa til þvílíkra spakmæla, sem Jesús af ásettu, sökum þeirra mikilvæga innihalds optsinnis hafdi ítrekad. Eptirlíkíngin hiá Lúc. 19, 11 f. og sú hiá Matth 25, 14 líkiast allmjög hvör annari; enn þær eru mismunandi í tilliti til tídar, stadar og inntaks. Hin sídsitóda er um Jesú komu til sídsta dóms, sú fyrsta um komu hans Júdum til hegníngar. Eins er fleirum atburdum varid er í gudspiallabókunum ritadir standa, og sem ei mega mistakast, þó hvorir séu ödrum líkir. Bædi hiá Lúcas 7, 37 f. og Matth. 26, 6 f. er frá því skírt, ad Jesús var smurdur af qvinnu nokkurri í þess manns húsi, er Simon hét. En allar kríngumstædur syna, ad þad ei er einn og samr, heldur tveir áþeckir tilburdir, er báru vid sinn í

hvert sinn. Á annann hátt skrifar Jóhannes 1, 35 f. frá kollun þeirra Andreas og bróður hans, Jóhannis og bróður hans til að gjörast Jesú lærisveinar, enn þeir Matth. 4, 18 f. og Lúcas 5, 1 f. herma. En hvorki er tíð né staður hinn sami, er þo fór framm. Jóhannes segir frá þeim fyrsta kunnugleik, er téðir lærisveinar komust í við Jesú; hinir aðrir guðspjallamennirnir um þá kallan, er þeir feingu til að gjörast stöðugir fylgdarmenn hans. Eptir sögu Jóh. 2, 13 f. rak Jesús kaupverslunarmennina út úr musterinu, þá hann hóf sitt kénnimannliga embætti, og, sem hinir votta, þá hann endti það. Á téðum stöðum er ei sagan söm. Jesús hefir tvísvar gjört það, er þar segir.

Það er áður áminnst og sérhver lesari mun það strax skynjað fá, að Jóhannes guðspjallabók hefir nokkurskonar sér eiginligt einkénni til að bera. Hún er ei alleina að innihaldi, heldur einnin að því leyti, hvernin þar er að orði qveðið um hinn guðliga sannleika, ólík hinum guðspjallabókunum. Í ræðum þeim, er Jóhannes hefir uppskrifaðar eptir sig látið, brúkar Jesús marga einkénniliga talshætti, ymsar eptirlíkingar og hugmindir, er annaðhvert öldúngis ei, eður mjög sjaldan koma fyrir í 3 undangángandi guðspjallabókum og sem ei hvervetna upplýsast, þó innihald hvorutveggju sé samanborið. En engu að heldur mega leikmenn óttast fyrir, að bók þessi sé þeim

þúngskilin. Því þótt einstöku stadir útheimti, til ad fá þá ad fullu skilid, ad menn beri kénsl á þá lifandi Júda hætti, þá er þó, er yfir alt er litid, ordfæri þad, er siálfur Jóhannes og hiá honum talandi Jesús, hefir, so tilgérdarlaust, ad þad skilia so leikir sem lærdir. En þann eiginleik má lesarinn einkum hafa til ad bera, ef honum skal gédiast ad þessum heilaga rithöfundi; þad er nl. audmiúkt sinnislag áþeckt barnanna og sást á sanníndi; því einginn ritsmidur getur midur verid sérvitrum sérgiædíngum ad skapi og audsliggiligri, enn Jóhannes En tökum vér med honum þátt í enni diúpu lotníngu fyrir Jesú, sem födursins eingétna syni, í enum inniliga kiærleika og trausti á honum, af hverin sál þessa Postula giörsamliga inntekin var, þá munum vér finna, ad Jesús ei nokkrusinni gat ágiætligar talad, en hann giörir hiá Jóhannes, þá gédiast oss ad þesu sannleikans tilgérdarlausa ordfæri og skyniom þá, í þad innsveipudu, diúpfæru meiníngu. Hver er sá lesari med þvílíku hugarfari er eigi hægliga skilii, í hverri meiníngu Jesús kallar sig liós, veg, sannleika, uppcrisuna og lifid, lífsins braud, víntréd, hirdir, dyrnar til saudahúsins o. s. fr. Alleina ef vér finnum med oss, ad vér þörfnumst Jesú, sem vors guddómliga frædara og frelsara. sem máttarstólpa vorar trúar og vonar, þá er sem vér finnum lykilinn hiá siálfum oss, til ad uppliúka helgidóminum fyrir oss; þá munum vér fá fullan

skilníng um hvad Jesús meinti med því, ad hans nafns sonnu játendur skyldu koma til hans, væru og yrdu í honum, væru í sameiníngu med honum, fríudust fyrir hann, væru ecki hér ad nedan, ei af þessari veroldu, o. s. fr. Jafnvel hin kroptugasta, og ad eg so ad ordi qvedi, diarfasta hugmind, er kémur fyrir í bók þessari "ad éta Jesú líkama og drecka hans blód" (Jóh. 6 kap.) mun ei fæla hinn andliga sinnada lesara frá Jesú, eins og fordum þá holdliga sinnudu tilheyrendur; því hvor sem af eigin reynslu veit, hve ríkuglig næríng fyrir hid andliga lífid er falid í Jesú lærdómi og endurlausn, hann mun ad vísu skynia anda þessarar hugmindar Eigi er heldur hætt vid því, ad hinn eptirþánkasami og hógværi lesari taki sér af þessu gagnorda og þýdíngarfulla ordalagi tilefni til hérvillíngs-grillna. Ef vér alleina lesum þær rædur, í hverium fyrrtéd ordatiltæki koma fyrir optsinnis frá upphafi til enda, og med þeirri eptirtekt, er Jesú ord verdskulda; þá munum vér komast ad raun um, ad hann siálfur útlistar þad sem innihelst í þessum talsháttum. Soleidis skiptir hann opt á víxl t. d. þeim ordatiltækium "ad vera í honum, ad vera í sameiníngu med honum" o. s. fr. og þeim ennþá audskildari", ad heyra hans raust, trúa á hann, fylgia honum, hafa hans bodord og halda þau, nióta hans fagnadar, og þvíl., og hvar finnum vér þá betri útskírara Jesú orda, enn siálfan Jesúm.

Optsinnis skrifir Jóhannes, og það ástundum miög greinillga tildraganda enna leingri ræða, er hann hefir uppskrifað og framsetur undir eins það sjónarmið, hvaðan þær gaumgiæfa eigi. Þetta má lesarinn sér í hug festa, því af því verður giørvalt efnið liósara. Ef vér munum það, þá vér lesum ny-umgétna ræðu Jóh. 6, að hún ak-vikaðist af enni undangeingnu yfirnáttúrligu mettun so margra og af enni gíruga fysn, er hinn dauðadoppuligi lýður ól til einberrar líkamligrar nautnar og tímanligs avinníngs af Jesú; þá skilium vér giørr bæði meiníngu enna hugminds-arligu orðatiltækia í ræðunni og orsøkina, hvers-vegna hann af ásettu ráði valdi so stórligar hug-mindir. A líkan hátt stendur frásagan um þann af Jesú læknaða sjúkling við Bethesda damm (Jóh. 5, 1—16) sem inngángur til fylgiandi ræðu (5, 17 f) og enn fremur bendir Jesús til þessa stórmerkis í ræðunni í 7, 21 f. A hveriu þeir skinhelgu Pharisæar so miøg hófðu steytt sig. Vér siáum af þessum dæmum, hve nauðsynligt það er, til að skilia ræðurnar í guðspiallabókunum, ná-qvæmliga að gaumgiæfa samanheingið millum þeirra og tilburða þeirra, er gaf tilefnið.

Það má oss annars ei undarligt þykia, þó ymsar af þeim stuttu Jesú ræðum hiá Jóhannes, t. d. í 7, 37—39 *) ástundum virðist oss ofstuttar

*) Þessi staður er einn þeirra áður áminnstu staða hiá Jóhannes, er útheimtir þekkíng á

edur sundurslitnar. Þad leidir bædi af því, ad gudspiallamodurinn, til ad umflýa ordafiølda, optsinnis ei vildi uppskrifa giørvalla ræduna, er Jesús hélt, heldur merkustu greinir hennar, edur alleina høfud-inntakid og sem siálft talsefnid, sumt part einnin af því, ad þad sem optast ei eru eigintligar rædur, heldur samrædur, er Jóhannes hefir uppskrifad. Ad vér betur lærum ad þeckia og dádst ad vorum gudliga frædara, giørir hann oss kunnuga þeim mønnum, til hverra hann talar og setur oss midt ámedal enna ýmsu flokka, er stódu umhverfis hann og lætur oss heyra atqvædi þeirra og dóma um hann. Látum oss leida Jesúm oss fyrir hugskotssiónir, staddann í musterinu, medal harla ólíkt sinnadra manna. Mektarmennirnir, flestir af Pharisæa flokki, edur eins og Jóhannes opt kallar þá «Gydíngarnir" nl. stýrmenni Júda, svarnir fiandmenn Krists, hlýddu ávalt á hann med óvilia, misskildu og med ásetníngi rángsnéru ord.

---

háttum. Gydínga. Júdar pløgudu nl. á sídsta degi laufskála-hátídarinnar (er haldin var til endurminníngar um Guds undrunarverdu umønnun fyrir forfedrum þeirra í eydimørkunni) ad sækia vatn í Silóams brunn og bera þad med lofsaung inn í musterid og hella því vid altarid, til ad géfa tilkynna, hvørsu Gud hafdi borid umhyggiu fyrir forfedrum þeirra í enni vatnslausu eydimørku, og ad þeir beiddust hans umønnunar fyrir sig siálfa. Af þessu tók Jesús tilefni rædu þessarar, sem Jóhannes siálfur í 39. v. lýsir.

um hans. Aðrir ólu betri þánka um hann, dáðust að hans guddómligu verkum, en vóru þó tvílráðir um margt og steyttu sig á hans alkunna lítilsiörliga ætterni, so þeir ei giörla vissu, hvað þeir skyldu um hann meina, sífeldt reikandi millum trúar og vantrúar. Afar-fáir báru sanna virðing fyrir honum og ennin þessir vóru spiltir af mörgum hleypidómum, so einginn skildi hann að fullu. Með því að tilheyrendur Jesú vóru so margbreyttir, er það hægt að skilia því ræða hans breytist so miøg; og liggur það einnin í augum uppi, því ræðu hans víkur áslundum ødruvísi, en vér øndverdliga hugdum. Í enum 8da kap. t. d. talar hann í 30 og 31 v. til nockurra þeirra manna, er treystu á hann: en í enu 33 v. slíta adrir ræðuna er af illrædi hrømmsuðu hið sídsta orð og nú hlaut ræðan að qveða við í ødrum tón.

Ødruvísi er þessu háttað með enar sídstu ræður, hiá Jóh. frá 13 til 17 kap., hvar hann á veginum til dauða síns qveður vini sína. Þar eru alleina lærisveinar hans við staddir, þar lýsir sér hvervetna einn og sannur adalandi, nl. viðqvæmasta ástsemd af hiartans grunni. Og, þá vér hugleiðum, hversu lítt þessir hreinskilnu, en breisku, vinir skilið gátu Jesú ráðstofnan, mun oss ei furða þau einfeldnisligu spursmál, með hverium þeir sipa fyrir honum, þá hann flutti ræður. Hversu opt sem hann hafði fyrirsagt þeim, hvað fyrir honum lægi, gátu þeir þó einganveginn látið það

samþyðast smíndun sinni um Messías, að Jesús skyldi deya, og þókti því líkara, að alt hvað hann um það efni rædt hafði, mundi, sem so margt annað í Jesú ræðum, skiliast eiga eptir orðunum. Fyrir oss, er vitum málalok Jesú ráðstofnunar, er því þessi Jesú skilnaðar-ræða so auðskilin, sem hún var rádgátulig og vandskilin fyrir hina á þeim dögum. Soleiðis ber nauðsyn til, ef skilia viljum Jesú ræður hiá Jóhannes, að vér athugum, hvörir vóru Jesú áheyrendur í hvört sinn, og um það munum vér komast að raun, bæði af tilbendíng guðspiallamannsins, og einninn gióta ráðið það af ræðunnar eigin innihaldi.

Þá höfuð-reglu hefir Jóhannes, eins og hinir guðspiallamennirnir, valið sér, að vera fáorður. Þeir segia nóg, til að menn skilia þá, en ekkért segia þeir að þaulauslu og þeir krefiast lesarans giörvalla athyglis. Eitt dæmi vil eg héruppá færa til, af frásögunni um viðræðu Jesú við ena samarisku qvinnu og um það færi er hann þá fékk til að kénna rétta trú landsmönnum hennar. Eptir að hann hafði með fögru hugminda orðsæri lýst fyrir lærisveinum sínum (Jóh. 4, 32—36) hve ómeingud gleði það var hönum að nota þvílík færi til að útbreiða Guðs ríki á jörðu, segir hann (v. 35): "segið þér ekki, að enn þá séu 4 mánuðir til kornskurðartímans? en — segi eg yður — lítið upp og siáið akurlöndinn, að þau eru þegar hvít til kornskérunnar". Á þessum stað hefði Jóhannes

ad vísu gétad látid þá athugasemi gánga á undan: ad Jesús hafi so ad ordi qvedid, þá hann leit Lydían þyrpast þángad frá stadnum, og þá mundi einnin hinn ecki allgaumgiæfni lesari strax skynjad fá, ad það var hid æskilign tækifæri, er sá frá Sichem komandi mannfiöldi gaf honum til ad ávinna menn til ens himneska ríkis, er hann likir vid uppskéru fullstiófs akurlands. En hvad þurfa þótti, hafdi hann þegar sagt í því undangángandi 29 og 30 v, og giörir því rád fyrir ad það sé lesaranum ennþá í ferskú minni.

Ef hinn gódi Kristni, er leitar uppbyggíngar í heilagri ritníngu, samteingir það litla, sem sagt er um enar 4 gudspiallabækur og þá, ad undan gefnu ávísun til ávaxtarsams biblíulesturs; þá vona eg, ad hann hér finna muni nockurn leidarvísir til þess augnamids, er hann fyrir augum hefir. En fyrst og fremst er, og verdur þó ávalt það hugarfar, med hvöriu hann tekur sér þessa heilögu idiu fyrir hendur. Hafi hann skynbragd á enu ekta tilgérdarleysi, er hvervetna lætur sig í liósi í gudspialla söguunum, mun hann lesa þær med gledi. Veri hann lotníngu fyrir gudspiallabókanna innihaldi sem fyri Guds ordi, þá sleyfir hann sig ei á því yfirordulíga, er þar kémur og mátti koma fyrir. Og leiti hann nærsúgar fyri trú og von sína í því lífsins ordi, er þar giörist heyrum kunnugt, þá mun hann leggia kapp á ad skilia meiníngu þess. Med þvílíku hugarfari mun

einnin sá lítt mentadi lesari miklu betur skilia Jesú ræður, enn enir fyrstu áheyrendur, því hafi þeir haft yfirburdi fram yfir hann ad því leyti, ad fáir betur vissu grein á háttum og meiníngum Júða, til hvorra Jesús bendir, so er hann þó þarámóti þeim fremri að því, að hann veit málalok Jesú ráðstofnunar, er upplýsir orð hans, sem allopt vóru enum fyrstu heyrurum hans dulyrði ein. Því sagði Jesús siálfur, að þó Jóhannes skírari væri mikill spámaður, mundi þó hinn minnsti í himnaríki honum meiri vera (Matth. 11, 11) *), þ. e. að þá hans kyrkia væri stiptuð á jörðu, mundi ennin hinn unkomuminnsti kristni, er ól einlægni í hiarta sínu, betur géta gripið þá ráðstofnan, er hann grundvallaði mannkyninu til frelsis, betur skilið sá hans fagnaðarríku kénníngar, enn hans mikli forgaungumaður siálfur Jóhannes.

Að annars frásögur guðspiallamannanna eru stuttar, og ei leysa úr mörgum forvitnisligum spursmálum, er vér frammsett gétum, má oss ei til ásteytíngar vera; oss ber þarámóti að prísa þá guðdómligu speki, er ól onn fyrir að þessi dyrmætu minnismerki um Jesú æfi og hérvist féllu oss í skaut; því einmidt það sannfærir oss um, að þau eru lögud eptir allra þörfum; þau frá-

*) At með "himnaríki" ei hvervetna meinist himnesk sæla, heldur optsinnis undirbúníngur til hennar, nl. Jesú kyrkia á jarðríki, er áður ávikið.

fæla ei hann einfalda lesara með orðafiolda og, þó veita þau øllum, lærðum og leikmønnum næga ávíssun. Látum oss lesa þau og lesa þau opt, og vér munum komast að raun um, að þau gagnorð og fáorð veita oss alt, er mun oss þorf vinna til að trúa á Jesúm, sem son Guðs og endurlausnara heimsins, og meðframm undirbúa oss til at lesa N. T. fylgiandi heiløgu ritgiørdir, í hvørium hans ráðstofnun mønnunum til frelsis liósar er oss fyrir siónir sett, og sú diúpsæra meiníng, er falin var í orðum hans, náqvæmar útskírist.

---

## Postulanna Giørníngar.

Þessa bók hefir Lúcas einnin fært í letur og má hana í raun réttri álita sem framhald guðspiallabókar hans eður sem annan part hennar. Í hinum fyrri partinum hefir hann skírt oss frá, með hvørium hætti Jesús siálfur plantaði Kristindóminn á jørðu; í þessum parti eðr í Postulanna Giørníngum, segir hann oss frá, hvørnin Kristindómurinn jókst og útbreiddist fyrir meðverkun hans anda. Þó megum vér ei láta titil bókarinnar leiða oss á þá trú, að vér í henni fundit gétum frásagnir um alt það, er postularnir unnu og athøfdust til að útbreiða Jesú ríki á jørðunni. Nei, eins og vér í guðspiallabókunum finnum alleina lítið, en þó nægiligt, val Kristi merkustu ræða og giørn-

ínga, sömuleidis hittum vér í þessari bók minnstan hluta þess marga og mikilvæga, er Postularnir giørdu og lidu fyrir Christi sakir. Pad eru sérílagi þeir 2 Postular Pétur og Páll, er koma oss fyrir siónir í þessari frásøgu og hvørra athafnir gjørdir innigrípast í mestum hluta bókar þessarar. En hvørsu svarar ecki val þetta til augnamidsins! Jesús kalladi Pétur klett, á hvørium hann reisa vildi kyrkiu sína (Matth. 16, 18) og hér stendur hann fyrir augum vorum sem biarg, sem stiftari ens fyrsta kristna safnadar. Páll hefir med ordum og ritum afrekad hvørium ødrum medal Postulanna tvíkilvægast til Kristindómsins frama og útbreidslu; en hann hafdi ei, sem hinir Postularnir, notid samneytis med siálfum Jesú; og þat hagnyttu enir mørgu mótstødumenn, er hann, einkum sem heidíngia postuli, hafdi medal júdalundadra kristinna trúmanna, til ad nidra hønum siálfum og kénníng hans. Hvørsu naudsynligt er þad þá ecki bædi fyrir lidna og komanda æfi, ad kosníng Postula þessa af Drottni siálfum yrdi heiminum kunngiørd, og hvørsu omissanlig er ei sérhvør frásaga, er þéna kann til ad upplýsa lífssøgu þessa huggprúda stridsmanns Jesú Christi. Hvort ednr ad hvad miklu leyti Lúkas, þá hann valdi atburdi til frásagnar, hefir sér medvitandi verid þessa augnamids, er engum lióst, med því ad hann siálfur ei getur þess, en hinu megum vér trúa og þacklátir vidurkénna ad þad ecki er skéd án vísdómsfullrar

stiórnar hinnar guðdómligu forsiónar, að ámeðal so ótöluligra hluta, er Postulanna Giörníngar innihalda, einmidt það er valið, er þar finnst ritað.

Innihald.

Vér getum þá í tilliti til aðal-innihaldsins og enna stakksömu afbragðsmanna hægliga skipt þessari heilögu frásögu í tvo hluti. Í enum fyrstu 12 kapitulum, skrifir frá útbreiðslu Kristninnar meðal Gyðínga og Samarítumanna, og er Pétur Postull þar frumqvöðull; í þeim síðari 16 kapitulum, er herma frá boðun og útbreiðslu kristinnar trúar meðal heiðinna þióða, lítum vér Pál verkstióra þessa mikla þrekverkis. En so að lesaranum þess auðveldara verði að líta yfir giörvalt innihaldið, vil eg í stuttu ágripi framsetia þá merkustu viðburði, er bókinn inniheldur. Eptir Christi himnaför sviptust Postularnir hvervetna hans líkamligu nærvistum (Post. G. 1, 1—14). Þeir kiósa nyan Postula í stað Júdasar (v. 14—26). Hvítasunnan kom og Postularnir, útbúnir krapti af hæðum, hófu nú stórvirki þetta. Péturs kraptfulla ræða snyr 3000 manna til réttrar trúar; það var grundvöllur ens fyrsta kristna safnaðar í Jerúsalem (siá 2 kap.). Með kraptaverki nockru og sagnorðri ræðu ávinnur téður postuli söfnuðinum allmikla sveit manna (4 kap.). En nú vaknar ílvilii Christi fornu fiandmanna. Menn stefna Postulunum fyrir hið stóra ráð í Jerúsalem, en þeir halda

einarðliga svörum uppi, og ráðið mátti láta þá lausa, eptir að það hafði, að viðlögðum hótunum, streingiliga bannað þeim að prédika um Jesúm, og urðu bræðurnir þeim einkarfegnir. Söfnuðurinn var nú orðinn 5000 manna að tölu og vóru þeir allir með einum hug og hiarta (4 kap.). Þó flekkast samband þessara heilögu manna af svikræði tveggia vondra meðlima nl. Ananías og konu hans Saphíru, en bæði þau straffast með bráðum dauða. Þess meir sem álit Postulanna vex, því meir espast heipt fiandmanna þeirra og Postularnir eru höndum teknir og þeim kastað í fángélsi; almætti Guðs frelsar þá. Allir standa þeir ásamt í musterinu og flytia fyrir lýðnum kénníngar um Krist. A ný eru þeir færðir fyrir ráðið, er áqveður þeim bana; en einn meðlimur þess, hinn spaki Gamaliel frelsar líf þeirra. Þeir húðstrýkiast, og með hótunum um harðara straff, ef þeir framar vogi að fræða folk um Krist, er þeim frelsi géfið, en — þeir kunngiera á ný, að Jesús er Messias (5 kap). Misklíð nockur í söfnuðinum um uppheldi og ecknaumönnun ollir því, að valdir vóru 7 forstoðumenn fátækra; einn ámeðal þeirra var Stephanus. Þessum sannleikans sköruglíga talsmanni, géfa menn það að sök, að hann hefði lastað Móses; en hann forsvarar sig, og er gryttur til bana af enum heiptarfulla múg (6ta og 7da kap.) Nu nær ofsóknin giörvöllum söfnuði kristinna manna, og

flya þeir nú allir frá Jerúsalem, að Postulunum undanteknum; en þessi atburdur olli því, er Drottinn vildi vera láta: að Jesú lærdómur útbreiddist vídsvegar í Júdalandi og Samaria og hóf Philippus Postuli á enu sídar nefnda landi fyrstur manna verk þetta, er sídan var fullgiört af tveim þángað frá Jerúsalem sendum Postulum, Pétri og Jóhannesi (8da kap.). Enginn medal ofsóknarmanna Jesú safnadar lét so mikit ofurkapp og áleitni í liósi sem Pharisæarinn Saulus. Sem eyrindsreki Gydíngaráðs tekst hann ferð á á hendur til Damascus til þar að komast yfir játendur Kristi, en á veginum þángað tekur hann ámóti enni yfirnáttúrligu köllun af Drottni siálfum, hann snýst og giörist nú af Jesú heiptugasta fiandmanni hans ötulasti talsmadur. Nú verdur hann höfuð-matbacki ofsókna Gydínga, og eptir ymsar lífshættur bædi í Damaskus og Jerúsalem, senda trúbrædur hans hann til fædíngarstadar hans, Tarsus í Ciliciu. Ámedan þessu fór fram, útbreidir Pétur med kreptugum rædum og verkum Jesú lærdóm hvervetna í Júdalandi (9 kap.): en ennþá hafdi hann og hinir Postularnir þá meiníng, að alleina landsmenn þeirra og samtrúendur skyldu giörast medlimir Messiæ ríkis. Við yfirnáttúrliga syn, gengur eitt nytt liós upp fyrir sálu hans og hann sannfærist nú um, að Jesú rádstofnun nádi til heidinna manna. Eptir að Drottinn hafdi honum það eyrindi á hendur falið

kénnir hann Jesú kénníngar höfuðsmanninum í Cæsarea, Cornelíus að nafni, er að vísu var Proselyti júða, það er: hann trúði á einn Guð, en var þó af Heidíngium kominn og humskorinn (10 kap). Júðar þeir í Jerúsalem, er tekið höfðu kristna trú, hneixluðust á þessari breitni Péturs, en létu sér þó segiast, þá hann nágvæmar útlistaði þetta málefni fyrir þeim. Það var þá allsína einn heiðinn húsfaðir og húsmóðir með húsfólki er snerist til kristinnar trúar fyrir fortölur Péturs. En nú kéndu þeir, er víðvegar höfðu tvístrast í ofsókn þeirri, þá Stephanus lét líf sitt, kristin fræði, ei alleina Gyðíngum í Phœnicia á Kypurey, og í Syrlands höfuðborg Antiochía, heldur og einnin heiðíngium í téðri borg, og varð það miög heppiliga ágengt. Þá fregnin um þetta barst til eyrna safnaðarins í Jerúsalem undi hann á ný ei vel við, með því hann var um of vandlætíngarsamur fyrir sakir umskurnar og Mósis laga og sendir nú almennt virðtan mann og félaga sinn, Barnabas að nafni, til Antiochia til eptirgrenslunar um þetta málefni. Upplýstur af anda Drottins veitir Barnabas því meðhald, að heiðíngiar, er tekið höfðu rétta trú, giörðust meðlimir Jesú safnaðar, sækir Pál til Tarsus og erfiðar siálfur með samfylgi heilt ár með Páli til útbreiðslu réttrar trúar, so vel var ágengt, í fyrrnefndri Syrlands höfuðborg, hvar Kristindómsins játendur fyrst fengu nafnbót og vóru "Kristnir" kall-

adir (11ta kap.). Amedan gékk á ny upp stormur mikill yfir safnad krúadra í Jerúsalem. Jacob Postula hinn eldra lætur Heródes kóngur Agrippa hálshöggva og Pétri er varpad í hardt fángélsi. En eingill Drottins frelsar hann um nætur skeid, og eptir ad hann hafdi óvænt synt sig heilaun á hósi á samkomu brædranna, er hugsiúkir vóru um, hvörsu honum mundi vegna, leitar hann tryggs hælis á einhvörium stad fyrir utan borgina uns stormur þessi sefadist.

Nú byriar ny deild þessarar heilegu frásögu, í hvörri Páll er forgaungumadur. Híngad til var kristni bodud vídsvegar á Júdalandi og í Samaria medal allmargra Israelíta erlendis, og einnin hafdi henni gata greidst til heidíngianna: en nú var su tíd kominn, þá Jesú nafn skyldi tignast vídsvegar medal heidinna þióda. Frá Antíochia, sem nú var höfudból kristinna trúmanna fyrir útan Júdalands takmörk, tók Páll og samlagsþión hans Barnabas ferd á hendur, tilkvaddir þartil af anda Drottins, ad fiölga Jesú ríkis borgurum. Í þeim ásetníngi fara þeir um ymsa stadi á eyunni Kypur, samt borgirnar Pergæ í Pamphylia, Antiochía í Pisídia (sem er önnur enn fyrrtéd borg á Syrlandi), Iconium, Lystra og Derbe í Lycaonia. Hvervetna, er þeir komu, bodudu þeir gudspiöllin fyrst Gydíngum, er þeir fundu í stödunum, og þá þessir dárudu hinn krossfesta Messias, hvurfu þeir til heidíngianna. Aleit-

inni mótstødu mættu þeir hvervetna, einkum af enum vantrúudu Júdum og grimmliga var þeim misþirmt, en ei ad sídur lukkadist þeim med fullíngi anda Drottins ad auka tølu Jesú játenda, einkum ámedal heidíngia, og ad stipta ymsa kristna søfnudi Þeir hverfa nú aptur og heimsækia sømu stadi, styrkia ena nyvordnu brædur og koma loks til Antiochía á Syrlandi, og géfa skírslu um frámgvæmdir sínar. Soleidis lykur hinni fyrstu kristni bodsferd (13di og 14di kap.). En nú fystust nockrir medal kristinna manna, er vóru lundlíkir Júdum, ad naudga þeim kristnu í Antiochía, er heidnir høfdu verid, til umskurnar og ad halda Mósis lagasetníngar. Akafar deilur rísu af þessu. Søfnuduinn sendir Pál, Barnabas og fleiri til Jerúsalem til ad láta alla Postulana dæma um þetta mál; tédir eyrindsrekar komu aptur til Antiochía med ritadan úrskurd frá Postulunum og øldúngum í Jerúsalem, er áqvad, ad heidíngium, er tekid høfdu kristna trú, skyldi ei ofþyngiast med umskurn né ødrum sídareglum Mósis; en þeir skyldu halda sér frá offurmáltídum heidíngianna og frá því ámedal þeirra so miøg tídkada lauslæti, samt, so ad þeir Júdar, er snúist høfdu til réttrar trúar, eigi skyldu steita sig á því, bæri mennum ad hafna nautn blóds og þess, sem kafnad er. Soleidis fridstiltust enir umvendtu heidíngiar. Nú tekst Páll adra kristnibodsferd á hendur, ei sem í fyrra sinni ásamt Barnabas, en med ødrum

kénnara, Sílas að nafni, er komin var frá Jerúsalem; og við þessa markverðu fer útbreiðist Jesú Evangélii ljós frá Asia yfir til Európa. Nefniliga eptir að Páll, ásamt meðþjón sínum, hafði heimsókt ena áður stiptuðu söfnuði í Asia, og frá einum þeirra tekið sér fylgdarmann og nýan samþjón, er Tímótheus hét; fór hann ferðar sinnar, eptir tilstuðlan Drottins yfir til Macedonia; hér kénnir hann Jesú guðspjöll í staðunum Philippi, Thessalonica og Beroea, og þrátt fyrir allar ofsóknir og misþirmíngar, er hann og meðþjónar hans máttu sæta, skildist hann hvervetna svoleiðis við, að enir blómligustu avextir tóku að spretta af sáðfræi því, er hann útdreifði (15 36. 17, 13). Án afláts ofsóktur af ósundarmönnum sínum, Gyðíngum, mátti Páll skilia meðþjóna sína Tímótheus og Sílas eptir í Macedonia, og siálfur leita friðlands og hælis í enni fiarlægu Athenuborg. Einnin í þessari borg, þessu so nafnkunna vísinda og lista merkasta setri á Griklandi, snéri Postulinn nockrum til kristinnar trúar, þó hann að veniu ætti þar í deilum við Júða. Frá Athenuborg ferðast hann til Corinthuborgar; þar hann með fulltíngi sinna meðþjóna, er þángað vóru komnir, erfiðar til frelsis heidíngium; því þá Júðar þeir, er þar bigguðu, dárudu hinn guðdómliga lærdóm, skildist hann giersamliga við samkundur þeirra (18, 1—17). Eptir hálfs annars árs dvöl í Corinthuborg, fer

Páll þadan, heimsækir Ephesus og Cæsarea og kémur til Jerúsalem, til ad sækia þar hátíd nockura, og ad líkíndum einnig til ad kynna Postulunum, er þar vóru, frá framgángi þeim, er Jesú kénníngar hafi höfdu í Macedónia og Grícklandi (18, 18—22). Og eptir ad hinn óþreytanligi Postuli hafdi á þessari ferd heimsókt Kristindómsins annad höfudbél Antiochía, og rakid leidina frá einum kristnum söfnudi til annars, til ad styrkia brædurnar í trúnni, ferdast hann til Ephesus sem var borga nafnkunnust í litlu Asia um þær mundir. Eptir ad hafa allslengi og óþreytanliga varid erfidi og orku til ad umvenda Júdum, mátti hann loksins víkia fyrir spottglósum þeirra og ad ölln leiti skiliast vid samkundur þeirra. J tvo ár samfleitt vann hann ad því med yfirnáttúrligri lukku, ad sannleikinn útbreiddist og hiá trúin uppræltist (18, 23. 19—20). Hann ásetur sér nú, ad heimsækia söfnudina í Macedonia og Gricklandi, og upphlaup nockurt í Ephesusborg, er heidnir handverksmenn giördu, hvorra atvinnu vegur rírnadi vid mínkun afgudadyrkunarinnar flytir burtför Postulans þadan (19, 21—40). Hann heimsækir og eftir á þessari ferd félög kristinna manna í Macedonia, samt Achaja edur Gricklandi, hvar hann dvaldi í 3 mánudi (20, 1—3). Eptir þad byriadi Páll med fylgd fleiri manna, ferd á ny til Jerúsalem, til ad birtast þar á Hvítasunnunni og til ad færa þeim kristnu á Júdalandi,

er sêvana vôru, ølmusu þá, er menn høfdu í Macedonia og Grícklandi fyrir hans tilstilli samanskotid. Hann ferdast tilbaka yfir Macedonia, fer sjóleid yfir til Asía, og þá hann nálgast Ephesusborg, heimtir hann øldúngana edur forstødumenn þar verandi safnada á tal vid sig og hvetur þá med einkar snilldri og kraptfulldri rædu til trúmennsku í embætti þeirra. Eptir harmfullan og ástúdligan skilnad vid þá, fer Páll leidar sinnar; og jafnvel brædurnir hvervetna er hann heimsókti á ferd þessari, vørudu hann vid þeirri hættu, er yfir hønum vofdi, þar hann vogadi sér til høfudborgar Júda, rekur hann eingu ad sídur hugrekkur eyrindi þad, er Drottinn hønum á hendur faldi, og kom til Jerúsalem (21, 1—19). Ad vísu géckst þad eptir, sem mælt var, ad mikid óvedur dró upp yfir høfud hønum. Sem Postula heidínna manna høfdu landsmenn hans lagt á hann grimmasta fiandskap, og Júdar þeir, er nyliga vôru af útløndum heim komnir, høfdu þá lygafrétt útberast látid, ad hann teldi Júda á, ad falla frá Móses. Ei birtist hann fyrri í musterinu, enn lydurinn þyrpist ad hønum og þar giørist upphlaup mikid. Høfdíngi ens rómverska lids. er lá í borginni, skundadi þangad og þrífur Pál úr høndum lydsins, en lætur hann þó, sem þann, er ad líkíndum mundi misbrotamadur vera, setia í fiøtur. A veginum til fángelsisins flutti Páll med leyfi høfudmanns sins, kroptuga rædu fyrir alþydunni; en múgurinn

ærdist á ný. Honum er í díblísu varpad, hvar rómverskur borgarréttur fríar hann frá húdstrýkíng, er honum var ætlud (21, 20 22, 30). Daginn eptir var haldid ransak yfir honum í vidurvist Júda ráds; en einnin þar hefdi Páll verid af dögum ráðinn fyrir sakir ædis og ákafa fiendmanna hans ef höfudmadur hersins hefdi ei látid hann í giætslu færa (23, 1—11). Nú taka allmargir Júdar ráð sín saman med vélum ad ráda Pál af dögum; en hinn rómverski hersforíngi, er hann vard þessa var af systursyni Páls, lætur færa hann med hermannafylgd, á næturþeli, til Cæsarea, hvar hinn rómverski landshöfdíngi, Felix ad nafni, hafdi adsettur sitt (23, 13—35). Var þar þá komid á stefnulagi med Rádi Gydínga, og á ný ransókn tekin. Enn hinn fégiarni landshöfdíngi, er vænti, ad Páll med fulltíngi audugra vina mundi þá getu gánga, er leidir til mútu-giafa, skaut málinu af ásettu rádi á frest, so ad Páll mátti í 2 ár sitia fánginn í Cæsarea (24 kap.) Nú verda landshöfdíngia skipti og eptir Felix kom sá höfdíngi, er Festus hét. En þá Páll vard þess vís, ad þessi madur líkasem formadur hans, leitadist vid ad vilna enum voldugu medal Gydínga í því, ad lengia fángélsistíd sína, skírskotadi hann málinu frá landshöfdíngianum til keysarans. Þad rád vard þá ad lyktum tekid, ad Páll skyldi flytiast til Róm. Amedan á þessu stód giördi Júda konúngur med Drottníngu sinni

kynnisferd til landshöfdíngians og fystust þau bædi ad siá og heyra hinn nafnkunna fánga. Nú mætir Páll á ny fyrir prófsrétti og flytur þar í skrautligu samqvæmi forsvars rædu med þvílíku höfdíngs bragdi og sniallmælum, ad kongungur Júda qvad hann vel hefdi mátt lausann láta, ef hann hefdi ei skotid málefni sínu undir keysaran (25ta og 26 kap.). En — Drottinn vildi ad þessi hans trúfasti þénari einnin skyldi kunngiøra hans heilaga nafn í heimsins höfudstad. Asamt nockrum faungum er Páll færdur til skips nockurs frá Afríka, og kom eptir hættufulla og harda útivist og skipbrot vid ey þá, er Melite heitir, ad lyktum til Rómaborgar; þar var fángelsi hans so vægdarsamt, ad hann fèck orddlof ad búa einn útaf fyrir sig, ad eins var hann med lángri festi giørdur áfastur hermanni þeim, er vørd héldt. Sem hans vani var til, flutti hann þar Jesú kenníngar, fyrst Júdum, þarnæst Heidíngium. J tvø ár dvaldi hann þar í sínu eigin leigda herbergi og kunngiørdi øllum, er heimsóktu hann, ad friálsu og óhamladur, Gudsríki (27 og 28 kap.).

Skíríngargreinir.

Allareidu af þessu, í stutt ágrip samansøfnudu innihaldi Postulanna Giørnínga gétum vér rádid, hve mikilvæg þessi heilaga bók sé. Af lestri þessa rits samanborins med enum 4 gudspiallabókum, sannfærist hinn trúandi Kristni um,

(hvad einnin er ritgsfundsins augnamid ad sanna), ad útbreidsla Kristindómsins af Postulunum, líka sem hans fyrsta auglýsíng af Jesú, ei var manna, heldur Guds verk. Þarum þettar bókinn frá upphafi til enda; als þess uppfyllíng, er Jesús hafdi fyrirsagt og heitid vinum sínum, siáum vér hér, ad so miklu leiti sem þad uppfyllst gat í þessum heimi, og hérumbil í 30 ára tímabili, er Postulanna Giørníngar innigrípa. Hann hafdi spád þeim baráttu og hørdu strídi; en hann hafdi heitid þeim sínum anda, og sigri med hans fulltíngi, já dýrdligum sigri. Allt þetta liggur oss fyrir augum opid í bók þessari, sem eitt giørla spámannligt ord, er ad *málalyktum sannadist og uppfylltist*. Vér siáum hér Postula Jesú umskiptum ad taka vid atburdi þá, er urdu á hvítasunnudøgum, hvad ei er unnt ad útlista, án þess þad skéd hafi fyrir nockurskonar hærri medverkun siálfs Drottins. Því þad er ei nein óstyrilát stammvin ímindunar uppliéman, er hreif þá, heldur skiær og óqvikull logi, er tendrast í hiørtum þeirra. Hún lætur sig í lióst, alla þessa søgu á enda, sem hugrecki og kraptur sameinud med forsiálni og hóglyndi. Róliga gánga Postularnir offóknum, fángelsum og daudanum siálfum ímóti fyrir Drottins sakir;* en aldrei steypa þeir sér, án hærri tilhlutunar í háska. Hugdiarfir mæta þeir fyrir enum voldugu medal Gydíngia og Heidíngia og taka óskelfdir sannleikans málstad; en aldrei erta

þeir með ofbeldisfullu kráfsi fiandmenn sína gégn sér *). Ei megnaði nockurs valdsmanna bann, að hræða þá frá að fylgia hærra boði Herrans; ei setia þeir nockru sinni í orðum edur^hadferð sinni til síðu þá virðíngu, menn eru yfirvöldum skyldir að sýna. Fúsliga líða þeir misþirmíngar og áverka þá Herran vill, en þeir frelsa sig með flótta, þá þeir géta, og, samqvæmt boði meistara síns: "verið forsiálir sem höggormar og ósaknæmir sem dúfur" (Matth. 10, 16), færa þeir sér þau meðöl í nyt, sem kristiligt, ei veraldar sniallræði tilbýður, til þess að umflýa háskann **). Með krapti stríða þeir við Judadóm og Heidindóm; en þeir hlífast við hleypidóma Júða, að so miklu leyti, sem sannleikinn leyfði, og vér heyrum þá aldrei giöra gis að Guðum Heidíngianna. Þvílíka menn sýna þeir Pétur og Páll, samt hinir vottar Jesú, sig oss í giörvallri lífssögu þeirra. Soleiðis sameina

*) Þegar Páli eittsinn óvitandi sést yfir í ræðu sinni, þá réttir hann að vörmu spori yfirsión sína (Post. G. 23, 1—5).

**) Siá t. d. Post. G. 23, 6 og fylg. 21, 20 til 24. Það var annars ei hræsni, að Páll, sem á síðsttéðum stað segir, tók þátt í tíðareglum Júða; því þær skyldu fyrst eptir Jerusalems eyðileggíng undir lok líða fyrir þá, er Gyðíngar væru að ætt og uppruna. Að eins máttu ei síðveniur Júða og hættir uppáleggiast Heiðíngium, er krisina trú tóku, eptir sem Páll kéndi.

þeir ráðsnilli og hóglyndi með hugrekki og krapti; og hver er sá, sem ei sér, að það var sannleikans og kiærleikans andi en ei ennar ófstyrilátu símindunar drambsami andi, er hvíldi yfir þeim.

Í bók þessari flytiumst vér gégnum heilar radir furðuverka; á hvern hátt mundu so fáir og máttrírir menn hafa afrekað þvílíkt stórvirki og géfið vorri jörðu aðra ásýnd, ef Herran hefði ei augliósslega með þeim verkað, og samqvæmt heitum sínum, stadfest kénnínguna með fylgiandi furðuverkum? og þó er það ei alleina í þeim yfirnáttúrligu viðburðum, er frásaga þessi hermir oss, að vér siáum Herrans vernd yfir verki sínu; en vér verðum hennar ei síður varir í dásemdarfullri stiórn enna náttúrligu viðburða. Það er ei að eins, þá Postularnir lækna siúka og uppvekia dauða í Jesú nafni, þá Herrans eingill upplykur fángelsis dyrunum og lætur þá útgánga, þá hlekkirnir féllu af höndum Páls og Péturs og fángelsis hlið laukst upp siálfkrafa, að vér formerkium siálfan Guð verkandi Jesú máli til frama; en þá vér lesum (5, 47), hvernin einn furðanligur hugþokki til Jesú Postula, þá Jesú kyrkia var í byriun, bægir Júðum frá grimdarfullum áhlaupum, að ei skyldi hið únga frióf fótum troðast. Hvernveg einn meðlimur Gyðínga ráðs, hinn ráðsniall Gamaliel, giörist eitt verkfæri til að afvenda hreggviðrinu frá Jesú Postulum, einmidt þá bani þeirra sýndist óumflý-

anligur (5, 34—39). Hvørnin hinn fángni Páll á furdanligan hátt frelsast frá daudanum. Þá eidsvarnir bandamenn medal júda høfdu giørt samtøk sín ad ráda hann af døgum (23, 12 f.). Þá mun hinn eptirtektasami lesari í þessum og mørgum þvílíkum atburdum, er finnast strádir í bók þessari, ei sídur enn í þeim yfirnáttúrligu, formerkia forsiónarinnar huldu hønd. Einnin þá vidburdi, er synast sorglígir fyrir Jesú málefni, siáum vér med undrun ad snúast því til framqvæmdar. Hertans trúlyndi vottur Stephanus er af lífi tekinn; geigvænlig ofsókn hrekur Jesú játendur úr átthøgum þeirra; en þessi flótti kemur því til leidar, sem fyrr er getid, ad Kristindómurinn útbreidist fyrir utan Jerúsalem og endimerkur Júdalands. Postularnir offœkiast, kastast í fángélsi, húdstrýkiast; en trú þeirra útheldur prófid, sem skírt gull í eldi, dæmi þeirra lýsir heiminum; þeirra málefni verdur allra velsinnadra málefni, og sérhvør sigur, er sannleikinn vinnur í strídi vid lygina, eflir hennar medkénnenda hughreisti og trúnadartraust til Guds. Páli er díblisøu varpad í Cæsarea og þar haldid í tvø ár fángnum; og ad þessi Jesú ydiusami og vandláti Postuli situr þar so lengi atgiørdalaus, þykir sem ei géti annad en verid bagi fyrir Kristindómsins málefni; Herran veit ad stýra því so, ad þad verdur hønum til frama, því sem bandíngi fær Páll færi á ad flytia Jesú kénníngar í áheyrn gøfgustu

manna, sem nockur annar Postuli híngad til hafdi hlotid adgáng til (25, 22 f.). Málefni ens nafnkunna fánga, uppvekur almenna eptirtekt, og Rómverjar verda þess vísir, ad þeir Kristnu vóru alt annad enn þeir þángad til hofdu meint, nl. ein grein af Gydíngum. Páll flytst fánginn til Rómaborgar; en hve ágiæta ávexti bønd hans báru fyrir Jésú kénníngar, þarum vottar hann siálfur í bréfum sínum (t. d. Philipp. 1, 12—14); og hvílíka verkun þau hofdu á siálf bréf þessi, þad megnar ennþá hver sá kristinn madur ad formerkia, er med medlidunarsømu hiarta les þessi dyrmætu minnismerki eptir einn, fyrir Jesú sakir, fánginn Postula.

Postulanna Giørníngar er þá bók sú, er einginn sølskvalaus Kristinn gétur lesid án sannrar og mikilvægrar uppbyggíngar. Hún þénar bædi til sannfæríngar um vorra heiløgu trúarbragda guddómliga uppruna, og til ad uppqveikia hreinar kiærleikans tilfinníngar í hiarta voru. Næst þeim 4 gudspiallabókum hvar Jésú egid dæmi skín fyrir augum vorum, er enga þá bók í því N. T. ad finna er soleidis setur oss trúna, vonina og kiærleikan í lifandi dæmum fyrir siónir, sem þessi bók; því einginn mannanna sona hefir gengid Jésú nær ad lundarlagi, enn Postular hans; og í þessari heiløgu bók, heyrum vér ei ad eins rædur þeirra, en oss géfur ad líta dád þeirra og framqvæmdir og erum vottar lifnadar þeirra. Vér lærum hér

ad þeckia, hvad hin lifandi trú á Jesúm megnar yfir hiørtum mannanna; hvad ein manneskia orkar ad þola og voga, þá trúin á eylíft líf fyllir sálu hennar. Vér undrumst, hvernin Postularnir, sloppnir úr fángelsinu í Jerúsalem, ad vermu spoti voga ad birtast í musterinu (5, 19—21. 28. 29. 42) og þar kunngiøra hinn upprisna; oss furdar miøg Páls støduglyndi, er, offóktur og misþirmdur í einum stad, strax prédikar Evangelium í næsta stad, sem, útflæmdur frá Antiochía, flytur kénníngar í Iconium, og grýttur, því nær til bana í Iconium, prédikar á ny í Derbe (13da og 14 kap.); og á sama hátt í Macedonia, lídandi eina offókn og misþirmíng eptir adra, fer hann frá borg til Borgar til ad útbreida Jesú ríki (16di og 17 kap.). Vér fylgium hønum med áhyggiufullri hugraun og med hrellandi hugbodi á sídstu ferd hans til Jerúsalem (24, 22 f.), hvar vér fyrirsiáum hid ógnarliga hreggvydri, er gánga mundi upp yfir høfdi hønum, og mørgum lesara mun þó þykia ad Postulinn ei hafi giætt medals hófs í framsýni sinni og ad hann hafi vogad sér um of. En þad eru ad eins kaldbrióstta heilabriótendur, er so dæma. Heilhuga lesari, hvers hiarta ei er snaudt af Jesú Postula von og trú dáist af þessum dæmum uppá trúlyndi í Herrans þiónustu, og óskar af alhuga ad géta, í sínu standi og stødu og eptir sínum kraptum, synt sig trúan Gudi og sannleikanum. Þessvegna þá vér

á eigingiœrnum tídum ſo optſinnis freiſtumſt til hálfvelgiu gégn trúarbrögdum þeim, er Jeſús ſtiptadi, hvad gétum vér þá betra giört, en hverfa tilbaka til ſiálfrar uppſprettu Kriſtindómſins, til þeſs ad qveikia þann ſkiæra og heilaga logá, er bloſsadi í hiörtum hans fyrſtu játenda.

Hvad enn fremur eykur verd þeſsarar heilögu bókar, er lióſ þad, er hún útbreidir yfir hina parta ens Nya Teſtamentis. Þar verdur Páll oſs kunnur og nockrir þeir ſöfnudir, er hann ſtiptadi; þetta kémur oſs einkum til nota, þá vér leſum bréf þau er hann ſkrifadi þeſsum ſöfnudum. Oſs géſt þar færi á ad ſá vitneſkiu um orſakir þeirrar mótſiödu, er Páll ſann medal þeirra kriſtinna manna, er unnu Júda ſetníngum, og þeſs ſtrídſ, er hann mátti vid þá heya í bréfum ſínum; já — vér ſkilium andveldliga, ad ein bók, er ſkírir frá Kriſtindómſins ondverdligu útbreidſlu af Jeſú Poſtulum, muni á ymſum ſtödum upplyſa allar bækur hins Nya Teſtamentis; gudſpiallabókanna innihald verdur einnin ſkilianligra þaraf. Því líkaſem Jeſú Poſtular ſiálfir ſkildu ord hans, fyrſt þá eptir ad þeir höfdu lifad uppfylling þeirra: ſoleidis er því háttad med kénſl þad, er vér berum á Poſtulanna Giörníngа, er innpreutar oſs anda gudſpiallaſögunnar.

Fyrir trúverdugleika þeirra fráſagna, er innigrípaſt í bók þeſsari, er rithöfundarins, Lúkæ nafn oſs borgun og pantur. Hans hreina kiærleika til

sannsøglis høfum vér áður lært að sesja trú til; og hvað hann hefir í þessari bók fært í letur, átti hann siálfur að miklu leyti þátt í og var siónarvottur að því. Hann var fylgdarmaður Páls frá Tróas í Asía til Philippi í Macedonia *) og síðan frá Philippi til Júdalands og þaðan til Rómaborgar (20, 5 ꝛc.). Hann var þá siónarvottur alls þess, er giørdist á þessu tímabili; og hvar hann ei siálfur var með Postulanum gat hann eingann betri heimildarmann fengið sinna frásagna um hann, enn þennann sinn lærimeistara, siálfan Postulann. Og hvað áhrærir enar aðrar frásagnir, er hann gefur oss um Pétur Postula og aðra Jesú fyrstu votta, þá hafði hann hér fyrir sér þá sömu tæru uppsprettu, af hverri hann tók sannar søgur til guðspiallbókar sinnar; meðan hann í 2 ár ásamt Páli dvaldi í Júdalandi, og hafði samneyti við Jacob Postula og ymsa siónarvotta þeirra atburða er hann skrifar frá. Vér uppgøtvum hvervetna í Postulanna Giørníngum, að rithøfundur þeirra hefir verið manna náqvæmastur og sannsøgulastur í frásøgum sínum, sem eckért hefir það í letur fært, er hann eigi siálfur annaðhveggia heyrt og séð hafði, eður hvað hann hafði frá fullkomliga trúverðum siónarvottum. Þessvegna førum vér so mikils á mis

*) Það ráðum vér af því, að hann innibindur sig ásamt førunautum Páls með orðinu **vér, oss** (Post. G. 16, 10 f.).

í frásøgum þessum, er vér giarnan vita viliam, um hinna annara Postula ferdaløg og athafnir; enn fyrir þá søk er einnin það lítid vér høfum, giørsamliga áreidanligt, jafnframt því að það er nægiligt til vorrar trúar á Jesúm.

---

## Postulans Páls bréf.

Að bréf þau, sem í enu N. T. bera Páls nafn, séu vissuliga skrifuð af þessum Postula, um það høfum vér fullkomna vissu, sem grundvølluð er á samhlióða vitnisburðum enna elðstu kyrkiufedra. Einúngis á einu þeirra leikur efi; það er sendibréfið til enna Ebresku. Enn sé þetta bréf ecki ritað af Páli (sem aldeilis ecki er afgiørt), þá er það þó ritað í Páls anda, að fullu samqvæmt innihalldi hans annara bréfa, og er þá vissuliga samanskrifað eptir Postulans tilsøgn og hlutdeild af þeim manni, sem náqvæmliga hefir kunnigur verið hans þeinkimáta og hiartaþeli.

Um mikilvægi þessara bréfa er að framan ávikið. Að víſu eru þau að mikluleyti orðin til af trúarbragða misklídum, er voknuðu medal enna fyrstu kristnu; og eru stíluð móti þeim raungu meiníngum, sem innrætst høfðu í þeim kristnu søfnuðum, og áttu því allrabetst við þarfir enna fyrstu lesenda. Enn siálft þetta fráhvarf frá Jesú hreina Evangélio, á móti hveriu sum bréfanna stíluð

eru, ollu því, að sannleikinn var betur fastsettur, varð skilianligri, og kunngiörðist með yfirorðu-ligri snilli og hiartnæmi. Þessi bréf eru fyrir þá skuld oss eingu minna ùmvarðandi og ómissanlig, en þau vóru vorum fyrstu kristiligu meðbræðrum; því bæði útlista þau nákvæmar fyrir oss Jesú Evangélium, og ásamt hræra so kroptugliga hiört-una; að vér ei getum neitað sannleiknum meðhalds. Fyrir því eru það einginn undur, að allir þvílíkir Kristnir, er leita enn andliga lífs kroptugrar nær-íngar, unna allra mest Páls bréfum. Enn þau hiartnæmu orðatiltæki Postulans géfa hans skilsmáta sérdeilisligt einkénni, sem vér ekki megum undrast yfir edur hneixlast á. En, með sinni giörvöllu sál fastbundinn við þann sannleika, hann kénnir oss, prýðir hann ekki eða heflar orð þau, með hverium hann framsetur hann. Jafnaðarliga brúkar hann kroptugar og í siálfum sér fagrar hugmindir; en þær eru ekki mindaðar eptir konstarinnar reglum. Opt strekar hann það efni, sem honum einkum þykir mikið umvarðandi; en hann innifelur opt mikið í fám orðum; og líkasem hrisinn af sinni þánkasyllíng, sundurslítur hann kénnsugu sína og innsmeigir millisetníngum. Lesarinn verður því að kappkosta að fylgia þánkagángi þessa heilaga rithöfunds: en þá verður líka sú gaumgiæfni og ástundan, sem vér verium til að géta skilið hann, oss ríkugliga endurgoldinn. Það er sú gullnáma, úr hverri oss því stærri ávinníngur í skaut fellur,

þess dypra vér grøfum. Menn mega því ecki láta þá þúngskildu stadi í Páls bréfum fráfæla sig. Þad mesta af bréfum þessum og adalatridid skilur sérhver sá, sem vill skilia þad; og þad sem ad undanförnu er sagt um þá heilögu rithøfunda yfirhøfud, gétur einkum heimfærst uppá Pál, ad hans bréf ega ecki ad lesast einusinni, helldur optar, ecki lausliga, helldur med stødugu athygli, ef þeirra dyrmæti á ad fullu ad skyniast.

Páls bréf eru ecki skrifud í þeirri rød, sem þau eru í vorum kyrkiuligu útleggíngum, því í þeim hafa menn radad þeim nidur eptir álitleik þeirra stada og manna, hvørium þau send vóru. Enn sökum þess ad þad er torveldt, og hvad sum áhrærir ómøguligt, med vissu ad ákvarda, þá tímarød í hvørri þau eru skrifud, þá skulum vér gégnumgánga þau í þeirri ordu, í hvøria þau einusinni eru sett. En gyrnist þar hiá lesarinn, ad vita þá rød sem enir diúpvitrustu menn er rannsakad hafa ritníngarnar álíta þá réttustu Páls bréfa ordu, þá er hún þannin: 1 og 2 bréf til Thessal., Galatas br., 1 og 2 Cor., Rómv., til Ephesusmanna, Colossara, Philippensa, Philemons, Ebræa, 1 Tímóth., Títum, 2 Tímóth. Þannin niddurradar Guldberg þeim í sinni N. T. útleggíngu. Sumir hallda ad bréfin til Galatasmanna og Ebræa séu þau seldstu medal Páls bréfa.

Stadurinn, hvadann sérhvert bréf er skrifad, finnst (því eptirfylgiandi, ad so mikluleyti, sem mönnum er kunnigt, frásögt í inngángi sérhvörs einstaks bréfs. Því ecki er ad skióla uppá þær undir-skriftir sem finnast í enum eldri útgáfum, hvörtar ecki eru ritadar af Páli siálfum, og eru því ecki innfærdar í bréfin í þeirri endurbættu útleggíngu hins N. T. helldur eru þær þryktar útaf fyrir sig oplast bak- vid í bókinni.

## Bréfid til Rómveria.

### Inngángur.

Hinn kristni søfnudur í Róm er ecki, einsog hinir adrir, til hvörra Páll Postuli hefir skrifad bréfin, stiptadur af hønum. Páll hafdi ecki augum litid søfnud þenna, þá hann ritadi bréfid til Rómveria (Róm. 1, 10—13). Þad er heldur ecki lióst, hvørr fyrst hafi kunngiørt Jesú trúar- brøgd í Róm *). En þared þenna stad mátti álíta, sem heimsins høfudborg, til hvørrar fiøldi manna streymdi frá øllum þeim londum er láu undir Rómaveldi, so gat ei hiá því farid, ad þeck- íng á Jesú lærdómi snemma kom þángad med kristnum. sem vegna offókna hroktust og bidsvegar tvístrudust. Vér siáum og af þeim mørgu qvedi-

*) Margir meina ad Pétur Postuli hafi stiptad þenna søfnud; og hinum kaþólska Kristindómi þykir þad ei efunarmál.

um sem bréfið endast með, að Páll hafði marga vini og meðhiálpara í Róm, jafnvel þó hann siálfur ei hafði verið þar.

Bréfið er skrifað meðan Postulinn öðrusinni dvaldi í Corinthuborg, þá hann hafði í hyggiu að takast á hendur sína síðustu, hættusömu ferð til Jerúsalem, til að færa kristnum fátæklíngum í Gydíngalandi giafir þær er menn höfðu saman-skotið í Macedonia og Achaia. Frá Jerúsalem ætlaði hann að fara til Róm, til að fullnægia sinni lángþreiðu ósk, að heimsækia þarverandi söfnuð (Róm. 15, 23); af Postulanna Giörníngum 27, 1 f. siáum vér einnin, að hann hérumbil 2 árum síðar kom til Róm, þó sem fángi. Bréfið sýnist hafa verið sendt með Phoebe, sem umtalast í 16, 1—2 v., hvöreð verið hafði þiónustuqvinna við söfnuðinn í Cenchrea, sem var forstaður og höfn við Corinthuborg.

Hinn rómverski söfnuður samanstóð, líklasem flestir aðrir í þann tíma, af Kristnum, sem tekið höfðu kristna trú, og verið höfðu annaðveggia Gyðíngar eður Heidíngiar; þessu megum vér ei gleyma, þegar vér lesum Páls bréf til blandaðra safnaða; enn þó er það einkum nauðsýnligt, að vér minnumst þess, til að skilia þetta bréf, þareð Postulinn hefir einmidt skrifað það í þeim tilgángi, að samteingia þá margbreittu limi þessa safnaðar og giöra þá að einum líkama undir þeirra sameiginliga höfð., Christo; og þessvegna ýmist suyr

rædu sinni til þeirra, er Júdar vóru að ætt, edur þeirra er af Heidíngium vóru komnir; edur þó hefir nærst fyrir augum nú hinna, nú þessara þarfir. Jafnvel þó Gydíngar og Heidíngiar stóru um umbreytt ust, þá þeir í hreinskilnum tilgángi tóku kristna trú, þá samt leisdi þeim ecki hinn mannligi breiskleiki, strax ad leggia nidur-arstekna hleypidóma, eda med so ólikum þeinkíngarmáta, sem þeir hofdu, þá þeir tóku rétta trú, strax ad smelta saman í eitt brædrafélag. Gydíngarnir vóru dramblátir af þeirra virkiligu eda innbirl udu yfirburdum framm yfir allar adrar þiódir: þeir hofdu dyrkad þann einasta sanna Gud, medan afgudadyrkun drottnadi í ollum odrum heimsálf um; þeir voru afkomendur enna nafnfrægu hofudfedra, sem Gud sérilagi unnt hafdi; þeir hofdu í umskurninni merki uppá þann sáttmála, sem Gud gafdi giort vid Abraham og alla hans affkomendur; þeir hofdu guddómliga opinberun í Mósis logmáli sem adrar þiódir skorti; þeir hofdu í spámanna bókum fyrirheit um þann Messias, sem skyldi giora þá farsæla; þeir hofdu musterid í Jerúsalem er ecki átti sinn maka, ásamt helgi dóminum, sem jardteikna átti himinin siálfan, samt med sáttmáls orkinni og enni skrautmiklu tídagiord. Fullir drambs og metnadar, sakir þessara yfirburda, tileinkudu Júdar sér ei alleina forrétti fyrir odrum, heldur og einkarétt til Messiæ ríkis. Þeir meintu ad Heidíngiann mátti fyrst

umskérast láta, fyrst verda medlimur Israels safnadar, ádur enn hann giæti feingid adgáng til Messias, er einasta vari Israels fólki ætladur. Þótt Gydíngar, þá þeir tóku trú á hinn krossfesta og uppriśna Messias, er nú ríkti á himnum, mættu uppgéfa sínar fornu vænńngar um jardneskt Messiæ veldi (jafnvel þótt allmargir medal þeirra gleddu sig vid þá von, ad hann mundi aptur hverfa til ad stipta þvílíkt ríki á jördu) þá var þeim þad ýfrid torsókt ad uppræta úr huga sér so diúpt inn-rætta fordóma, ad þola Heidíngia, sem þeir frá blautu barnsbeini vóru vanir ad forsmá sem saurúga og syndúga, sér jafnframt standa, og ad snúa huga og hiarta til þeirra sem brædra. Hér-vid bættist enn fremur sú medal Gydínga drottnandi, en af Jesú siálfum kroptugliga mótsagda, pharisæiska innbirlíng um verdskuldan þá er þeir þóttust unnid hafa hiá Gudi, med bókstafligri giætslu Mósis laga, í hverra bókstaf þeir hengu, án þess ad skilia þeirra anda.

Einsog Gydíngar andtignudu þá óumskornu Heidíngia, sem saurúga, so forsmádu þessir aptur á mót hina, sem þióð mieg hiátrúarfulla. Þeir giördu gis ad qvalrædi þeirra í matvæla vali, ad þeirra hátídisdögum, og ýfirhøfud ad því, hvørsu þeir vóru þrælbundnir vid þær fornu sidareglur, og med því ad allfáir medal Gydínga vildu láta sér segiast og álíta Jesúm Messias, ad vera í saman-burdi vid hinn mikla fiølda, er heldu áframm

í motþróa og þrjósku; þá freistuðust þeir kristnir er heidíngiar verið höfðu, til að álíta júða, sem af Guði útskúfaðan lýð, og til að láta þá sæta endurgialdi þess haturs og háðúngar, er þeir höfðu í lánga æfi sýnt Heidíngium.

Þannin var Gydínga og Heidíngia ástand innbyrdis; so diúpt innrætt var hatur það og óvild þeir ólu hvörir til annara. Að uppræta þetta hatur, til að sameina hvörutveggiu sem brædur, var Kristindómsins tilgángur. En skyldi nú þetta augnamið nást, hlaut alt samband Júdadóms og Kristindóms að hindrast, sem júdasinnaðir Kristnir á þeim fyrstu tímum opt orsökuðu, og Jesú Evangélium að prédikast hreint og ómeingað. Fyrir þetta sirsðir Páll kroptugliga í fleirum af sínum bréfum, og einkum í þessu, hvörs tilgángur er að frammsetia Jesú Evangélium sem guddómliga ráðstöfun til allra manna frelsis, og þarvið jafnframt að sameina alla, bæði Gydínga og Heidíngia, í eitt bræðrafélag hvöria með ödrum.

Þann mikilsumvarðandi sannleika, að allir menn séu syndarar fyrir Guði, að allir hafa þörf á náð, og að þeir alleina géti frelsast, það er: hlotið náð, betrast og orðið sælir fyrir trúna á Jesúm Christum: Þenna sannleika, setur Postulinn oss fyrir siónir í þessu markverða bréfi. Til þess, að vegleida þann ólærða lesara til að þræða veginn í Postulans þánkagángi, og til að skilia, með hve miklum vísdómi hann hefir frammsett

þenna ætíð gildandi sannleiks í þeim búníngi, sem lagaður var eptir þeirra fyrstu lesara þörfum, viljum vér stuttliga skíra frá bréfsins aðal.

Innihaldi.

Þegar Páll í upphafi bréfsins hefir framm sett sína sidvanaligu apostolisku-heilsan, og með fáum, enn kiaptugum orðum á drepið sitt mikilvæga kall, og getið þeirra orsaka, hvarfyrir hann, sem Heidíngia Postuli, áleit það skyldu sína að prédika Jesú Evangélium fyrir þeim kristnu í Róm, skírir hann (1, 17) frá þeim aðal-sannleika, sem hann í þessu bréfi hafði ásett sér að útlysta fyrir þeim, nl. að allir menn, sem syndarar, einasta giætu notið Guðs náðar undir þeim skilmála að þeir trydu á hans fyrirheit; og þessi sannleiki útlystast í þeim 11 fyrstu kapitulum.

Hann sýnir og sannar, að þörf á Guðs náð var almennilig á jörðunni, fyrst með að lysa þeirri miklu fordiarfan, sem hingaðtil hafði drotnað, ekki einasta meðal Heidíngia (1, 18—32), heldur og so meðal Gyðínga (2, 3, 1—20). Heidíngiarnir voru fallnir til þeirrar heimskuligu afguðadyrkunar, jafnvel þótt Guð augliósliga hefði opinberað sig þeim í náttúrunni; og afguðadyrkunin hafði leidt þá til alskonar stórbrota, viðurstyggðar og allra mögulígra lasta (1, 18—32). Enn sú þióð, er fordæmdi alla Heidíngia (Gyðíngarnir) var að vísu ekki Heidíngium betri; þeir höfðu leingi misbrúkað Guðs giæsku og þolinmæði til að ana

fram í syndinni, án þess að athuga, að Guð mun dæma alla eptir þeirra verkum, og að það ei hiálpar oss að hafa opinberað lögmál þegar vér ei fylgium því (2, 1—16). Stoltir og hrokafullir vóru Gydíngar af eintómu nafniuu, af Mósis lögmáli, af þeirri miklu þeckíngu, er þeir feingu af því, framyfir þá fliótsfkygnu Heidíngia; en þeir drygðu somu glæpi, er þeir fordæmdu hiá Heidíngium, og með því ollu því að Heidíngiar giörðu gis að Guðs heilaga nafni (2, 17—24). Stoltir vóru þeir af umskurnar sáttmálanum; en hvað hiálpaði sú ytri umskurn, þá hiortun vóru óumskorin (2, 25—29). Þó vildi Postulinn ei þarfyrir neita Gydínganna virkiligu yfirburðum, þeim útvortis nl. þeir höfðu Guðs fyrirheit, sem gésin vóru forfeðrum; og þau vildi sá trúfasti Guð halda, því Guð heldur sín loforð, þótt mennirnir svíkist um sín. Enn fyrir það var hann eigi svíptur rétti sínum til að straffa þá vantrúuðu Gydínga (jafnvel þó mannanna ótrúskapur þéni til að giöra Guðs trúfesti enn tignarligri) einsltið og nockurr Gydíngur vildi neita því, að hann hefði rétt til að straffa annað ógudligt fólk. Yfirburdi, sanna innvortis yfirburdi höfðu þá Gydíngar eingan vegin framyfir Heidíngiana. Um það vitna þeir heil. spámenn, er so þrásinnis sárliga qvörtuðu yfir þeirri forðiörsun sem drotnaði með Gydínga; og það sem stóð í þeirra heilögu bókum, mátti jarteikna þá siálfa (3, 1—20).

Þared nú allir, bædi Gydíngar og Heidíngiar, vóru straffsverdir syndarar, og þá, sem lögmálsins yfirtrodslumenn, ecki gátu réttlætst fyrir Gudi fyrir lögmálid; hafdi Gud fyrir Jesúm og hans Postula kunngiørt sína, af Mósis og spámønnunum umtøludu, rádstøfun til ad náda syndarana, án allrar egin verdskuldunar fyrir trúna á Jesúm Christum. Hann var þad fridþægíngar offur, sem Gud hafdi áqvardad ad skyldi deya fyrir alla. Einasta fyrir trúna á hann, enn ecki med því ad uppfylla lögmálid, gátu syndararnir réttlætst fyrir Gudi. Hvad høfdu þá Gydíngarnir ad stæra sig af, þar þeir einsog Heidíngiar, þørfnudust Guds nádar? eda hvada rétt høfdu þeir til ad útiloka Heidíngia, þared Gud var allra Gud (3, 21 – 30).

Postulinn sannar nú med dæmi tekjnu af Gydínganna ættfødur Abraham, ad þessi lærdómur um syndaranna nádun hiá Gudi fyrir trúna, eingi annveginn var mótstrídandi enu G. T., heldur var því fullkomliga samqvæmur. Pad var ecki fyrir umskurnina, ecki fyrir egin verdskulldan, heldur einasta fyrir trúna, ad Abraham fann nád hiá Gudi; — öldúngis samqvæmt því sem David kénnir um syndaranna nádan — Abraham var ennþá ecki umskorinn, þá hann fécк fyrirheit um Guds velþócknun vegna sinnar trúar. Umskurninn var einasta útvortis teikn Guds velþóknunar, hann fyrir trúna vard adnióstandi. Þessvegna var Abraham ecki Gydínganna rétti fadir, sem einasta fæddra Gydínga,

heldur er hann fadir allra trúadra, hvørt heldur þeir eru Gydíngar eda Heidíngiar. Ecki helldur giørdi Abraham, med Mósis laga eptirlifan, sig verdugann til þeſs fyrirheitis hann féck af Gudi; því Mósis løgmál var þá ecki géfid; einsog þad yfirhøfud er allra laga eginligleiki, ad þau áqveda yfirtrodſlumønnunum ſtraff, og løgmálsins yfirtrodſlumenn erum vér allir í Guds augliti. Nei, einaſta fyrir trú ſína ávann Abraham Guds velþóknan. Og Abrahams trú á Gudi, var, hvad ſinnislagid ſnerti, ecki frábrugdin vorri trú á Jeſúm Chriſtum; hvørtveggi er trúnadartrauſt á Guds fyrirheitum. Eins og Abraham trúdi Guds lofordi, ed hann vildi géfa honum ſon í ſinni elli, þótt lítil útſjón væri þartil, ſo trúdi hann ſamt øruggt, ad þótt Gud bydi hønum ad fornfæra þeſsum syni, fyrir hvørn fyrirheitid uppfyllaſt ſkyldi, ſo mundi Gud þó halda ſitt loford, því hann var ſannfærdur um, ad Gud líka gat kallad enn dauda til lífſins. Þannin trúum vér ogſo Kriſtnir á Jeſúm Chriſtum, ſem fyrir oſs er dáinn, og frá daudum aptur uppſtadinn, til ad fullviſsa oſs um vora nádan (3, 31. 4, 1—25).

Einaſta trúinn á Jeſúm Chriſtum, ſem fyrir ſyndarena er dáinn, gétur fullkomliga huggad manneſkiuna líka í mótlætinu; því hún veitir henni audmiúkt, barnligt ſinnislag til Guds, fyrir hvørs kiærleika vér høfum þad órækaſta ſkírteini þarí, ad hann gaf ſinn ſon í daudann fyrir oſs

syndara; og hvernin gétum vér þá borid þrælsótta fyrir Gudi, þar hann hefir géfid oss so storann pant síns kiærleika? nei, fyrir trúna á Christ hlytur allur qvídafullur ótti fyrir Gudi ad ríma, og trúnadartraustsfull diørfúng ad koma í stadinn (5, 1—11).

Til enn framar ad syna ad þessi Guds rádstiórn til syndaranna frelsis fyrir Christum, nádi til allra manna, samlíkir hann Adam og Christus. Adams fall, leiddi syndina, og hennar afleidíng daudan til allra (því ad daudin sé afleidíng af Adams falli og syndinni, sem med því giørdist als menn, má siá þaraf, ad daudinn drotnadi, ádur enn Mósis løgmál var géfid, þótt syndin ecki tilreiknist, hvar eckért løgmál er). Og þannin veitir Guds nád í Christo, øllum líf og frelsi. Mismunurinn er einasta, ad verkanir Christi frelsis yfirgnæfa lángt verkanirnar af Adams falli; því er líka í siálfu sér so varid, ad lífssins ríki er sterkara enn myrkranna, og so stór sem mannlig spillíng er, þá er þó Guds miskunsemi lángtum stærri (5, 12—21).

Postulinn hefir híngadtil synt, ad mennirnir sem syndarar, einasta géta frelsast fyrir trúna á Jesúm Christum. En so ad þetta fridarins Evangélium ecki af hræsnurum vanbrúkast skuli til syndauggleysis, kénnir hann í þeim 6 kap. til þess 8, 17 v. ad einsog þetta Evangélium alleina gétur fríad menn frá þrælsótta fyrir Gudi, so gétur

þad líka, þegar það skilst réttliga, giørt oss Guds fúsu, hønum af kiærleika og þacklæti hlydin børn. Sønn trú á Christum, setur oss í nánustu sameiníng við hann, sem kom í vorn stað. Vér gétum ecki í sannleika trúað á hann, sem géck í dauðan fyrir oss, var greptradur og er upprisin vegna vor, án þess að álíta oss siálfa sem dauða og geptraða með hønum, og upprisna til ens nýa lífs ásamt hønum. Trúin á Jesúm, sem hefir friðþægt oss við Guð, má þó nauðsynliga, sé hún sønn og hrein, giøra oss Guðs hlýðinn børn, sem af þacklæti helga hønum sitt giørvalla líf (6, 1 til 14). Trúinn á Jesú giørir oss að Guðs hlýðnisfúsum børnum. Enn þar er enginn stærri þræll, enn sá, sem geingur í syndarinnar þiónustu. Að vísu erum vér, frelsaðir fyrir Christum frá þrælkun syndarinnar, undir øðrum Herra, réttlætinu. En í því að þióna þessum herra er einginn þrældómur (jafnvel þó sú breiska mannsképna stundum álíti það so), heldur það sanna friálsræði. Um þetta gátu so margir af hans lesurum, sem í raun réttri vóru frelsaðir fyrir Christum, best dæmt, með því að samanlíkia þeim aumkunarverða þrældómi, sem þeir áður lifðu í, við það friálsræði, sem þeir nutu fyrir Christum, og þeim hryggiligu þrældómsins afleiðíngum við þá blessuðu ávexti friálsræðisins. Syndin launaði þaradauki þiónum sínum með dauðanum, réttlætið sínum með eylífu lífi (6, 15—23).

Frá Mósis lögmáli vóru þeir Kristnu fyrir þeirra trú á Christum og vegna þeirra sameiníngar við hann, frsadir. Því einsog konan, þegar madur hennar deyr, losnar frá þeim lögum, sem sameinudu þau, og óhindrud gétur gypst ödrum, þannin er Christi sofnudur í Jesú persónu, sem med sínum dauda hefir upphafid þá gömlu sansaligu gudsþiónustu, daudur frá Mósis lögmáli, til ad sameinast ödrum, þeim frá daudum upprisna, og ásamt hönum lifna til ens nya lífs, sem Gudi er helgad. Því þad vantadi so mikid á, ad sá gamli, sansaligi Júdadómur, sem var áqvardadur fyrir ósídad tímabil, giœti í laumi halldid þeim vondu gyrndum, ad hann fremur uppvakti þær. Þad var einasta eptir lögmálsins bókstaf, enn ecki í þess anda ad madur þiónadi Gudi (7, 1—16). Þaraf fylgir þó enganvegin, ad Mósis lögmál í siálfu sér væri synd, eda orsök til syndarinnar. En manneskian þeckti ecki ad syndin var synd; hún vissi ecki ad þær vondu tilhneigíngar vóru syndsamligar, utan fyrir lögmálid. Og lögmálid gat þó ecki med allri sinni hörku, öllum sínum ógnunum niderkiæft þær vondu tilhneigíngar. Manneskian merkti fyrst, þá hún nádi þecking á lögmálinu, sinn vanmátt og sína eymd undir því, so ad lögmálid, sem skyldi veita líf, orsakadi henni dauda. Þad var þá enganvegin lögmálid — því þad er heilagt, saklaust og gott — heldur sú mannliga spilling, er æstist vid

løgmálid, hvørt ed var orsøk til manneskiunnar eymdar (7, 7—14). Því af náttúrunni til eru manneskiurnar hardla spiltar, og aumkvunarverdt þeirra ásigkomulag undir því løgmáli sem einasta skipar og ógnar, án Jesú Evangélii hiálpar. Því alvarligar hann keppist áfram eptir því betra, því ædri og hreinnri hugmindir hann giørir sér um løgmálsins heilagleika, þess krøptugar finnur hann sinn vanmátt til ad géta fullkomliga uppfyllt allar þess krøfur. Á þá ødra sídunu gétur hann ecki annad enn samþykt løgmálinu í allri þess hørku; hann finnur med siálfum sér, ad ei einasta øll hans verk, heldur allir hans þánkar og óskir ega ad øllu leiti ad samsvara løgmálsins heiløgu bodum; en á hina sídunu, finnur hann so mikla mótstødu í sinnar sansaligu náttúru breiskleika, ad hann med hugraun má iáta ad hann alt of opt ber lægri hluta í þessu strídi. Og þared løgmálid einasta skipar og ógnar, og alleina heitir verdlaunum þegar fullkomin hlydni . audsynd; mú sá hreinskilni, sem er sér medvitandi ad hafa syndgad, finna til sinnar ófarsælldar og tapa hugrecki. Einasta Jesú Evangélium gétur veitt hønum diørfúng og krapt til þess góda (7, 15—25).

Jesú Evangélium qveikir von og diørfúng, med því þad frelsar syndarann frá øllum þrældómsótta fyrir Gudi og frambydur þeim nád, nær hann ángrast, undir þeim skilmála, ad hann betri sig, og þad qveikir þacknæma elsku hiá þeim

sem er til náðar tekinn, með því að sýna Guðs miskunsemi í Christo í so fögru ljósi; og þannin framqvæmir Jesú blíða Evangelium það, sem lögmálsins ótti og ógnanir ekki géta, nl. að menn hlýða Guði, sem þacklát börn góðum föður. En þetta gyldir einasta um þá, sem hafa skilið anda Jesú Evangelii, því holdsins þrælar næra fiandskap gégn Guði og hans lögmáli; og þá vantar mikið á, að vera kristiliga sinnaða, þótt þeir Kristnir kallist. Hiá þeim sanna kristna drotnar ætíð, þótt breiskleiki viðloði hans dauðliga líkama, framqvæmdarsöm löngun til að þócknast Guði, af því hins frá dauðum uppvakta Christi andi, trúarinnar, vonarinnar og kiærleikans andi, sem býr í honum, vekið ætíð líf og fiör hiá honum til hinns góða (8, 1—11).

Af öllu þessu fylgir, að enginn sannkristinn er þannin bundinn við sína spiltu náttúru, að hann ekki géti mótstaðið henni, og það er sérhvörs kristins manns egin skuld, ef hann ekki notar Jesú Evangelium til sinnar betrunar og sáluhiálpar. Þeir sönnu Kristnu eru ekki, sem áður, undir Júdaa dóm og Heiðindómi í slíku sambandi við Guð, sem þrællinn við sinn Herra, heldur sem börnin við föður sinn; af þacklátri elsku hlýða þeir Guði. Það barnliga trúnaðartraust hann setur til Guðs, og sú velþóknan, sem hann nýtur hiá honum, staðfestir hans von, að hann er Guðs erfíngi og Christi meðerfíngi til sáluhiálpar í því eptirkom-

andi lífi (8 11—17). Þessi von giörir allar hörmúngar ens Kristna hér niðri léttbærar; því hér er vansemdarinnar og ófullkomligleikans land. Allir menn stynia undir þreingíngum, í hverium Guð vill að manneskian uppfæðast skuli; einnig þeir Kristnu, já siálfir Jesú Postulár qveina þarundir, og þá lángar eptir að leisast héðan. Það er þessvegna í voninni, að kristinna manna farsæld á jörðunni er innifalin; með þolinmæði mega þeir bíða þess sem þeir vona. En þetta gétur enginn betur enn sá Kristni. Þeir Kristnu géta beðið til Guðs sem föðurs með trúnaðartrausti; þeir vita að Guð heyrir þeirra heimugligu qveinstafi; Kristnir vita, að það sem þeirra himneski faðir lætur þeim mæta, verður að þéna þeim til ens besta; því þeir hafa í siálfum Kristindóminum, hvartil Guð frá eilífið hefir útvalið þá, í öllum Kristindómsins velgiörningum, í Guðs syni siálfum, sem hann gaf í dauðan vegna vor, þann órækasta pant uppá Guðs elsku. Þótt nú Kristnir af þeirra óvinum, Gyðíngum og Heiðíngium, yrðu áklagaðir og fordæmdir sem misgiörðamenn, þá töpuðu þeir þó aldrei sinni hugdiersfúng, so leingi þeir trúðu á Christum, sem var dauður og upp aptur risinn fyrir þá, sem ríkti í himnigum og talaði þeirra máli. Engin maður, ekkért mótlæti, sem þeir þola máttu fyrir Jesú skuld, gat svipt þá Christi kiærleika. Postulinn var, hvað hann sialfann snertir, sannfærður um, að ekkért í heims

sinum, engin makt hvørki á himni eða á jørðu, mundi géta svipt hann þeirri náð, sem hann naut hiá Guði vegna Jesú Christi (8, 18—39).

Híngaðtil hefir Postulinn útlistað sitt høfuðatriði, nl. Mósis løgmáls óðugnað til sannrar betrunar og frelsis manneskium, allra manna, bæði Gyðínga og Heiðíngia diúpu spillíngu og stóru þørfnunar á Jesú Evangélio, og þess guðdómliga krapti til hughreistíngar og betrunar syndurunum. En þareð søfnuðurinn í Róm innihélt, einsog áður er sagt, bæði Gyðínga og Heiðíngia, en hafði þó, að líkindum lángtum fleiri af þessum enn hinum, so hneixluðast þeir kristnu Gyðíngar þer á, sem ennú héldu so mørgum af sínum gømlu hleypidómum, þegar þeir sáu landsmenn sína, Guðs egið fólk, útilokað frá þeim fyrirheitna Messias, á meðan so margir Heiðíngiar upptókust í samfélag með hønum. So mætti Guð, héldu þeir, hafa gleimt sínum fyrirheitum, er géfin vóru þeirra feðrum — so mætti hann hafa útskúfað sínu fólki — so mætti það synast, sem Gyðíngar útilokuðust til þess Heiðíngiar giætu feingið aðgáng. A ena aðra síðu freistuðust þeir kristnu Heiðíngiar þarvið til að forakta Gyðínga, sem Guðs útskúfað fólk. Að mæta þessum efasemðum Gyðínga og mótsøgnum, og innræta Heiðíngium lotníngarfulla viðurkénníng þeirrar náðar, sem Guð án þeirra verðskuldunar hafði þeim stéláti[ð], er tilgángur þeirra 3 næstfylgiandi kapitula.

Postulinn (hvörium Gyðíngar báru á brýn, hatur gégn þeim, og þessvegna álitu þeir hans mótsagnir gégn þeirra fordómum vera orsakaðar af þessu hatri), framsetur fyrst þá innilíga játníngu, að ekkért í heiminum félli hönum sárgrætiligar, en að siá landsmenn sína og skyldmenni, þióð þá sem Guð hafði giædt með so mörgum og stórum yfirburðum, já þá þióð, frá hvörri siálfur Messias, hann sem var yfir öllum, sá hátilofaði Guð, sem manneskia hafði kyn sitt að rekia — að vera útilokaða frá Messiæ ríki (9, 1—5).

Þó mætti engin þaraf álykta, að Guð ecki heldi þau ættfeður þeirra Abraham géfnu fyrirheiti. Þau hafði hann haldið; því einasta trúaðir voru sannir Israelítar, Abrahams sönnu börn. Að Guð annars útvaldi eina þióð framar annari, til að giæða með sérdeilisligum yfirburðum, var hans frja ályktan (það er: Guð giörði það eptir þeim vísustu ástæðum, hvöriar mannligur skilníngur ei gripið fær). Að friálsu valdi Guð eingann af Abrahams niðium, sem fæddist eptir náttúrunnar orðu, heldur hann fyrirheitna son Isaak; að friálsu valdi hann af þeim Jacobs og Rebekku tvíburum, sem enn þá ei vóru fæddir, Jacob framar enn Esaú til að vera ættfeður þess fólks, sem hann tédi fremur öðru sína velgiörnínga (9, 6—13). Fávísligt var það þessvegna að kénna Guði um óréttlæti. Hann vitnar siálfur í sínu orði að mennirnir ei gæti dæmt um hans

vísu ráðstafanir. Enn, sosem Mósis, þénar til að syna Guðs giæðsku, af því hann notaði vel hans velgiorníngu, annar, sosem Pharaó, má þéna til að syna Guðs réttlæti, af því hann misbrúkaði hans velgiorníngu. Hvörsvegna Guð með sínum velgiorníngum vinnur hiarta þess eina, á meðan hann með allri sinni giæðsku forherðir þann annann, getum vér ei skilið. Dyrfist manneskian þarfyrir að gánga í dóm við Guð? Það væri sem ef leirinn vildi láta leirkérasmiðinn giöra sér reikníngsskap fyrir, hvörsvegna hann giörði það eina kér til heiðarligrar, það annað til miður heiðarligrar brúkunar. Leingi höfðu Gyðíngar misbrúkað Guðs lánglundargéð; nú syndi hann á þeim sitt réttlæti, þegar þeir vóru fullþróaðir til strafsins, einsog á Heiðíngiunum sína giæðsku, hvörier notuðu vel þær ráðstafanir, hann hafði giört þeim til besta (9, 14—23). Að það vildi gánga þannin, hafði Guð allareiðu bendt til fyrir spámennina, sem spáðu, að sá tími mundi koma, þá Heiðíngiarnir, hvöria Gyðíngar forsmáðu, skyldu giörast Guðs fólk; og þarámót litlar leifar enna fiölmennu Israelíta frelsast frá Guðs straffunar dómi; og það eru þeir fáu, sem viðurkénna Jesúm að vera Messías. Af öllu þessu fylgði þá: Heiðíngiarnir viðurkéndu sína þörf til Guðs náðar fyrir Christum, og feingu úr henni bætt. Gyðíngar, sem trúðu að þeir væru réttilátir fyrir Guði, þegar þeir fylgðu lögmálsins bókstaf, þörfnuðust hennar

ecki, en hneixludust á þeim krossesta Messias, sem varð þeim ásteitíngarsteinn, yfir hvorn þeir hrösudu (9. 24—33).

So mikið sem þessi afdrif Gydínganna hryggðu Postulann, so heitt bað hann til Guðs um þeirra frelsi, og það miklu framar, sem þeir lögdu so mikla álúð á Guðs lögmál. En sú drambsama ímindan að þeir gicetu réttlætist hiá Guði fyrir uppfyllíng Mósis lögmáls, hélt þeim frá að leita náðar hans fyrir trúna á Messias, sem hefir upphafið þetta lögmál — þótt Mósis siálfur vitni að einasta sá, sem að fullu haldi lögmálið (sem eingin hefir giort) þarmeð gæti vænt frelsis. Þessi þvermóðska Gydínganna gat því síður afsakast, sem það var auðveldt að sannfærast um, að Jesús var sá sanni Messias. Maður þurfti hvörki (að eg brúki Mósis orð) "að fara upp í himininn" til að trúa að Jesús var sendur af Guði, eða stíga niður til neðribygða, til að trúa, að hann væri uppreisinn frá dauðum. Ástæðurnar fyrir þessari trú láu sérhvörium í augum uppi, so hann gat bæði verið sannfærður í sínu hiarta og viðurkennt sína trú fyrir heiminum, og slík ávaxtarsom trú á Christum, útheimtist hiá öllum, eptir tilníngunni, til að frelsast fyrir hann. Hér er eingin mismunur á Gydíngum og Heidíngum, þareð Guð er allra Guð. Það var óréttvíst þessvegna, að Gydíngar vildu útiloka Heidíngia. Ritníngin segir, að allir (einnig

Heidíngiar), sem ákalla Drottins nafn, frelsast skuli. Enn skyldu Heidíngiarnir ákalla Drottinn, þá máttu þeir fyrst trúa á hann — so máttu þeir frædast um hann — so máttu þar vera kénnarar — og þessir kénnarar sendast af Gudi; og þannin hafdi Postulinn og hans medhiálparar rétt til ad kunngiöra líka Heidíngium þann glediliga bodskap um Messías, þótt allir ad víſu ei færi sér hann í nyt (10, 1—17). En Gydíngar gátu ei sagt, ad þetta Evangelíum væri þeim ókunnugt, þared þad var kunngiört í öllum löndum. Þeim bar ei helldur ad bregdast so ókunnugliga vid þad, ad Heidíngiar skyldu verda hluttakandi í Messíæ velgiörníngum; þared spámennirnir ei einasta höfdu sagt þad fyrir framm, ad þetta mundi ské helldur ogso spád um þá þverúd, sem Israelítarnir nú syndu gégn Guds nádar rádstöfnun til þeirra frelsis (10, 18—21).

Af öllu þessu fylgdi enganvegin, ad Gud hefdi útskúfad sínu fólki. Páll siálfur var Israelíti. Einasta þeir hardsvíradu útilokudu sig siálfir. En sínu rétta fólki, þeim trúudu Israelítum, hafdi Gud ei útskúfad. Einsog á dögum Elíæ, þá þessi alvörugéfni spámadur héldt ad öll sönn gudsdyrkan væri giör horfin úr Israel, þó híngad og þángad, einsog Drottins ord vottar, fundust margir gudhræddir Israelítar, sem ekki beigdu sín kné fyrir annarligum gudum, soleidis hafdi sá sanni Messías líka nú í öllum kristnum söfnudum

sína játendur, einnig af Gydíngaætt. Og þessir vóru þeir sennu Israelítar, sem Gud nú hafdi útvalid til ad giørast hans fólk, af því þeir audmyktu sig fyrir honum, og vidurkéndu þørfnun sína til hans nádar. Hinir adrir ana áfram í þeirri sömu þerúd, sem forfedur þeirra so opt høfdu í liósi látid, og hvarvfir þeir heiløgu Spámenn so opt hafa qvartad (11, 1—10).

Í því fylgiandi af þessum kapitula snýr Postulinn sér til þeirra kristnu Heidíngia. Þessir forsmádu þá vantrúudu Gydínga, sem af Gudi útskúfad fólk; hvarvid Postulinn varar þá med þessum kraptugu ástædum: þeir mættu ecki trúa, ad Gud hefdi látid Israelítana falla, til ad steypa þeim í ólucku, eda einasta til ad greida Heidíngiunum adgáng til þess velgiørníngs sem hinir forsmádu. Ad vísu vard Gydínganna fall og fæd þeirra kristnudu Júda, medal í hendi þess alvísa til ad fá Heidíngia ad játa Kristindóminn (sosem Gud yfirhøfud veit ad láta þvi vonda, er mennirnir adhafast, fylgia gott); en hvørr gétur efast um, ad þad hefdi verid stór lucka fyrir mannkynid, ef allur Gydíngalídur hefdi tekid Jesú lærdóm? Og þetta máttu þeir kristnu Heidíngiar vita, ad Postulinn, med því ad umvenda Heidíngium, líka hafdi þann tilgáng fyrir augum, ad hvetia sína landsmenn til eptirbreitnis (11, 11—14). Heidursverdir máttu enda þeir vantrúudu Gydíngar vera í þeirra kristnu Heidíngia augum (sem

nidiar enna fyrstu Guds dyrkenda). Þetta fólk var sosem rót þess ágiæta olíutrés (Jesú kyrkiu; því sá fyrsti kristni sofnudur samanstód af fæddum Gydíngum). Þótt nú nockrir Gydíngar vegna þeirra vantrúar væru sem afbrotnar greinir, í hvörra stad þeir trúudu Heidíngiar vóru inn- plantadir, so máttu þessir aldrei gleyma því ad Gydíngafólk var rótin, á hvörri þeir, sem villtar greinir stódu. Þeir kristnu Heidíngiar máttu þess- vegna audmiúkir láta Guds verku mét þeim vans trúudu Gydíngum þéna sér til adværunar og vidurkénna Guds óforþénta giædsku móti þeim siálfum. Þeir skyldu vænta þess, ad Gydíngarnir enn yrdu unnir og sem náttúrligar greinir inn- plantadir á þeirra eigid olíutré (11, 15—22).

Til þess enn fremur ad fá þá kristnudu Heid- íngia til ad vera vareigdarsama í þeirra dómum, vildi Postulinn ei dylia þann leyndardóm fyrir þeim, ad nockrir af Israelsfólki mundu soleingi mótþróast, þángadtil allir Heidíngiar hefdu tekid Jesú trúarbrøgd; en þá skyldi allur Israel frelsast fyrir Christ, samqvæmt þeim fyrirheitum sem Gud þarum hafdi géfid fyrir sína spámenn. Sem Jesú Evangélii forakfarar, máttu Gydíngar ad vísu álítast sem Guds óvinir, Heidíngiunum til ábata (þeir þverúdarfullu Gydíngar máttu setiast til sídu, og þeir trúudu Heidíngiar máttu upptakast) en — sem nidiar hinna fedra, vóru þeir Gudi ennþá kiærir. Heidíngiarnir mættu shuga, ad

þeir siálfir fordum vóru óhlýdnir gégn Gudi sem Gydíngarnir þá. Gydínganna óhlydni var þá orsök til, ad Heidíngiarnir vóru nádadir; og þared þeir vidurkéndu Jesú Evangélium skyldu hinir seinna meir upporfast til eptirbreitnis. Allir hafdu þeir verid þverúdarfullir gégn Gudi, enn hann vildi miskuna öllum (11, 22—32).

Þegar nú Postulinn virdir fyrir sér alt þetta, bædi þad lidna og eptirkomandi í Guds undursamfullu stiórnan Gydínga og Heidíngia kiara tilbidur hann, eptir endada ransókn þessa, í hverri honum gafst so opt tækifæri til ad dádst ad Guds vísu rádstöfunum, undrunar- og lotníngarfullur hann eylífa vísdóm, sem enginn mannligur skilníngur fær gripid, og med því endar hann hann fyrra part bréfs þessa (11, 23—36).

Í sídari deild bréfsins, sem nær frá byriun þess 12ta kapitula til endans, setur Postulinn lesurum sínum fyrir siónir, hvada verkun velgiorníngar þeir, sem Christur hafdi veitt þeim, ætti ad hafa á þeirra hugarfar og lifnad; og þared sá mesti hluti þessa er audskilin fyrir sérhvern gudrækinn lesara, vil eg stuttliga drepa á höfudinnihaldid.

Jesú nafns játendur skulu, sosem þeir, er af Gudi til nádar teknir eru fyrir Jesúm Christ (bædi Heidíngiar og Gydíngar) færa Gudi þad velþóknanliga offur ní gudligt framferdi, þá sönnu Gudsdyrkun í anda og sannleika; og í þeim tilgángi

ástunda eitt nýtt og annað hugarfar, en það fyrra sem drotnaði meðal Gyðínga og Heiðínga (12, 1—3). Einkum hrósar hann auðmýktinni, sem uppsprettu alls góðs hjá manneskiunni — einsdrægni til að þióna hvor ödrum með þeim gáfum, sem þeir hafa þegið; hvarmeð hann einkum lítur til kénnara og safnaðarins þénara (Prófheta og Diacóna) (12, 3—8). Hreinskilinni elsku til allra manna, inniligum bróðurliærleika, er sýni sig í verkunum og uppørfist fyrir sameginliga trú, von og elsku líka til óvinanna (12, 8—21).

Nú brýnir Postulinn fyrir þeim kristnu hlýðni mót yfirvaldinu, og það með slíkum ástæðum, sem á þeim offóknar tímum mátti létta þeim uppfyllíng þessarar sinnar skyldu. Þeir áttu að álíta yfirvaldið sem Guðs innréttíng, og hlýða því, ecki sem þrælar, einasta af ótta fyrir straffi, heldur sem Guðs hlýðnisfúsu börn, sem heiðruðu í yfirvaldinu hans skipan. Yfirhöfuð skyldi elskan hvetia þá til alls, sem var höfuðinnihaldið af Guðs boðorðum (13, 1—10). Til að géfa þessum sínum áminníngum stærri krapt, minnir Postulinn sína lesara á, að þeir ecki nýliga væru orðnir Kristnir, heldur að Jesú Evangélium leingi hafi verið þeim kunnugt. Fávitskunnar nótt mátti því bráðum hverfa fyrir dagsins birtu. So miklu meir máttu þeir vera árvakrir og forðast allan ósóma og andvaraleysi, sem tídkaðist í þeirri stóru og glæpafullu Rómaborg. Það átti að láta sig í ljósi í

þeirra giervallri hegdan, ad þeir vóru Jesú nafns játendur, en ecki holdsins eda saunsaligleikans þrælar (13, 11—14).

Til þess ad géta skilid þær fylgiandi áminníngar, meigum vér aptur minnast þess ad sá rómversski sǫfnudur samanstód bædi af umvendtum Gydíngum og Heidíngium. Medal þeirra fyrri vóru margir, sem ennþá, þared þeir héngu í Mósis skipunum um óhreina fædu, gierdu sér samvitsku af ad neyta kiøts, væntanliga af ótta fyrir, ad þeir óvitandi kynnu ad eta af því offurkiøti, sem var helgad Heidíngianna afgudum, sem var til fals í slátuibúdunum. Sú sama lotníng fyrir Mósis lǫgmáli var einnig orsǫk í, ad þeir héldu sig skuldbundna til ad halda þá hátídisdaga heilaga, er Mósis hafdi skipad. Þeir kristnu Heidíngiar þar ámót. hǫfdu ad meslnleiti ecki þesshattar efasemdir, en sǽrdu sér í nyt þad friálsrædi sem Kristindómurinn leyfir í slíkum midurárídandi hlutum: Enn einsog þessir (þeir sterkari, upplystari) audveldliga leiddust til ad fyrirlíta þá gydíngasinnudu Kristnu, sem hiátrúarfulla, og til ad giora gis ad þeirra qvídbogafullu náqvæmni, so leiddust þeir sídarnefndu til ad fordæma þá frjari Kristnu, einsog væru þeir Heidíngiar í hiartanu.

Postulinn brynir fyrir hvorutveggiu eindrægni og umburdarlyndi innbyrdis mót hvor ǫdrum. Þeir veikari máttu ecki fordæma þeirra frjari medbrædur; því einn er dómari hiartna vorra. Þeir

sterkari máttu heldur ecki fyrirlíta þá veikari, hvorutveggi áttundudu ad þóknast Drottni, fyrir hvers dómstóli allir einusinni mæta skulu. Þeir upplystari skyldu einasta varast, ad misbrúka þeirra frjálsræði til ásteitíngar þeim veika, og freista hans til ad höndla mót sinni sannfæríngu; ad fæda var ad vísu eptir Jesú lærdómi leyfilig: en sá sem ei gat sannfærast um þad, og þó neytti alls, einasta til þess, ad varast annara adhlátur, hann breytti mót samvitsku sinni og syndgadi. Sá sterki mátti því ecki freista síns veikara bródurs þartil; því þá var hann ecki kiærliga sinnadur, og þad kristiliga frjálsrædi gat létt ordid til athláturs. Yfirhöfud var Kristindómurinn ei innifalinn í nautn eda í afneitun viss matar og dryckiar; heldur í hugarfari betrudu fyrir Jesú kénníngu. Sá sem hafdi þetta hugarfar, vildi heldur takmarka sitt frjálsrædi og neita sér um þad sem er leyfiligt í siálfu sér, en ad hneixla þá sem eru endurleystir ásamt honum. Sérhvör mátti breyta eptir sinni sannfæríngu; því þad sem ei skédi eptir sannfæríngu var synd (14 kap.). Til slíkrar siálfsafneitunar, til ad lempa sig eptir annara breiskleika, máttu þeir Kristnu einkum hvetiast af Jesú dæmi, sem hafdi neitad sér um alt og lidid alt, af elsku til sinna brædra (15, 1—6). Umburdarsamir og eindrægnir máttu þeir Kristnir, bædi af Gydíngum og Heidíngum, þessvegna vera; því Christur hefdi kallad hvorutveggja —

Gydínga nl. til lofs Guds trúfesti með að halda þau fyrirheit sem fedrunum vóru gèfin, Heidíngia, til lofs Guds miskunsemdar, sem spámennirnir líka höfdu umspáð. Til þvílíkrar samdrægnis og gledi yfir þeirra sameiginligu von, óskar Postulinn þeim Guds adstodar (15, 1—13).

Í því fylgiandi útlistar Postulinn sínar ástædur, hvarfyrir hann skrifadi þeim rómversku söfnudi so skörugliga, þótt hann ei hefdi stiptad hann. Það var ei þarfyrir, að hann efadist um þeirra góda sinnislag og upplýsíngu, heldur þarfyrir, að hann, sem Heidíngianna Postuli, þóktist vera kalladur af Gudi til einnig að stadfesta þeirra trú. Því þetta hans kall nádi til allra Heidíngia, sem vóru einsog offur, er hann, sem Christi þénari átti að færa Gudi, og þetta kall hefdi hann trúliga ástundað að uppfylla, styrktur þartil af anda Drottins. En þared hann hafdi ásett sér að kunngiora þar Jesú Evangélium, hvar það ádur ecki var kunngiort, so hafdi hans embætti ecki leyft honum að vitia þeirra Kristnu í Róm. Þó vonadi hann snart að fullnægia þessari sinni ósk, þegar hann hafdi fært þeim fátæku Kristnu í Jerúsalem þann penngastyrk er söfnudirnir í Macedoniu og Achaia höfdu skotid saman. Þá ásetti hann sér að ferdast til Róm, hvar hann vonadi að sín koma vildi vera gagnlig fyrir Evangélii útbreidslu. Þángadtil máttu þeir rómversku Kristnu bidia ásamt honum, að Gud vardveitti hann í

þeim hættum, sem þeir vantrúudu Gydíngar ógnudu hønum med, á hans fyrir hendi hafandi ferd til Jerúsalem (15, 14—33).

Í þeim seinasta kapitula felur Postulinn Phoebe, sem var þiénustuqvinna vid søfnudinn í Kénchrea og sem flutti þetta bréf med sér til Róm, þeim rómversku søfnudi á hendur til vinsamligrar mótføku; heilsar søfnudinum og einkum fáeinum persónum og húsføfnudum sem hann þeckti persónuliga; varar vid þeim gydíngasinnudu kénnurum; heilsar frá nockrum Kristnum í Corinthuborg, og endar so bréfid med þeirri postulligu ósk, ad søfnudurinn megi stadfestast í Jesú Evangélio.

## Skýríngargreinir.

Þared Kristindómsins sérdeilisligu lærdómar á engum stødum í N. T. framsettir eru so greiniliga sem í þeim fyrstu 11 kapitulum af þessu bréfi, hefi eg med ásettu rádi tilkynna géfid innihaldid af bréfsins fyrra parti nockud greiniligar. Sakir þess géta skýríngargreinirnar verid því styttri.

Til ad skilia þann mikilvæga lærdóm sem hér framsettur er, ad mennirnir, sem syndarar, ecki réttlætast fyrir Gudi med løgmálsins verkum (med því ad fullnægia løgmálinu) heldur einasta fyrir trúna á Jesúm Christ, er þad naudsynligt, ad vér giørum oss rétta hugmind um, hvad Páll meinar med løgmálinu, med því ad álitast réttlátur fyrir Gudi, og med trúnni á Jesúm Christ. Løgmálid er í Páls ordsæri, ecki einasta, sem

sumir hafa halldið, sá partur af Mósis lögmáli, sem uppálagði Gyðíngum umskurnina og aðrar útvortis tíðareglur; sem serhvör einfaldur lesari gétur ráðið af þessum Páls orðum: "upphefium vér þá lögmálið með trúnni? Það sé fiærri! heldur staðfestum vér það" (Róm. 3, 31). Tíðareglur lögmálið vildi Páll þó ecki staðfesta; heldur skilst við lögmálið, heila Mósis lögmál, og so sá partur þess, sem er innrættur í allra manna hiörtu, hvörreð býður oss skyldur þær gégn Guði og manneskiunum, sem ætíð gylda. Með eptirlisan þess lögmáls — so ágiætt sem það í siálfu sér er — gétur enginn maður, einsog Postulinn segir, réttlátur orðið fyrir Guði, það er: orðið Guðs náðar aðniótandi, frelsast og orðið sáluhólpinn, af því enginn í þaunkum orðum og verkum gétur so fullkomliga uppsylt það þannin, að hann fái staðist fyrir þess alvísa Guðs dómi, og af því syndararnir, sem vær erum allir fyrir Guði, í lögmálinu alleina, ecki finna það traust og þá huggun, von og krapt, sem þeir meðþurfa til framfara í því góða. Einasta fyrir trúna á Christ, kénnir P_ll, géta syndarar orðið réttlátir fyrir Guði. Hvað þessi trú er, þarum er áður talað.

Ef vér lesum bréfið, einkum 6, 7 og 8 kap. með námfúsu sinnislagi, þá munum vér sannfærast um, að Páls lærdómur: að réttlætast hiá Guði fyrir trúna á Jesum, smiaðrar ecki fyrir vorum tilhneigíngum eða opnar oss veging til himnaríkis án syrirhafnar, heldur að hann þvertámót hvetur til dygðar og heilagleika, og þannin

hæckar og fullkomnar mannliga dygd. Því fyrst inngéfur hann oss háleita hugmind um eins guðdómliga lögmáls heilagleika, sem ei einasta ræður yfir vorum verkum, heldur einnig vorum hugskotum, óskum og tilgángi; sá þarámót sem heldur, að hann géti réttlætst fyrir Guði, með því að uppfylla lögmálið, hlýtur annaðhvert að ríra ens guddómliga lögmáls kröfur til vor eða hann þeckir sára lítið til sjálfs síns og þeirrar mannsligu dygdar ófullkomlegleika. Þessi lærdómur setur oss háleitt takmark fyrir sjónir, sem vér vissuliga altaf gétum nálgast, en aldrei fullkomliga náð. Hann auðmykir sakir þess hið mannliga hiarta, vekur hiá oss lifandi meðvitund um vorn breiskleika og diúpa tilfinníng þerfnunar vorrar til Guðs náðar; og með því að heimfæra náðan vora og sáluhiálpar von, ei til vorrar ófullkomnu dygdar, heldur til trúarinnar á vorn lausnara og talsmann hiá Guði, styrkir þessi lærdómur ei einasta vora sinnisrósemi, án hvorrar vér ei gætum képpst áfram þann þraunga veg, heldur vekur hann einnig í vorn hiarta barnligt þacklæti til Guðs og Jesú; og einasta sú hlydni er flytur af slíkri uppsprettu, er hreinskilin og friáls, er sonarlig, enn ei þrælslig hlydni.

Sá trúaði Kristinn mun ei heldur letiast í dygdarinnar þiónustu, þótt hann viðurkénni, að hann fyrir sín bestu verk ei verðskuldar sáluhiálp hiá Guði; því hann veit, að bæði hans sanna velfarnan hér í lífi, og hans sæla í því tilkomandi, verður, samqvæmt Guðs orði, eptir þeirri

trúmenſku hann ſynir í dygdarinnar þiónuſtu (Róm. 6, 15—23). Einaſta þeſsi lærdómur kénnir oſs, ad kreſiaſt ei launa af Gudi; og ſá trúadi Kriſtni medtekur ſérhvern Guds velgiorníng, ſem óverdſkuldada nád, og ſín tilkomandi kiør yfirlætur hann trúnadartrauſtſullur og róligur í Guds ſíns fødurs hønd. Þannin útliſtar Páll oſs meiníngu og tilgáng Jeſú Evangélii; og þegar vér høfum fyrſt lært ad audmykia oſs fyrir Gudi (7, 14—25) med Poſtulanum, og finna vorn vanmátt, vera eymd undir løgmálinu alleina, ſo munum vér áſamt honum finna naudſyn til þeſsa fridarins blída Bodſkapar, og guddómligs kraptar til dygdar og rádvendnis ſem þetta Evang eptir þeſs 8 kap. ordum, verkar í allra trúadra hiørtum. Vér megum ei annars undraſt yfir, ad þeſsi lærdómur, er ennú, ſem fyrr, mørgum einber fávitſka, og mørgum til áſteitíngar, því til ad ſkilia hans anda útkreſt audmiúkt og hreinſkilid hugarfar; ſá drambſami fyrirlítur hann og hræſnarinn rángſkilur hann.

Þetta ſama audmiuka hugarfar útheimtiſt ogſo til ad madur ei ſteiti ſig á nockrum ordatiltækium ſem fyrirkoma í þeim 9da kap. af þeſsu bréfi, t. d. ad Gud miſkunar ſig yfir þá, hann vill, og forherdir þann, hann vill; ad hann hefir ſama rétt til ad ákvarda mannanna kiør, ſem leirkéraſmidurinn til ad giøra þad eina kér til heidurs, þad annad til vanheidurs. Þeſsa og ſlíka ſtadi í þeſsu bréfi hafa ſumir rángſkilid þannveg, ad Páll kénndi, ad Gud hefdi frá eylífd ákvardad nockra menn til eylífrar ſælu, adra til eylífrar fordæmíngar. En ad þeſsir hafi hrædiliga rángſkilid Poſtulans ord, gétum vér ſéd, þegar vér af bréfſins ádur fráſkíldu innhaldi einaſta minnumſt, hvada tilgáng hann hefir fyrir augum í 9—11 kap. Páll leitaſt hér vid ad nidurþagga Gydínganna hofmód, ſem álíta ſig eina ad hafa rétt til Meſsiæ

ríkis, og útilokudu adrar þjódir þarfrá, hvorir meintu, ad þegar Gud vildi uppfylla þau fyrirheit, hann hafdi géfid þeirra forfedrum so mætti Gydíngar inntakast og Heidíngiar útilokast Til ad sannfæra þá um, ad Gud eins vel hafdi rétt til ad útskúfa þeim vantrúudu Gydíngum, einsog ad taka ad sér þá trúudu Heidíngia, gétur hann þess, ad Guds álýktanir áhrærandi þjódanna forlög á þessari jördu ætíd hafdi verid og væru fríar, þ. e.: væru byggdar á þeim ástædum, sem Gudi sjálfum alleina eru kunnar, og sem mannligur skilníngur ekki fær útgrundad Einsog hann frítt hafdi útvalid Ísaaks, en ekki Ísmaels, Jacobs, ekki Esaus nidia til ad vera sitt útvalid fólk; þannin útveldi hann ennþá bædi af Gydíngum og Heidíngium þá, sem hann vildi ad væru hans fólk. En hér megum vér vel athuga: Postulinn talar ekki um Guds álýktanir vidvíkiandi mannanna forlögum í eylífdinni, heldur um, hvørnin hann stýri fólksins kiörum á þessari jördu. Þad leidir af hans stiórnan, ad ein þjód ødlast fyrr, ennur seinna Kristindómsins þeckíngu. Enn einsog einginn verdur sæll, einasta af því hann þeckir Christum, so fordæmist heldur enginn, þótt hann ecki þecki hann fó hann annars án sakar og syndar; þetta kénnir Páll oss (Róm. 2, 12—14) En hvarfyrir Gud lætur þá einu þjód nióta stærri, adra minni luckn hér, þad getum vér ei skilid; ecki heldur gétum vér skilid þad (segir Postulinn framvegis), hvarfyrir margir Júdar, hvorium Kristindómurinn var bodadur, héldu áfram í vantrú sinni, medan adrir af þeim vidurkénndu Jesúm ad vera Messias. Einsog þad yfirhøfud er hulid fyrir oss, hvarfyrir Gud med sinni giædsku vinnur nockra, sosem Mósis; og þarámót fyrir sitt lánglundargéd forherdir adra, sosem Pharaó. Ad madurinn er giæddur friálsrædi, þad finnum vér, þess erum vér oss med-

vitandi; en vér vitum þarhiá, ad manneſkian af egin kroptum án Guds adſtodar, ei gétur komid til ſannleikans vidurkénníngar. Hvvrnin nú hvoru-tveggia manneſkiunnar friálsrædi og Guds medverk-an í manneſkiunni, ſameinaſt, þetta gétum vér ei hérnidri ſkilid, og úti þad megum vér ei grubla. Hér hlióttum vér med ſonarligu trúnadartrauſti til Guds ad þegia og trúa; því hér ſannaſt þad, ſem Jesús ſegir: Sælir eru þeir, ſem ecki ſiá og trúa þó. So mikid vitum vèr (og þad kénnir Páll oſs í 10da og 11ta kap.) ad Gud er jafnt allra fadir, ad hann vill ad allir verdi ſáluhólpnir, og neitar engum um þad, hann vidþarf til efl-íngar ſáluhiálp ſinni. Hrasi einhver, ſo kémur þad enganvegin þaraf, ad Gud óſkadi hans hreſun, heldur af mannanna mótþróa, og þót Gud ad vïſſu noti ſumra manna vantrú, til ad efla ann-ara ſálúhiálp; ſo ſkédur þetta þô enganvegin af því, ad hann þyrfti ad fella nockra til ad frelſa hid giervalla, heldur af því, ad hann ſem alvís ſtiórnari, veit af því vonda ſem manneſkiann med misbrúkan ſíns friálsrædis adheſſt, ad útleida þad ſem er gott. En í öllu þeſsu eru rádſtaf-anir hins Eylífa diúpur leyndardómur, ſem mann-ligt hyggiuvit ei má ætla ſig fært um, ad fá útgrundad.

# Prentvillur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 2 | síðu | 14 | línu | anda les andi. |
| | — | 26 | — | skérp l. skérpt. |
| 8 | — | 1 | — | siénarv: l. siónarv. |
| | — | 17 | — | tilækium l. tiltækium. |
| 9 | — | 4 | — | þvílíka vér l. vér þvílíka. |
| | — | 16 | — | Stephans l. Stephani. |
| 19 | — | 29 | — | þá l. því. |
| 25 | — | 13 | — | eingsog l. einsog. |
| 26 | — | 10 | — | ordati:ækium l. ordatiltækium. |
| 28 | — | 13 | — | af l. ad. |
| | — | 15 | — | a skildad l. ad skylda. |
| 36 | — | 2 | — | ; l. , |
| | — | 9 | — | vorra l. vorri. |
| 38 | — | 27 | — | hinn l. sinn. |
| 39 | — | 7 | — | fulli l. fullir. |
| 45 | — | 2 | — | þan l þar. |
| 47 | — | 20 | — | þvíumligt l. þvíumlíkt. |
| 51 | — | 2 | — | aslar l. aflar. |
| 54 | — | 20 | — | ydur l. ydar. |
| 60 | — | 10 | — | alvorugéjni l. alvorugéfnis. |
| 62 | — | 17 | — | kost·iæsid l. kostgiæfid. |
| 67 | — | 15 | — | illgionustu l. illgiornustu |
| 72 | — | 24 | — | timastada l. tíma, stada. |
| | — | 25 | — | en ecki, vér l. en ecki vér. |
| 79 | — | 17 | — | hneixanligt l. hneixlanligt. |
| 87 | — | 4 | — | hanserindag l. hans erindag. |
| 91 | — | 27 | — | vvrri l. vorri. |
| 98 | — | 9 | — | óhannes l. Jóhannes. |
| 99 | — | 10 | — | til efla l. til ad efla. |
| 103 | — | 27 | — | verdid l. sverdid. |
| 105 | — | 4 | — | þeir sem l. sem þeir. |
| 120 | — | 1 | — | þesu l. þessum. |
| 121 | — | 3 | — | vér; l. vér, |
| 134 | — | 18 | — | diupsæru l. diúpsæru. |
| 138 | — | 7 | — | ennin l. einnin. |
| 139 | — | 4 | — | skiliast eiga l. ei skiliast eiga. |
| 143 | — | 25 | — | huggpr l. hugprúda. |

144 sídu 14 línu þrekverkis l. þrekvirkis.
157 — 22 — lesum l. lesum.
158 — 22 — er díblíssu l. er í díblísu.
162 — 16 — gúdspiallbókar l. gudspialla-bókar.
— 24 — annadveggia l. annadtveggia.
173 — 2 — þá l. þeir.

Hvervetna hvar áherslu nóta skal standa yfir y, er hún undanfeld, þar prentsmidiunni var vant þeirra stafa í því letri. Verdi fleiri stafafeil edur lyti fyrir gódfúsum lesurum í bók þessari, bidium vér þá bródurliga ad lagfæra og lesa þau sem vera ber. Naumur tími og adrar óhægdir, sem samfara eru prentun íslendskra ritgiörda erlendis, valda þeim fremur enn hirduleysi hlutadeigaenda, er vona ad gudræknum lesurum muni fremur annt um, ad leita ad merg og kiarna í bókinni, enn smásmugliga ad telia einstakra stafa-vílur edur van henni til lyta.

